# Sañleike Udhrædslunar,

I einfaldre og stuttre, eñ þo ançgianlegre

## Utskijringu,

Yfer þann Litla

## Barna-Lærdoom,

edur

## CATECHISMUM,

Doct. MARTINI LUTHERI.

Iñehaldande allt þad, sem sa þarf ad vita og giora, er vill verda Sæluhoolpeñ.

Samañskrifadur epter Konunglegre allranaaduguſtu Skipan, til almeñelegrar Brwkunar.

Selst innbundenn 10. Fiskum.

Prentadur a Hoolum i Hialltadal, Af Gudmunde Jons Syne, 1781.



Peir sem kenna ødrum þesse christeleg Fræde, athuge: 1.) Ad þær Spurningar, sem Strik er vid a Spatziune, eiga ecke ad læraſt utanad, af þeim sem eru tornæmer, edur hafa litla Tijd til ſlijkra Idkana, heldur eiga þær ad leſaſt vel og yfervegaſt af þeim; Enn þau Ungmenne, sem hafa betra Næme og Tijd, eiga ad læra þær, og eckert i þeſſum Frædum undann ad fella. 2.) Er þad adgiætande, ad þau Ord, sem finnaſt i Greinum Ritningarennar med breyttum Bookſtøfum, eru Atrides-Ord, sem helſt bevijſa Andſvar nærſt fyrerfarande Spurningar.





Sa litle Lutheri

# Catechismus.

## Þetta eru

# Tiju Laga Bodord Guds.

### Fyrsta Bodord

Eg er DRottenn Gud þinn, þu skallt ecke hafa annarlega Gude fyrer mier.

Hvad er þad? Þad er:

Vier eigum yfer alla Hlute fram̃, Gud ad Ottast, ham̃ ad elska, og a ham̃ einn ad trwa.

### Am̃ad Bodord.

Þu skallt ecke leggia Nafn DRottenns Guds þijns vid Hiegooma, þvi DRottenn mun eige hallda þam̃ saklausam̃, sem brwkar hanns Nafn hiegoomlega.

Hvad er þad? Þad er:

Vier eigum ad Ottast og elska Gud.

Eingum eigum vier ills ad bidia i ham̃s Nafne, eige sveria vid þad, nie Fiolkinge fremia, eige lwga nie svijkia; Helldur eigum vier Guds Nafn ad akalla, i øllum vorum Naudsynium, þad ad tilbidia, lofa þad, og þvi Þacker ad giora.

### Þridia Bodord.

Minstu ad helga Hvijldardageñ DRottens Guds þijns.

Hvad er þad? Þad er;
Vier eigum ad Ottast og elska Gud.

Ad vier eige fyrerlijtum Predikuneña nie hanns Ord; Heldur eigum vier þad heilagt ad halda, giarnaṇn heyra þad og læra.

## Fioorda Bodord.

Heidra skalt þu Fødur þinn og Moodur, so þier vel vegne, og þu verder læanglijfur a Jørduñe.

Hvad er þad? Þad er:
Vier eigum ad Ottast og elska Gud.

Ad vier eige fyrerlijtum vora Foreldra, nie þær sem yfer oss eru bodner, eige þær til Reide reitum; Heldur þær i Heidre hofum, þioonum þeim og hlijdner sieum, elskum þær og Virding veitum.

## Fiñta Bodord.

Þu skalt ecke Mann deyda.

Hvad er þad? Þad er:
Vier eigum ad Ottast og elska Gud.

Ad vier eige meidum Hold vors Næunga, edur giorum honum Mein i nockru; Heldur eigum vier honum ad biarga og vidhiælpa, i ollum hañs Lijfs Naudsynium.

## Siøtta Bodord.

Þu skalt ecke Hoordoom drijgia.

Hvad er þad? Þad er:

Vier eigum ad Ottast og elska Gud.
Ad vier lifum hreinferduglega bæde i Ordum og Verkum, og ad hvor ein elske og i Heidre hafi sijna, Egta-Persoonu.

## Siøunda Bodord.

Þu skallt ecke stela.

Hvad er þad ? Þad er :

Vier eigum ad Ottast og elska Gud.
Ad vier eige grijpum Gotz edur Peninga vors Nauunga, edur med fölskum Kaup-Eyre edur Underhyggiu under oss drøgum; Helldur eigum vier honum ad hiaalpa, so hanns Gotz og Upp-Ellde avaxtest og vardveitest.

## Attunda Bodord.

Þu skallt ecke bera falskann Vitnesburd a moote þijnum Naunga.

Hvad er þad ? Þad er :

Vier eigum ad Ottast og elska Gud.
Ad vier eige ranglega liwgum nockru a vorn Naunga, eige svijkium, baktolum, edur ofrægium hann i nockru; Helldur eigum vier hann ad afsaka, allt gott um hann ad tala, og færa alla Hlute til betra Vegar.

## Nijunda Bodord.

Þu skallt ecke gyrnast Hws Naunga þijns.

Hvad er þad ? Þad er :

Vier eigum ad Ottast og elska Gud.
Ad vier eige med Flærd stundum epter Arfi edur Fast-Eign vors Naunga, edur under oss drø-

gum med Yfirvarpe Laga og Rettenda; Helldur eigum vier þar til ad hiaalpa og styrkia, ad hann hafi sitt allt Oskaddad.

## Tijunda Bodord.

Þu skallt ecke gyrnast Kvinnu Naunga þijns, eige Þioon, nie Þioonustu Kvinnu, eige Uxa nie Asna, og eckert þad hanns er.

Hvad er þad? Þad er:

Vier eigum ad Ottast og elska Gud.

Ad vier eige burt-tælum edur lockum fraa vorum Naunga hanns Eigen-Kvinu, Þioonustu-Foolk eda Kvik-Fe; Helldur eigum vier ad aaminna og raadleggia, ad hvør og eiñ sie samt og aastunde, ad þioona þad honum skylldugt er.

Hvad seger Gud af øllum þessum Bodordum?

Hann seger so i Exodi B. 20. Cap. Eg er DRottenn Gud þinn, sterkur Vandlætare, vitiande Raangleætes Fedranna aa Sonunum, i Þridiu og Fioordu Ættkvijsl, þeirra sem mig hata; Enn giørande Myskunseme i Þusund Lidu, þeim sem mig elska, og mijn Bodord vardveita.

Hvad er þad? Þad er:

Gud hootar þeim øllum Pijnu, sem afvijkia þessum hañs Bodordum; Þvi eigum vier ad Ottast og hræðast hañs Reide, og eckert ad giøra moote hañs Bodordum; Eñ þeim øllum, sem þesse hañs Bodord hallda, lofar hañ siñe Naad, Myskuñ, og øllum goodum Hlutum; Þar fyrer eigum vier Gud ad elska, trwa honum og treysta, og epter hañs Bodordum giarnañ ad giøra

Trw-

# Trwar-Jatningen.

## Fyrsta Grein
## Af Skøpunenne.

Eg trwe a einn Gud Fødur Almattugann, Skapara Himens og Jardar.

Hvad er þad ? Þad er :

Eg trwe ad Gud hafi skapad mig, asamt øllum odrum Skepnum, og ad hañ hafi gefid mier Ønd og Lijkama, Augu, Eyru og alla Limu, þar med Skin og Skilningar-Vit, og ad hañ øllu þessu enn nu vid Magt helldur. Hier til veiter hañ mier og fyrersier nooglega, og daglega gefur hañ mier Klæde og Skiæde, Mat og Dryck, Hws og Heimile, Fodur og Moodur, Akur og Kvik-Fe, og allt þad sem gott er, med øllu þvi eg med þarf til þessa Lijfs Upphelldes ; Hañ verndar mig og vardveiter fra øllum Skada og Hæska, og øllum illum Hlutum. Allt þetta gott veiter hañ mier, af siñe einskiærre, fødurlegre, gudlegre Goodgyrnd og Myskun, an allrar minnar Forþenustu og Verdskulldunar. Fyrer hvad allt eg a honum Lof og Þacker ad giora, honum ad þioona og hlijdenn ad vera ; Þetta eru vissuleg Sannende.

## Aunnur Grein
## Af Endurlausnenne.

Eg trwe a JEsum Christum Son hañs

Eingetenn DRottenn voru, hver ed geteñ var af heiløgum Anda, fæddur af Mariu Meyu, pijndur under Pontio Pilato, kroßfestur, deyddur og grafinn, nidurstie hann til Helvijtes, og a þridia Dege reis hann upp fra Daudum, uppstie hann til Himna, situr nu til Guds Fødurs Almattugs hægre Handar, og þadann mun hann koma ad dæma Lifendur og Dauda.

Hvad er þad? Þad er:

Eg trwe ad JEsus Christus sie sañur Gud af Fødurnum getenn fyrer allar Allder; Lijka sañur Madur, fæddur af Mariu Meyu, ad hañ sie miñ DRotteñ, sem mig glatadañ og fyrerdæmdañ Mañ hefur afrekad, endurleyst og frelsad, frá øllum Syndum, Daudanum og Diøfulsins Vallde, eigé med Gulle nie Silfre, helldur med sijnu heilaga dijrmæta Bloode, og med siñe saklausu Pijnu og Dauda; So ad eg sie hañs eigeñleg Eign, lifi under hañs Vallde, i hañs Rijke, honum þione i eilijfu Rettlæte, Meinleyse og Sæluhiælp, lijka sem hañ er sialfur af Daudanum uppriñnn, lifir og rijker ad eilijfu. Þetta eru vissuleg Sannende.

## Þridia Grein
### Af Helgunenne.

Eg trwe a Heilagann Anda, og ad sie ein heiløg, almenneleg, christeleg Kyrkia,

Samneyte Heilagra, Fyrergefning Synd-
anna, Holldsins Upprisa, og epter þetta Lijf,
eilijft Lijf, AMEN.

Hvad er þad ? Þad er :

Eg trwe, ad eg gete ecke af siälfs mijns eigeñ
Krapte edur Skilninge trwad a JEsum Chri-
stum miñ DRotteñ, edur til hañs komest: Helld-
ur hefur heilagur Ande mig, fyrer Gudspiallañs
Keñing, kallad og upplyst med sijnum Astgiofum,
helgad mig og vidhallded i rettre Trw; Lijka sem
hañ alla adra christna Meñ a Jordu kallar, sa-
mañsafnar, upplijsir og helgar, og i eiñe rettre
Trw til JEsum Christum vardveiter. J hverre
christelegre Kyrkiu hañ nadarsamlega fyrergef-
ur mier og ollum Trwudum daglega allar Synd-
er: Og a effsta Dege mun hañ uppvekia mig og
alla Meñ af Dauda, og gefa mier, med ollum
Rett-trwudum, i Christo JEsu, eilijft Lijf og Sa-
luhiälp. Þetta eru vissuleg Sannende

# DRottennleg Bæn.

## Fader vor, þu sem ert a Himnum.

Hvad er þad ? Þad er :

Gud vill hier med til-leida oss og locka, ad vier
trwa skulum ad hañ sie vor rettelegur Fader, og
vier hañs sañarleg Born; So vier þess helldur
med fullu Trwnadar Trauste meigum hañ bidia,
so sem good Born bidia siñ elskulegañ Fodur.

## Fyrsta Bæn.

### Helgest þitt Nafn.

Hvad er þad? Þad er:

Guds Nafn er sañarlega i siaalfu sier heilagt, þo vier bidium ecke; Enn vier bidium i þessare Bæn, ad þad eiñig helgest hier med oss.

Hvernig skedur þad?

Nær Guds Ord keñest rettelega og hreinlega, og vier epter þvi lifum heilaglega, so sem Guds Bornum hæfir. Þar til hiaalpe oss vor elskulege Fader a Himnum! Eñ hver sem odruvijse keñer edur lifir eñ Guds Ord bijdur, saa vanhelgar Guds Nafn a medal vor. Þar fraa vardveite oss vor elskulege himneske Fader!

## Aunnur Bæn.

### Til-kome þitt Rijke.

Hvad er þad? Þad er:

Guds Rijke kemur ad soñu aan vorrar Bænar af siaalfu sier til; Eñ vier bidium i þessare Bæn, ad þad eiñig kome til vor.

Hvernig skedur þad?

Nær Gud gefur oss siñ heilaga Anda, saa oss veiter þa Naad, ad vier trwum hañs heilaga Orde, lifum heilaglega hier stundlega, enn annars Heims eilijflega.

## Þridia Bæn.

### Verde þiñ Vilie, so a Jørdu sem a Himne.

Hvad er þad? Þad er:

Guds

Guds goodur og nædugur Vilie verdur a Himnum, þo vier bidium ecke; eñ vier bidium i þessare Bæn, ad hañs Vilie verde hier a medal vor.

Hvernig skedur þad?

Nær Gud Onijter og hindrar oll ill Rad og vondañ Vilia, þeirra sem þvi vallda, ad Guds Nafn vanhelgast og hañs Rijke næer ei til vor ad koma; Sem eru, Diosulleñ, Heimureñ og vor holldleg Vilie; Helldr styrker hañ oss og stoduga giorer i sijnum Ordum og i Trwñe, allt til vorra Æfiloka. Þetta er hñs myskunsam og good Vilie.

# Fioorda Bæn.

Gef oss i Dag vort daglegt Braud.

Hvad er þad? Þad er:

Gud gefur ad soñu daglegt Braud, jafnvel vondum Moñum, þo vier bidium ecke; Eñ vier bidium i þessare Bæn, ad hañ laate oss vort daglegt Braud vidurkenna, og med Þacklæte til vor medtaka.

Hvad kallast daglegt Braud?

Þad kallast allt þad, sem naudsynlegt er til þessa Lijfs Biargar; Sem er: Matur og Dryckur, Klæde og Skiæde, Hws og Heimile, Todur og Engiar, Kvik-Fenadur, Goß og Peningar, good Egta-Persoona, hlijden Born, dyggt Pioonustu Foolk, trwer og froomer Yfirmeñ, good Almwgans Stioorn, hagstæd Vedurætta, Fridur, Heilbrygde, Sidseme, Heidur, gooder Viner, trwfaster Nagrannar, og allt annad þessu lijkt.

## Fimta Bæn.

Fyrergef oss vorar Skullder, so sem vier og fyrergefum vorum Skulldu-Nautum.

Hvad er þad? Þad er:

Vier bidium i þessare Bæn, ad Fader vor him̃neskur vilie ei ꝏlijta vorar Synder, so hañ fyrer þeirra Skulld, vilie eige veita oss vora Bæn (þvi vier erum allra þeirra Hluta Omakleger, sem vier hañ um̃bidium, og hofum eige þad verdskulldad) helldur ad hañ vilie oss þad allt gefa fyrer sijna eigeñlega Nꝏd: Þvi daglega syndgum vier, og forþenum ei añad eñ Straff; So vilium vier og eiñig þar i moot fyrergefa af Hiarta, þeim sem oss ꝏ moote brioota, og giora þeim gott, sem vid oss misgiora.

## Siotta Bæn.

Eige innleid þu oss i Freistne.

Hvad er þad? Þad er:

Gud freistar ad soñu einkes Mañs, eñ vier bidium i þessare Bæn, ad hañ vilie vernda oss og vardveita frꝏ Andskotans, Heimsins og Hollldsins Vielum, so vier hropum ecke fyrer þeirra Tilteiging i Vantrw, Orvænting, edur adrar stoor-Synder og Lostu, og þo vier freistunst af ollu þessu, þa lꝏte hañ oss um̃ sijder yfirviña og Sigrenum hallda.

## Siounda Bæn.

Helldur frelsa oss frꝏ Illu.

Hvad er þad? Þad er:

Hier bidium vier alls i einu i þessare Bæn, ad Fad-
er vor himneskur, frelse oss fra ollu Illu til Lijfs og
Sælar Farsældar og Heidurs; Og ad sijdurstu,
þa vor Daudastund er komen, gefe hañ oss good-
ann Afgang, og take oss mysku nsamlega til sijn
wr þessum Eymdar-Dal, iñ i Himna-Rijke.

AMEN. Hvad er þad?

Þad er: Ad eg skal vera fullviss, ad þessar vor-
ar Bæner sieu vorum himneska Fodur þacknæme-
legar, og af honum heyrdar; Þvi hañ hefur sialf-
ur skipad, ad vier skyldum med soddañ Hætte bid-
ia, og hefur lofad, ad hann vilde oss bænheyra.
AMEN! AMEN! Þad er: Ja, sannarlega,
þad skal so vera.

# Sacramentum H. Skijrnar.

## Fyrsta Spurning.

Hvad er Skijrn?

Skijrnen er ecke einsamalt Vatn, heldur er hun
þad Vatn, sem samañ er reirdt og bunded med
Guds Bodorde, og med Guds Orde samteingt.

Hvert er þad Guds Ord?

Þad vor HErra JEsus Christur sagde hiaa
Matth. i 28. Cap. Fared wt um allañ Heim-
eñ, kiened øllum Pioodum, og skijred þær i
Nafne Fodur, og Sonar, og Anda heilags.

## Onnur Spurning.

Hvad wtvegar oss og veiter Skijrnen?

Hun

Hun wtvegar oss og veiter Fyrergefning Synda, frelsar oss fra Daudanum og Dioflenum, og gefur þeim ollum eilijfa Saaluhialp, sem trwa þvi, sem Orden Guds og Fyrerheiten losa.

Hvor eru þau Guds Ord og Fyrerheit?
Þau vor Herra JEsus Christur seger hia Marcum i 16. Cap. Hvør hañ trwer, og verdur skijrdur, sa skal hoolpenn verda, enn hvør hañ ecke trwer, sa skal verda fordæmdur.

## Þridia Spurning.

Hvernig maa Vatned orka so veglegra Hluta?
Vatned maa alldrei slijks orka, heldur veiter þad Guds Ord (hvert ad er i og med Vatnenu) og Trwen, hvered slijkum Guds Ordum i Vatnenu trwer, þvi fyrer utañ Guds Ord er Vatned einsamalt Vatn, eñ eingen Skijrn; Eñ þegar Guds Ord samlagast Vatnenu, þa er þad Skijrn. Þad er naadarfullt Lijfsins Vatn, og Endurgetningar Laug i heilogum Anda, so sem Paall Postule seger: Tit. 3. Cap. Epter siñe Myskunseme hefur Gud oss hoolpna giort, fyrer þañ Endurgetningar Vatns Saa, og Endurnijun H. Anda, hvørium hañ hefur nooglega wthellt yfer oss, fyrer JEsum Christum vorn Lausnara, so vier rettlætter fyrer hans Naad, yrdum Erfingiar eilijfs Lijfs epter Voneñe. Þesse Ord eru soñ og trwanleg.

## Fioorda Spurning.

Hvad merker þvilijk Vatns Skijrn?
Hun merker þad, ad sa hiñ gamle Adam i oss, sa daglega ad dreckiast og deydast, fyrer Idran og Yfer=

Yferboot, med ollum Syndum og vondum Gyrndum; Og sijdan daglega fram koma og upp aptur rijsa eiñ nijr Madur, sæd lifa skal i Rettlæte og Heilagleika, fyrer Gude æfinnlega.

Hvar stendur þad skrifad ?

Sancte Paall seger til Rom. i 6. Capitula: Vier erum jardader med Christo, fyrer Skijrnena i Daudann, ad lijka so sem Christur er uppvakenn fra Daudum, fyrer Dijrd Fødursins, so eigum vier ad gannga i Endurnijungu Lijfdagana.

# Sacramentum H. Altaris.

## Fyrsta Spurning.

Hvad er Sacramentum Altaris ?

Sacramentum Altaris er sannarlegt Hold og Blood DRottenns vors JEsu Christi, under Braude og Vijne, af hønum sialfum Jesu Christo, iñsett ofs christnum Moñum ad eta og drecka.

Hvar stendur þad skrifad ?

So skrifa þeir H. Gudspiallameñ, Matthæus, Marcus, Lucas, og S. Paall: Vor HErra JEsus Christus, a þeirre Natt, sem hann forraadeñ var, took hann Brauded, giørde Packer, og braut þad, og gaf sijnum Læresveinum, og sagde: Taked og eted, þetta er miñ Lijkame, sem fyrer ydur verdur gefeñ. Giøred þad i mijna Minning.

Sømuleides, epter Kvølldmaaltijdena, took hañ Kaleikeñ, giørde Packer, gaf þeim hann

hañ og ſagde: Drecked aller hier af, þetta er Kaleikur hins Nija Teſtamentis i mijnu Bloode, ſem fyrer ydur wthelleſt til Fyrergefningar Syndaña. So opt ſem þier giøred þetta, drecked þad i mijna Miñing.

## Oñur Spurning.

Hvad ſtodar oſs med ſoddañ Hætte ad eta og drecka hier af?

Þad wtvijſa mier þeſſe Orden ſem hier ſtanda: Fyrer ydur gefſt og wthelleſt til Fyrergefningar Syndaña. Þvi ad ſoñu veiteſt oſs og gefſt fyrer þeſſe Orden i Sacramentenu, Syndanna Fyrergefning, eilijft Lijf og Sæluhiælp; Þvi hvar Syndanna Fyrergefning er, þar er einnig Lijfed og Sæluhiælpen.

## Þridia Spurning.

Hverneñ kañ lijkamleg Berging ad verka ſo mikla Hlute?

Berging Brauds og Vijns, verkar þad i eingañ Mœta, heldur þau Orden ſem hier ſtanda: Fyrer ydur gefſt og wthelleſt, til Fyrergefningar Syndanna. Hvør Ord ad eru hiæ lijkamlegre Bergingu, ſo ſem Hofud Sticke i þeſſu Sacramente. Hvør ſem þeſſum Ordum trwer, ſæ odlaſt allt þad þau iñehalda og uppæ hlivoda, ſem er Syndanna Fyrergefning.

## Fioorda Spurning.

Hvør neyter þeſſa Sacramentis maklega?

Ad fasta, og sig lijkamlega þar til ad bwa, er ad soñu good ytre Sidseme; Eñ sa er sañarlega makelegur og vel skickadur, sem Trwna hefur a þessum Ordum: Fyrer ydur gefst og wthellest, til Fyrergefningar Syndaña. Eñ hver sem ecke trwer þessum Ordum, og efar þau, sa er Omaklegur, þviad þetta Orded: Fyrer ydur, krefur fullkomlegrar Trwar i Hiartanu.



# Stutt Agrip

## Þess christelega Lærdooms, Ungum og Fasroodum til frekare Skilnings.

Það er alleina eiñ sañur Gud til i þremur Personum, Fader, Sonur og heilagur Ande.

2. Þesse þrij = eine Gud hefur skapad allann Heimenn, so sem hann og einnig heldur hønum enn nu vid Magt, og stiirer hønum.

3. Englarner voru aller af Gude skapader gooder og heilager, eñ nockrer fellu fyrer sijna Ohlijdne fra Gude, þeir ed kallast Dioflar.

4. Madurenn var og einnig skapadur af Gude an Syndar, epter Guds Mind, til ad þioona hønum.

5. Þesse Guds Mind var innefaleñ i nakvæmlegre Samlijkingu vid Gud, edur i søñum Vijsdoome, Rettlæte og Heilagleika.

6. J þessu Sakleysesens Stande var Madurenn farsæll, af þvi hann lifde i Sameiningu med Gude, sem er sa hærste Goode.

7. Eñ vorer fyrstu Foreldrar, Adam og Eva, letu Dioflen svijkia sig, til ad snwast iñvortes i Hiartanu fra Gude,

Gude,og utvortes,til ad eta af þm forbodna Tres Avexte.

8. Þess vegna töpudu þau Guds Mind, i Stadenn fyrer hvoria ad kom Diöfulsens Mind, edur Likiing vid þennann Guds Ovin. Skilningurenn vard formyrkvad-ur, Vilienn fraasnwenn, og daudur til hinns gooda, enn þneigdur og ferdugur til alls ills.

9. Þar med töpudu þau og einnig þeirra sælufulla Samfielagskap med Gude, fiellu under Guds Reide, og urdu sek tiimanlegs, andlegs og eiliifs Dauda.

10. Nu med þvi Adam og Eva voru þau Stofn, af hvorium allar Manneskiur hafa sinn Uppruna, þau hafa þesser fyrstu Forelldrar geted Börn epter sinne Mind, og asamt med þeirre mannlegu Natturu, innrætt Syndena og Daudann i alla siina Epterkomendur.

11. Þess vegna vantar alla Menn, af Natturunne til Guds Mind, þann medskapada Visdoom og Heilagleika; Enn i hennar Stad fædast þeir med Uppruna-Syndenne, andlega blinder, Oheilager og mootviliuger.

12. Ut af þessare medfæddu Uppruna-Synd, fliota allar giörannlegar Synder, i Hugrenningum, Gyrndum, Ordum og Verkum.

13. Sökum þessa eru allar Manneskiur i þessu vesæla Syndarennar Stande, af Natturunne til, under Guds Reide, sekar tiimannlegs, andlegs og eiliifs Straffs.

14. Frau soddann eiliifre Eymd, gat eingen sköpud Skepna frelsad oss.

15. Enn Gud, sem i frau eiliifu sau þessa Mannkynsens allra stærstu Neyd og Hörmung, hefur af Oforþientum Kiærleika hræst til innelegrar Medaumkunar, og auglykt-ad ad senda öllum Mönnum sinn eingetna Son, sau ed være þeirra Endurlausnare.

16. Þesse Endurlausnarenn, sem heiter J E S U S Christur, var Veröldenne lofadur strax epter Syndafall-ed, og hanns bitre og bloodugе Daude, var i þvi gamla Testamentenu teiknadur og fyrermindadur, med Fooru-

færingum

fœringum margra Þusund Dijra.

17. Loksens i Tijmanns Uppfyllingu, var þesse Guds eilijfur Sonur, fyrer heilags Anda Yferskyggingu, getenn ain Syndar, og fæddur i Heimenn af sinne Moodur, hinne heilögu Joomfrw Maria.

18. Þesse vor blessade Endurlausnare, hefur þvi tvær Natturur i einne Persönu, guddoomlega og mañdoomlega, so hann er bæde Gud og Madur.

19. Epter sijnu Embætte er hann sa eeinoste Medalgangare mille Guds og Manna, vor ædste Kieñemadur, Spamadur og Konungur, i tvöfalldu Stande, Niðurlægingarennar og Upphafningarennar.

20. Med sijnum heilaga Lifnade og fullkomeñe Hlijdne, hefur hañ i vorn Stad Logmaled uppfyllt, med sinne bitru Pijnu, hefur hañ wtstaded Straffed fyrer oss, og funded til Logmalsens Bölvunnar, bæde a Saul og Lijkama, einnig tijmanlegs og eilijfs Dauda, vegna vorra Synda, sem honum voru i Guds Doome tilreiknadar.

21. Med þessare sinne Hlijdne og Pijnu, hefur hoñ stillt til Fridar Guds Rettlæte, forlijkad oss vid Gud, afrekad oss Frelse fra Syndeñe og allu Illu, samt Rett til Sameiningar vid Gud, og alla Saluhjalp sem þar af kemur, og þañig alldeiles fullkomnad þad stoora Endurlausnarenar Verk.

22. J Grofeñe var JEsus eige leingur epter sinn Dauda enn til þess a þridia Dege, þa Faderenn uppvakte hann, og hann sialfur med stoorum Sigurviñingar Krapte yfer sijnum og vorum Ovinum, uppreis fra Daudum, auglijsande ad hann hefde betalad fyrer oss Syndarennar Gialld, allt til sijdarsta Penings.

23. Epter Upprisuna er Christur uppstijgeñ til Himens, og hefur sett sig hia Guds hægre Hende, hvar hañ bidur fyrer oss, og sender oss siñ heilaga Anda, so ad hanns wtvegada Saluhialp kome oss til gooda.

24 Heilagur Ande kallar alla Menn alvarlega til

þeſsarar Sæluhiælpar, og verkar kroptuglega fyrer Naudar Medølen, (þad er) Ordid og þau tvø Sacramenta, ſyner og eini̇g viſſann Hætt og Mata, hvørnig Menn kunna ad ødlaſt þa afrekudu Sæluhiælp.

25. Þeſſe Hættur kallaſt Sæluhiælparennar Mate, og er innefalenn i ſanure Umvendan til Guds.

26. Umvendunarennar Partar eru Tveir, Hugar Angred og Trwen.

27. Angur og Trege eru, ad þeckia riettelega af Lögmalenu ſijna natturlegu Spilling, og giøranlegar Synder, finna ſarlega til þeirra, og hata þær alvarlega

28. Af ſoddann Tilfinningu ſinnar eigenn Eymdar, frame̅kemur fyrer Evangelium, Trwarennar Epterlangan til Guds Naudar i Chriſto.

29. Þeſſe Trw frambijdur ſig ſijnum Lauſnara, og umfadmar med ſtoorre Epterlangan hans dijrmætu Forþienuſtu og Verdſkulldan, ſem ſin einaſta Sæluhiælpar Grunndvøll.

30. Somu Trwar rietta Edle og Eigi̇nlegleike er, ad hun ſtrax augliijſer ſig verkande i Kiærleikanum til Guds og Naungans, ſem og eini̇g i daglegre Hiartans Hreinſan.

31. Hver ſem þa ecke mootſtendur heilags Anda Naud, helldur lætur ſig leida til þeſſa ſæluhiælplega Mata, han uppvaknar af ſijnum andlega Dauda, endurfædeſt til þeſs Lifnadar, ſem er nijr, ødlaſt aptur þa tøpudu Guds Mind, nijtt Lioos i Skilningenum, nija Gyrnd og Krapt i Vilianum, nijtt umbreytt Sine og Hiartalag. Han rettlæteſt, þad er, iklædeſt Chriſti Rettlæte, frijaſt frá Sekt og Straffe Syndarennar med þvi Herradæme Syndarenar er þa einnig burtteked.

32. Hann ſameinaſt med Trwnne nu nij vid Gud, og ødlaſt Hlutti̇ipte i øllum þeim Ometanlegu NaudarGaafum, ſem Chriſtur hefur utvegad.

33 Nu er hann ordenn ſannarlegt og ſæluhiælplegt Guds Barn, og hefur lifande Von um Himnarijkes eilijfa

lijfa Arfleifd.

34. Nu fær han guddoomlegt Lioos og Krapt, bæde til ad þiervijna þad illa (so han syndge ecke framar af asettu Raade moote Samvitskunne) og til ad epterfylgia þvi gooda af øllu Hiarta, so han leitar nu ydnglega Guds Rijkes og hans Rettlætes, og framgengur a Jordunne med himneskri Sinne, og so sem fyrer Guds Auglite.

35. Nu hefur han sanna Huggun i øllum Mootgangc, søkum þess, ad Guds Rijke, sem er Rettlæte, Fridur og Fagnadur i heilogum Anda, byr i hanns Hiarta, jafnvel þoott þad oft og tijdum sie huled under Veitleika og Sturlan

36. Enn vilie han ecke tapa soddan sinu saluhialplegu Raadar Stande, þa hlijtur hann fyrer Trwna ad blijfa i Christo, og lata sier stioorna af hans Anda.

37. Han hlijtur med innelegre Bæn og Hiartans Alvørugefne, kostgiæfelega ad brwka þau Medøl, med hverium hanns Trw kan ad haldast vid Magt og styrkiast, sem er Guds heilaga Ord og Sacrament.

38. Han verdur þa rett ad vaka, strijda og bidia moote Diøflenum, Heimenum og Syndene, hverrar Epterleifar loda enn nu vid han, enn skulu wthreinsast æ meir og meir, med daglegre Endurnijan, og þar a moote Guds Mind meir og meir i hønum uppreisast, so han late augliooslega sia i sinn Lijferne, ad han sem endurfædt Guds Barn, er naaskildur þessum sinum himneska Fodur, elske allt þad er han elskar, enn hate allt þad sem han hatar, og allt þad sem Veralden er full af, nefnelega, Fijsn Augnanna, Gyrnd Holdsens, og drambsamt Lijferne.

39. Hann hlijtur daglega ad afneyta sialfum sier, og bera Krossenn þolenmoodlega epter sijnum Frelsara a þeim þraunga Vege.

40. Hvør sem blijfur stødugur a þessum Vege, alla sina Lijfs-Tijd, hønum er Daudenn umm sijder Abate og fullkomed Frelse.

41. Þvi hafi mun ꝏ effta Dege uppriifa, ecke til Fordæmingar helldur til eiliifs veasamlegs Liifs, og eiñar Oupplcyſañlegrar Sameiningar med Gude.

42 Eñ hver ſem ecke vill epter þeſſare Hiꝏlpræðeſins Niðurſkipan medtaka og brwka Guds Rꝏd, hañ er i ſijnu ſynduga Nꝏttuꝛuñar Standc, verdur adſkileñ fra Gude, og hlijtur ad vænta Hlutſkiptes med Dioflenum og hañs Arum i eilijfre Fyrerdæmingu.

---

# Utskijring CATECHISMI.

MItt kiæra Barn, villtu eige giarnañ verda ſarſæll hier i Heime, og niovta ſijdann eilijfrar Sælu a Himnum ?

Viſſulega, ef eg ad eins giæte orded þad.

Villtu þꝏ ganga þann Veg, ſem leider til þeſſa Takmarks ?

Jꝏ, ef eg giæte funded hann.

Trwer þu ad þar ſie eiñ Gud til ?

Jꝏ, þvi Heimureñ hefur eige getad ſkapad ſig ſiaalfur, helldur hlijtur til hañs ad hafa vered nockur Orſök, ſem er elldre og ædre eñ aller Hluter; Og bad er ſw eilijfa Vera, ſem kallaſt Gud.

Trwer þu ad Gud raade fyrer eilijfre Saluhiaalp ?

Viſſulega, þvi hann er yfir ollum Hlutum.

Trwer þu ad Gud uñe þier eilijfrar Saluhiaalpar ?

A vijſu, þvi hann er einn goodur Gud.

Mun Gud vilia vijſa þier Veg til eilijf- rar

rar Sæluhiælpar ?

Ad sonnu, þad kann eige ad bregdast.

Med hveriu viisar Gud þier og mier þennañ Veg ?

Med sijnu heilaga Orde.

Hofum vier þa þetta Guds Ord vor a medal ?

Ja, i heilagre Ritningu, sem kallast Biblia.

Hefur Heimureñ ætijd haft Guds Ord ?

Ja, þvi ædur eñ Moyses var a Dogum hofdu Meñ Guds Ord fyrer gudlegar Opeñberaner og muñlega Underviisan þeirra gomlu Forfedra, fra Kyne til Kyns; Eñ i Letur var þad eige fært, fyrr eñ Moyses byriade þad ad giora.

Hvør hefur skrifad Bibliuna ?

Þeir heilogu Spaamenn, Gudspiallamenn og Postular.

Enn voru þesser eige Menn ?

Viist voru þeir Menn.

Hvørnenn eru þa þeirra Ord Guds Ord ?

Þvi Ande Guds blies þeim i Briost, allt, hvad, og med hvorium Ordum þeir skyldu þad skrifa.

2. Tim. 3. 15. 16. 17 Med þvi þier er kuñug heilog Ritning allt i fra Barndoome, þa kañ hun ad underviisa þier til Sæluhiælpar, fyrer Trwna a JEsum Christum. Þviad oll Ritning af Gude iñgefeñ, er nytsamleg til Lærdooms, til Umvendunar, til Betrunar, til Leidrettingar i Rettlætenu, so ad Guds Madur sie algior, og til alls goods Verks hæfelegur.

2. Pet. 1. 21. Þar hefur eige eñ nu nockur Spaadoomur epter Maññsens Vilia framfluttur vered, heldur af heilogum Anda tilknwder, hafa þeir heilogu Guds Meñ ta'ad. Sia Matth. 10. 19 1. Cor. 2. 13.

Hvar af kañ Madur ad vita, ad þesse hin sama Rit-

ning sem vier høfum, sie þad sanna Guds Ord ?

Af imislegum Hlutum, so sem af Gydinga, Tyrkia og annara eldstu Pioda Samsiñingu, þvi þeir vitna til þess sama Ords; Einnig af Samhlioodgn Skrifaranna, Uppfylling Spaadoomaña, Stadfesting marghaattadra Krapta-Verka, og ad sijdurstu, af þeim ofluga Framgange, sem þetta Ord hefur haft, fyrer utann Kwgan og mañlega Magt, og þad midt i þeim bloodugustu Ofsooknum, i hvorium so margar Þusunder Pijslarvotta, hafa innsiglad þennañ Sannleika med þeirra Bloode.

Hvad skal sa giøra, sem eñ nu eige trwer þvi ad Ritningen sie Guds Ord ?

Hañ skal leitast vid ad hlijdnast Ordenu, og gefa þess Verkan Rwm i sijnu Hiarta, þa mun hañ verda þess fliott var, ad þad hefur eina yfernaatturlega og rett guddoomlega Daad, Krapt, Lijf og Anda i sier, til ad upplysa, sañfæra, hugga, upporfa og æviijta Samvitskuna.

Joh. 7. 17. Ef sa er nockur sem giøra vill hañs Vilia, hañ reyne hvert þesse Lærdoomur er af Gude, eda hvert eg tala af sialfum mier. Sia Ps. 50. 23.

Eigum vier þa vafalaust ad medtaka H. Ritning, fyrer eina rietta, vissa og fullkomna Reglu og Mælekvard vorrar Trwar og Frañferdis ?

Vissulega. Luc. 16. 29. Þeir hafa Moysen og Spameñena, heyre þeir þeim. Joh. 10. 31.

Meiga Meñ þa ecke grundvalla sijna Trw a, og haga sinu Framferde epter þe m Openberunum, sem giørast fyrer utañ þau Medøl, sem Gud hefur tilsett, eda a Draumum,

mum, eigeñ Skinſeindar Pootta, añara Maña Mindugleika og Epterdæmum, gomlum Meiningum, Mannlækium, Samkomulage og Sidvana, edur nockru ſvilijku?

Nei, eingen ſoñ Trw nie Hlijdne verdur a ſlijku grundvollud, heldur Hiatrw, Gudleyſe og uppfunden Dijrdkun af eigenu Pootta, ſem Gude er ſvert a moote.

Gal. 1. 8. Eñ ſo ad einig vier, edur Engell af Himne, predikade ydur Evangelium ødruvijs eñ vier høfum predikad ydur, ſa ſie bølvadur.

Matth. 15. 9. Ad Onytu ſioona ſeir mier, a medañ ſeir keña ſær Keñingar, ſem ecke eru añad enn Bodord Maña.

Hefur Guds Ord eñ nu fleire ſierdeiles Eigeñlegleika fram yfer Mannanna Ord?

Ja, nærſt ſeſs guddoomlega Obryadañlegleika, Krapte og Fullkomlegleika (ſem adur er ſynt) heſur ſad eina ſierdeiles Byrtu i ſier, til ad upplyſa oſs, af Natturunne blindar Manneſkiur.

Pſ. 119. 15. Pitt Ord er Lampe Foota minna, og Lioos a miinum Vegum.

Er ſo ecke Biblian myrk og vandſkilen fyrer Einfalda og Faafrooda?

Jollu ſvi ſem Moñum er naudſynlegt ad vita ſier til Saaluhialpar, er hun noog ſkijr, fyrer alla ſa ſem hafa hana um Hond riettelega, hvort ſeir eru Leik-Menn, Olærder, edur lærder.

2. Tim. 3. 15. [16.] 17.

Hvernig heſur Madur Guds Ord rettelega um Hond?

Pegar Madur andvarpar fyrſt til Guds, um hans H. Anda Upplyſing: Þar nærſt les Guds Ord med goodre Gaumgiæfne, og ſenker epter

þvi alvarlega, med hvøsum Asetninge ad lifa epter Ordenu, og hlijdnast þvi i sijnum Verkum og Framferde; Þegar Madur leitar epter ad sedia Hwngur Sælar sinar, en eige sijna holdlega Forvitne þar med; Og ad sijdurstu, þa Madur rangfærer eige Ordanna Meining, epter sinum eigenn Gyrndum, helldur leitar þar i einlæglega epter þeim Sanleika sem þienar til Gudhrædslu, og ransakar þar epter sitt eiged Hiarta.

Joh. 5. 39. 40. Cap. 7. 17.

Getur Madur af sinė eintoomre Skinseme skiled og wtlagt Ritninguna sier til saluhialplegrar Þeckingar?

Nei, þvi vor Skinseme er af Syndenė fordiorfud. 1. Cor. 2. 14. Natturlegur Madur skiliar eckert af Guds Anda, þvi þad er hønum Heimska, og han̄ fær þad eige þeckt, þvi þad hlijtur andlega ad dæmast. Eph. 1. 17.

Af hvørium a Ritningen ad lesast?

Af øllum Mønnum; Og þar fyrer ei alleina af þeim sem kenna, helldur og so af Tilheyrendunum; Ecke einasta hafa aller Leyfi og Rett til þess ad lesa Ritninguna, helldur er þad øllum boded, sem ein Skylda. Ja, þad er i siaalfu sier ein Guds Velgiørningur, sem hver ein christenn Madur a ad færa sier med Þacklæte og Føgnude kostgiæfilega i Nyt, sier til tijmannlegrar og eilijfrar Velferdar.

Post. G. B. 17. 11. og 2. Tim. 3. 15. Joh. 5. 39. 40.

Hvernenn sundurskiptest heiløg Ritning?

I Gamla Testamented, sem Spaamennerner hafa fyrer Christi synelegrar Hiervistar Daga a Hebresku ritad, og þad Nya Testamented, sem af Gudspiallamønnum og Postulum er i Grisku Maale

krifad efter Christi sunelegrar Hiervistar Daga, og hvert-tveggia sijdañ utlagt a vorra Landa Twongu mal, ollum Moñum til Idkunar og goodra Nota.

Upptel mier Bækur Gamla Testamentesins ?

Nøfn og Tala þeirra, sem Meñ eru vaner i Predikun og Lestre ad vitna til, eru i rettre Rod sem epterfylger: Fim̃ Mosis Bækur, Josuæ Book, Doomaraña Book, Ruths Book, tvær Samuelis Bækur, tvær Kongaña Bækur, og tvær Chronicu Bækur, ein Esræ, ein Nehemiæ, ein Esters, og ein Jobs Book, 150. Psalmar, flester ordter af David Konunge, þriar Bækur Salomonis, kalladar Ordskvider, Predikare, Lof-Kvæde; Spameñ þeir stærre fioorer, nefnelega: Esaias, Jeremias, Ezechiel og Daniel; Spameñ þeir smærre toolf, sem eru: Hoseas, Joel, Amos, Obadias, Jonas, Micheas, Nahum, Habacuk, Zophonias, Haggeus, Zacharias, Malachias.

Mier synest sem hier vante nockrar af þeim, sem eg fiñ þo i miñe Bibliu, so sem eru Tobiæ og Judiths Book, Spekennar Book, Syrachs Book, Baruchs Book, þær stuttu Historiur uñ Susønnu og Drekañ i Babylon, Maccabæorum Bækur og Manassis Bæn ?

Þessar sidurstu, eru eige sem hinar adrar Canonisku edur reglulegu Bækur af Guds Anda innblasnar; Heldur nefnast þær, til Adgreiningar fra hinum, Apocryphiskar edur huldar Bækur, þvi þær eru ei sama Gyldes og Myndugleika, jafnvel þott þær hafe inne ad halda nockrar goodar Lærdooms Greiner.

Hvors

Hvoriar eru Bækur þess Nija Testamentis ?

Þeir Fioorer Gudspiallamenn, Matthæus, Marcus, Lucas og Johannes, Postulanna Giorninga Book, og þeirra Pistlar, edur Sendebref, nefnelega: St. Pauls, Eiñ til Romveria, Tveir til þeirra i Corintho Borg, Eiñ til Galatas, Eiñ til Ephesios, Eiñ til Philippenses, Eiñ til Colossenses, Tveir til þeirra i Thessalonica, Tveir til Timotheum, Eiñ til Titum, Eiñ til Philemonem, Eiñ til Ebræos: so og lijka Sio almeñeleger Pistlar hiña Postulaña, nefnelega: Eiñ St. Jacobs, Tveir St. Peturs, Þrijr St. Johañis, Eiñ St. Judæ, og lokssens er hin sijdarsta Book Bibliuñar Openberaner Johannis. Allar þessar eru fyrer utañ nockurskonar Medol iñblaasnar af H. Anda.

Hver er Kiarne og Innehald allra Bibliunnar Booka ?

Þad er saa vigtuge Sannleike: Ad JEsus er Christur, Vegureñ, Lijfed og Sannleikureñ, til Saaluhiaalpar øllum trwudum Saalum.

Joh. 20. 13. Enn þesse (Teikn) eru þvi skrifud, ad þier trwed, þad JEsus sie Christur Sonur Guds, og ad þier skulud hafa Lijfed, sem trwed, i hañs Nafne.

Hver Mismunur er aa Lærdoomenum i þvi Gamla og Nija Testamente ?

J Gamla Testamentenu vitnudu Spaameñerner med Spaadoomum og Fyrermindunum uñ Christum, sem koma skylde; Eñ i þvi Nija Testamentenu vitna Gudspiallamennerner og Postularner med lioosum og skilmerkelegum Ordum uñ hann, þaa þegar i Heimenn komenn.

Nu þar Biblian er stoor Book, hvernig geta þa þeir Ungu og Einfølldu funded þeña Ritningareñar Kiarna?

Þeir kuña i fyrstu ad hialpa sier vid smaluga Doct. Lutheri Catechismum.

Hvad er Catechismus?

Hañ er ein lijtel Biblia, eda stutt Agrip af Guds Orde, uñ þad, hvad vier eigum ad trwa og giora, i Spurningum og Andsvørum frañsett.

Hvad hefur Lutherus sett fyrer framañ hvern Part Catechismi til uppbyggelegrar Aminningar?

Þesse Ord: Hvernig sierhver Hwss-Fader ꜳ einfaldlega ad uppfræda sitt Heima-Foolk.

Er þad þa Skylda allra Hwss-Fedra?

Ja vissulega. J Fimtu Bookar Mosis 6. Cap. 6. 7. seger Gud:

Þesse Ord, sem eg biid þier i Dag, skalltu leggia uppa Hiartad. Og þu skallt brijna þau allt jafnt fyrer Børnum þijnum, og ræda uñ þau, nær ed þu situr i þijnu Hwse, og nær ed þu geingur uñ farenn Veg, nær ed þu leggur þig nidur, edur stendur upp.

Eru marger Høfud-Partar Catechismi?

Fim, af hveriu'm sa Fyrste hlioodar uñ Guds Tiju Laga Bodord, Añar uñ Trwarennar Høfudgreiner, Þridie uñ Drotteñlega Bæn, Fioorde uñ Sacramentum Skijrnarennar, Fimte uñ Sacramentum Altaresens; Þar epter fylger Hwss-Tablan, sem iñeheldur hvors Mañs Skyldu, epter hañs Stande, og fiñst hun hier iñfærd i fioorda og fiotta Bodorde.

Verdur þetta ecke i færre Ordum iñebunded?

Ad vissu, þvi allt þad sem Fræden iñehalda, hlijd-

er

er aňadhvert til Logmaalenu edur Evangelio.

Hvad er Logmaaled ?

Logmaaled er sa Lærdoomur, i hverium Gud siner oss sitt Rettlæte, keñer oss, hvilijkum oss byriar ad vera, hvad vier eigum ad giora, og Ognar oss, ef vier lætum þad Ogiort, edur giorum þar þvert a moote.

Hvad er Evangelium ?

Evangelium er sa Lærdoomur, i hverium Gud siner oss sijna Naad og Myskunseme i Christo, og tilbijdur oss hana, keñer oss, hvad vier eigum ad trwa, og heiter þeim Naad, er hlijdnast honum i Trwnne.

Hvad merker eigiñlega þetta framande Ord Evangelium?

( Þad merker ) gledelegann Bodskap.

Hvar er hondlad i Frædunum uñ Evangelium ?

J Fioorum þeim sijdare Hofud-Portum.

Hvar er hondlad i Frædunum uñ Logmaaled ?

J Fyrsta Partenum.

❖❖❖❖❖❖❖❖❖❖❖❖❖❖❖❖❖❖❖❖❖❖❖❖❖

## Fyrste Parturen.

[ Hvernig eiñ Hwss-Fader og Hwss-Mooder a ad undervijsa einfaldlega sijnu Heimiles-Foolke. ]

### Um Logmaaled.

Hvad margfaldt Logmaal wtgaf Gud i Gamla Testamentenu ?

Þreñslags, sem var fyrst Ceremoniu edur Kyrkiu-Logmaal, aňad þad veralldlega Dooma og Walldstioornar Logmaal, þridia Sida-Logmaaled,

ed, edur þad almennelega Logmaal, um̃ Kiærleikann og Framferde Lifnadarens.

Helldst Ceremoniu edur Kyrkiu-Sida Logmaaled enn nu vid?

Nei, þess Ceremoniur og Fornfæringar, voru eige nema Evangeliskar Fyrermyndaner uppa Christum, sem hefur afmaad þær med sine Hingadkomu. Col. 2. 16, 17. Ebr. 10. 1.

Helldst Wallðstiornar Logmaal Gydinga enn nu vid?

Nei, þad var eins og Ceremoniu-Logmaaled, gefed Gydingum alleina um̃ vissan̄ Tijma; Enn nu er sierhverium christnum Manne vijsad til þeirra Laga, sem brwkast i Landenu, og hanns eiged Yfervalld wtgefur. Rom. 13. 1.

Blijfur þa Sida-Logmaaled, edur þad almen̄elega Kiærleikans Logmaal ei helldur leingur vid Magt?

Vissulega, þvi þad Logmaal er byggt a Natturu Guds, sem rettlaat er og heilög; Og þar fyrer er i þvi innefalen̄ Guds Oraskanlegur og stadfastur Vilie um̃ alla Menn a øllum Tijmum, sem er Elskan til Guds, sialfs sijns og Naungans.

Hvernig hefur Gud open̄berad þetta sitt Logmaal og Oraskan̄legann Vilia?

Han̄ hefur i Skopunen̄e innskrifad þad i allra Man̄a Hiortu, og þvi kallast þad Natturu Logmaal. Rom. 2. 15.

Hefur Gud þa ei med ødru Moote open̄berad sitt Logmaal?

Jw, han̄ hefur og so wtgefed þad sijnelega, og skrifad utann a Tvær Stein-Toblur.

Hvar gaf Gud wt Logmaaled?

A Fiallenu Sinai, med Reidarþrumum og Elding-

Eldingum, til Merkes um̃ hans breñande Vandlæte vid þær sem þad yfertroda.

Kunnum vier verda saluhoolpner fyrer þetta Lögmaal ?

Nei, þvi sijdañ Syndafalled, getur þad einginn fullkomlega halded.

Rom. 8. 3. Hvad Lögmaalenu var Omögulegt (med þvi þad veiktist fyrir Holdid) þad giørdi Gud og sendi siñ Son.

Giører þa Lögmaaled oss eckert Gagn ?

Ad vijsu giører þad oss stoor = miked Gagn.

2. Tim. 1. 8. Vier vitum þad Lögmaaled er gott, ef nockur tijdkar þad riettelega (þad er, so sem þvi hæfer ad brwkast.)

Hvør er sw rietta Lögmaalsens Nytsemd ?

1.) Sañfærer þad þañ Idrunarlausu um̃ Synder þeirra, og Guds Reide i gegn Syndenne.

Rom. 3. 20. Fyrer Lögmaaled kemur Vidurkienning Syndarennar.

2.) Þreynger þad og rekur epter þeim Idrande, ad flya til Christum, og leita Trausts hiaa honum.

Gal. 3. 24. Lögmaaled er vor Typtunar = Madur til Christum.

3.) Undervijsar þad þeim̃ Trwudu, hvad þeir skulu giora og laata Ogiørdt.

Ordskv. B. 6. 23. Bodorded er Skridlioos, og Lögmaaled er eitt Lioos, og Hirting Typtunarennar er Lijfsens Vegur.

Ern þa þeir Trwudu Lögmaalenu underorpner ?

Nei; Ecke Lögmaalsens Kwgan og Bolvan, þvi þar fraa hefur Christur þaa endurleyst.

Rom. 6. 14. Þier erud eige under Lögmaalenu, heldur under Naadenne.

1. Tim. 1. 9. Vitande þad, ad hinum Rettlaata er

eckert

eckert Lögmaal sett.

Er þa einn trwadur christenn Madur ecke skyldugur ad lifa epter Lögmalenn?

Jw, vissulega.

Rom. 3. 21. Giørum vier þa Lögmaled ad eingu fyrer Trwna? Fiærre sie þvi, heldur uppreisum vier Lögmaled.

Hvørnig œ eg þa ad skilia þetta?

Adgiæt þetta tvent: sierhver rett-trwadur christenn Madur er frij fra Lögmalsens Bølvan og Kwgan, eñ ei fra þess Hlijdne, þad er, hañ giører þad ad soñu sem Lögmaled wtheimter, eñ þo ei vegna Þvijngunar Lögmalsens og Otta fyrir þess Bølvan, heldur sokum þess, ad Kiærleike Christi knijr hañ þar til; Og þa hañ af Breiskleika misgæter sijn Oviliande, hæfer Lögmalsens Bølvan hañ oldunges ecke, þvi hañ er i Christo. Rom. 8. 1.

Er Lögmaled þa ánægt med ytre Verken?

Nei, Lögmaled er andlegt, og wtheimter þvi allan Manneñ, med Lijkama, Salu, Sinne, Tilhneigingum, og ollum Kroftum.

Rom. 7. 14. Þvi vier vitum þad, ad Lögmaled er andlegt, eñ eg em holdlegur, under Syndena seldur.

Hvørnig sundurskiptest Guds Lögmaal?

J Tvær Toblur, af hveriüm sw fyrre iñeheldur Þriw, eñ hin seinne Sio Bodord eda Skipaner.

Hvert er Lögmalsens styttsta Innehald?

Eckert añad enn Kiærleikurenn til Guds, vor sialfra og Naungañs; Þvi eg giore Ogiarna a moote þeim sem eg elska.

Rom. 13. 10. Þvi er nw Elskan Lögmalsens Uppfylling.

1. Tim. 1. 15. Suma Bodordsens er Kiærleikurenn af hreinu Hiarta, og af goodre Samvitsku, og af Omeingadre Trw. 1. Cor. 13. 1. 2. 3.

# Um̃ Fyrre Bodorda Toblunᵃ.

Hvad er Innehald Fyrre Bodorda Toblunnar?

Kiærleikurenn til Guds, sem kenner mier alla mijna Skyldu vid hann.

Luc. 10. 27. Elska skallt þu DRottenn Gud þiñ, af øllu Hiarta, og af allre Ønd, og af øllum Mætte, og af ølln Hugskote.

## Ut af Fyrsta Bodordenu.

Ad hvoriu ær eg ad gefa Giætur i þessu og ødrum Guds Bodordum?

Ad Tveim̃, sem er: Ad þvi Vonda, sem er bañad, og þvi Gooda, sem þar imoot er skipad.

Hvad er þad Vonda sem i þessu Bodorde er bannad?

Ad fremia Afgudadijrdkan.

Hvad er Afgud?

Allt þad sem Madur dijrdkar, Ottast, elskar og treystier æ, i Stad þess einasta sanna Guds.

Hvornig verdur þesse Afgudadijrdkan framen?

Añadhvert so miked bere æ þvi, edur lijted bere æ.

Hver er sw Afgudadijrdkan, sem miked ber æ?

Þegar Madur tilbidur Sool, Tungl, Stiornur, Engla, edur heilaga Menn framlidna, þvert i moote Guds Orde.

Es. 42. 8. Eg er DRottenn, þad er mitt Nafn, og mijna Dijrd vil eg eingum ødrum gefa, nie mitt Lof Afgudunum.

Enn mæ Madur ecke tilbidia þann sanna Gud i einu Bijlæte, og meina til sialfs hanns

Nei, Gud er eiñ Ande, og hverier hañ tilbidia, Þeir skulu tilbidia hañ i Anda og Sañleika. Joh. 4. 24.

Maa Madur ecke bidia Englana, edur helga dauda Menn, ad bidia fyrer sier til Guds ?

Nei, Þvi Gud vill allenna tilbedeñ verda. DRottenn Gud Þinn skalt Þu tilbidia, og honum einum Þiona. Matth. 4. 10.

Þar ad auk er Það og so til foraefins, Þviad Abraham veit ecke af oss, og Israel Þann Þecker oss eige. Es. 64. 10

Hvernig er framen Afgudadijrdkan so lijted ber aa ?

Þegar Elska, Otte, edur Traust Hiartans snijst fraa Þeim lifanda Gude, og adhyllest framar adra Hlute eñ Gud, edur eins miked sem Gud.

Hvad margslags eru leyneleger Afguder til, sem kunna stela vorum Hiortum fraa Gude,

Ad soddañ Afgudum kuñum vier ad giora, añad-hvert oss sialfa, edur adra Meñ, edur adrar skap-adar Skepnur, ellegar utvortes Guds Dijrdkan, edur og Diofuleñ.

Hvernig giorer Madur sialfann sig ad Afgud ?

Þegar hañ hefur ofmikla Elsku aa sialfum sier, leitar einkis utañ Þess sem hañs er, og stundar mest efter siñe eigeñ Vegsemd, eigeñ Vilia, eigeñ Gagne, og eigeñ Efterlæte, hvers vegna hañ hyrder hverke um Gud nie Nauungañ, og skedur Þetta fierdeiles

1.) Med eigenn Hroosan.

Hvad hefur Þu, Það Þu hafer eige medteked ? Eñ fyrst Þu hefur Það medteked, hvad hroosar Þu Þier Þa, sem saa Það eige hefde medteked. 1. Cor. 4. 7.

2.) Med Sierstiñe edur Sialfræde.

Ohlijdne er Galdra-Glæpur, og ad vera Þverhryß-
enn er Afgudadijrdkan. 1. Sam. 15. 23.

3.) Med eigenn Holds-Lyst og Girndum.

Marger gannga sem Oviner Krossens Christi, hverra
Efilok er Fyrerdæmingen, hverra Gud Magenn er.
Philipp. 3. 18. 19.

Er þa øll sialfs Elska Afgudadijrdkan ?

Nei, eige utan sw sem er Oskickanleg og mæta-
laus, hver ed metur sig meir eñ Gud, og vill eige
gieraſt honum af Hiarta undergefeñ, og kannaſt
vid ad Manneskian sialf er eckert, enn sialfur
Gud sie ædste Goode.

Hvernig kañ Madur ad giøra adra Meñ ad sijnum Afgud?

Þegar Madur af Ohæfilegre Hrædſlu fyrer þeim,
edur Elsku og Trauste til þeirra, añad hvert vanræ-
ker þad Gooda, edur giører þad Vonda.

Jer. 17. 5. Bølvadur er sa Madur sem hefur sitt
Traust a Mañenum, og setur Holded fyrer siñ Arm,
og i burtvijkur fra DRottne med sijnu Hiarta.

Hvernig kann Madur ad giøra adrar Skepn-
ur ad sijnum Afgudum ?

Þegar Madur hefur so miked Ynde af þeim, ad til
þeirra dregſt sw Hiartans ædsta Glede, Huggun
og Trauſt, sem Madur skylde a Gud setia; Hvad
sierdeiles er ad sia a þeim Agiornu, sem under
eins vilia þioona Gude og Mamon, og kallast þvi
Skurdgoda Dijrdkarar.

Eph. 5. 5. Þvi þad skulud þier vita, þad engeñ Frillu-
lijfes Madur, edur Ohreiñ, edur Agiarn, hver ad er Skurd-
goda Dijrdkare, hefur Arftøku i Rijke Christi og Guds.
1. Tim. 6. 17. Rijkum þessarar Veraldar biood þu, þad
þeir sieu eige mikellater, og legge einga Von uppa

Þeña fallvallta Rijkdogm, heldur uppa lifanda Gud
Hvernig kann Madur ad fremia Afgudadijrdkan
med utvortis Guds Þionustugiord ?

Þegar Madur midt i sijnu Jdrunarleyse, setur fsavijslegt Trauft uppa Kyrkiu-Ferder, Altaris Gaungur, Skriftamaal, Olmusur, Bænagiorder, Saunga, Lestra, og þesshattar Verk, sem good eru hia þeim einum sem eru Jdrande, enn hia Hræsnurum eru þau einkis verd.

Jerem. 7. 4. 5. Treystid ecke uppa Lijgena, þa þeir segia; Hier er Musteré DRottenns, hier er Musteré DRottenns, hier er Musteré DRottenns, heldur þa bæted ydvarn Lifnad og Athæfe.

Es. 1. 15. Þo ad þier utbreided ydar Hendur, þa byrge eg þo mijn Augu fyrer ydur, þviad ydar Hendur eru fullar af Bloode.

Er þar nockud sem hefur Snert af Afgudadijrd kan i vorre openberre Guds Þionustugiord ?

Eckert, sem i siaalfu sier maa so kallast; Eñ med Misbrwkaneñe kuña allar Skepnur ad gioraft ad Afgudum, sem adur er sagt.

Hvad kemur þa Mönnum til soddann Ogudlegrar Misbrwkunar ?

Þad gierer einkanlega Audvaraleyse, sem ætijd vill hafa eitthvad sier til Afturdnings, þvi þegar Samvitskan fordæmer hiñ Ogudlega, og vill eige sinwa sier til Guds sialfs, snijr hañ sier þess fliotar med sitt Trwnadartraust til Skriftastoolsens, Altaresens, og utvortis Athafna, og leitar þar iñ Huggunar og Traustz fyrer sijna saurugu Saalu; so ad þad, sem i sialfu sier er skadlaust og gott, verdur

honum ad einum Afgude, þad er, þad hindrar og heldur honum fraa þeirre riettu Guds Dijrdkun, sem skieaa i Anda og Sannleika, þar sem þesser Hluter ættu þo ad styrkia hann til hennar.

Luc. 13. 26. 27. Þaa munud þier hefia upp ad segia: Vær høfum eted hiaa þier og drucked, og aa Strætum vorum kenñder þu. Eñ hann mun segia: Eg sege ydur, þad eige þecke eg ydur, hvadann þier erud, fared fraa mier aller þier Illgiørda-Menn.

Kañ Madur og so ad giøra Diøfuleñ ad sijnum Afgud?

Jaa, aller fraamiater Synda-Þrælar, eru lijka Diøfulsens Þrælar, og hañ þeirra Gud og Herra.

2. Cor. 4. 4. Gud þessarar Veraldar hefur forblindad Hugskot Vantrwadra. Rom 6. 16.

Vier høfum heyrt þad Vonda sem oss er bañad; Seig mier lijka þad Gooda sem oss er boded i Fyrsta Bodordenu?

Vier eigum yfer alla Hlute fram, Gud ad Ottast, hañ ad elska, og aa hañ einn ad trwa.

Alijtur þa Gud einkanlega vort Hiartalag til sijn?

Jaa, þvi hann seger:

Ordskv. B. 23. 26. Gef mier, Son miñ, Hiarta þitt.

Getur nockur Ottast, elskad og treyst uppaa Gud riettelega, medañ hañ eige riett þecker hann?

Nei, þad er Omøgulegt; Eñ ef vier þeckium hañs Rettlæte, þaa Ottunst vier hañ; Ef vier þeckium hañs Giædsku, þaa elskum vier hañ; Og ef vier þeckium hañs Almætte, þaa treystum vier honum og trwum aa hañ.

Þetta vita rannar flestaller Meñ um Gud, munu þeir þa og so Ottast, elska og treysta uppaa hañ?

Nei, þvi fleirstra Þecking er daud og kraftalaus.

1. Joh. 2. 4. Hver ed seger: Eg þecke hann, og

heldur-

heldur ecke hanns Bodord, sa er Liwgare, og i Þvilijkum er eingenn Sannleikur.

Hvilijk er þä sw rietta lifande Guds Þecking ?
Sw sem kemur vorum Hiertum til ad elska Gud, og blygdast vid ad giora nockud þad sem Illt er, i hanns heilogu Nälægd.

1. Joh. 2. 3. Þar af vitum vier, þad vier Þeckium hann, ef ad vier vardveitum hanns Bodord.

Er ecke betst ad vera i sijnum Einfalldleik ?
Vissulega, eñ ecke i Vankunnattu og Blindne.

Rom. 16. 19. Eg vil ad þier sieud vitrer uppa hid gooda, og einfalder uppa hid vonda.

Hvad er sw sanna Einfeldne ?
Ad Madur med Trwñe medtake allt eins fyrer trwanlegt, þad sem Madur er viss um ad Gud hafe openberad, og þad an þess ad hnijsast þar i med sinne holdlegre Skinseme.

Hverin orkar nu sw sanna Guds Þecking ?
Hun orkar þvi, ad Madur vijst Ottast, elskar og treyster uppa Gud, þañ sem hann riett þecker.

Hvad er ad Ottast Gud ?
Þad er ad blygdast i Hiartanu fyrer Guds allraheilogustu Hatign, so Madur sie kvijdande og hrædduur fyrer ad uppvekia hanns riettferduga Reide med nockre Synd.

Matth. 10. 28. Hrædest eige þa sem Lijkaman aflijfa, og Salena geta ei lijflated, heldur hrædest þañ framar, sem Salu og Lijfe getur fortijnt i Helvijte.

Philipp. 2. 12. Verked ydar eigenn Saaluhialp med Ugg og Otta.

Er margslags Guds Otte til ?
Tveñslags, Þrældoms Otte, og Sonarlegur Otte.

 Hvad

Hvad er Þrældooms Otte ?

Þegar Madur Ottast Gud vegna Straffsens alleina, eñ hefur hverke Elsku nie Traust til hañs.

1. Joh. 4. 18. Hrædsla er eige i Kiærleikanum, heldur wtdriifur fullkomlegur Kiærleike Hrædsluna, þviad Hrædslan hefur Kvøl, eñ hvør hann hrædest, sa er ecke fullkomlegur i Kiærleikanum. Job. 15. 20.

Hvad er Sonarlegur Otte ?

Þegar Madur, af Elsku til Guds, er kvijdande fyrer ad giora honum nockud a moote, þoott hañ ætte sier eige nockurs Straffs ad vænta.

1. Mos. 39. 9. Hvernig ma eg giøra so miked Ohæfu Verk, og syndgast a moote Gude.

Hver af þessum tvøfalda Otta finst hia Rettchristnum ?

Sa Sonarlege Otteñ tilheyrer þeim eigeñlega, so sem Guds Børnum; Þo blandast hañ oft med nockru af Þrældooms Otta, sierdeiles a Freistingar Tijmanum.

Rom. 8. 15. Þier hafed eige medteked Þrældooms-Anda, so þier þurfed aptur ad ugga um ydur; Heldur hafed þier medteked einn Öskabarna Anda, fyrer hvern vier køllum : Abba, elskulegur Fader.

Matth. 8. 26. Hvad hrædest þier so, þier Lijteltrwader?

Hvar af þecker Madur eina gudhrædda Mañeskiu?

Þar af, ad hüñ hatar og fordast Syndena, sem siñ stærsta Ovin, og aldungis fær ecke af sier, ad giora þad sem Illt er af Asetningar.

Ordskv. B. 8. 13. Otte DRottens hatar þad Illa.

Eru þeir aller Gudhrædder, sem lesa, bidia og syngia miked ?

Ecke alltijd, þvi þeir eru til, Hverier ed hafa Yferlit gudlegs Athæfis, eñ þess Krafte afneita þeir. 2. Tim. 3. 5.

A

Af hver'n hefur sw saña Gudhrædsla siñ Uppruna?

Af Trwñe og Kiærleikanum, sem verkar sodd-añ Uñhyggiu fyrer þvi ad þocknast þeim mastwd-lega Fodur.

Hvad er þad, ad elska Gud?

Þad er, ad oß þike mikid til hañs koma, og oß iñelega lange epter honum, leitum i honum vorrar riettu Glede og Unadsemdar, og gesum oß alldeiles a Vald hañs þægelegum Vilia.

Þs. 18. 2. Hiartkiærann hefe eg þig DRottiñ, miñ Styrkleike.

Þs. 73. 25. 26. Nær eg hefe ad eins þig, þa hyrde eg eckert um Himen og Jørd, þo ad eiñig mitt Lijf og Sal vanmegnest, þa ertu þo, Gud alla Tijma mitt Hiartans Traust og mitt Hlutskipte.

Þs. 42. 2. 3 Lijke sem þad Hiørtureñ kallar epter ferskn Vatne, so kallar mijn Sala, Gud, til þijn. Mijna Sal hana þyrster epter Gude, epter þeim lifanda Gude, hvenær mun eg þangad komast, ad eg siae Guds Andlit.

Hverßu mieg eigum vier ad elska Gud?

Yfer alla Hlute fram, þvi hañ er þad ædsta Gooda.

Matth. 10. 37. Hver hañ elskar Fodur og Moodur meir eñ mig, sa er mijn eige verdugur. Sia Luc. 10, 27.

Kañ Madur þa ei bæde elska Gud, og Heimsens syndugt Hattalag?

Nei. 1. Joh. 2. 15. Eige skulud þier Heimenn elska, nie neitt þad i Heimenum er, ef nockur elskar Heimeñ, i honum er ecke Kiærleike Fødursens.

Hvers vegna eigum vier ad elska Gud?

Fyrst, vegna þeß hañ er fullkomlega goodur i sialfum sier: Þar nærst, af þvi hañ er goodur og giædskurijkur vid oß, sem daglega niootum

hanns Velgiorninga.

Matth. 19 17. Engen er goodur utan alleina Gud.

1. Joh. 4. 19. Laitum oss hann elska, þvi hann theſur elskad oss fyrre.

Hvar af sieſt þad, ad Madur elskar Gud?

1.) Af gudrækelegum Lifnade.

Joh. 14. 21. Hver hann hefur mijn Bodord, og heldur þau, hann er sa sem mig elskar.

2.) Af Kiærleikanum til Naungans.

1. Joh. 4. 20. Ef einhver seger: Eg elska Gud, og hatar sinn Broodur, sa er Liwgare. Þvi hver hann elskar ecke sinn Broodur, hvern hann sier, hvernenn getur sa Gud elskad, þann er hann sier eige?

3.) Af Efterlæangan til Orda DRottens, og oduglegre Bæn til hanns.

Ps. 73. 28. Þad er mijn Glede, ad eg held mig til Guds.

Getur þu elskad Gud af þijnum eigen Kroptum?

Nei, Guds Ande verkar Kiærleikann i mier.

Rom. 5. 5. Guds Kiærleike er wthelltur i vor Hiörtu fyrer heilagann Anda.

Er nockurt Gagn ad þvi ad elska Gud?

Ja, allra stærsta Gagn. Rom. 8. 28. Vier vitum ad þm sem Gud elska, þiena aller Hluter til hins besta.

Meiga þeir þa, sem elska Gud, reida sig öruggt uppa hann?

Ja. Ps. 84. 12. 13. Gud Drotten er Sool og Skiölldur, Drotten gefur Naad og Heidur, han mun ecke laita þa Froomu hafa Skort a nockru Goodu. DRottenn Zebaoth, sæll er sa Madur, sem treyster uppa þig.

Hvad er ad treysta uppa Gud alleina?

Þad er ad gefa sig a Vald Guds Forsioonar, med fullu Trwnadar-Trauste, vænta alls Goods af honum, og befala honum oll sijn Efne.

Ordskv.

Ordskv. B. 3. 5. Forlaat þig uppa DRottenn af ollu Hiarta, og treyst ecke uppa þitt Hyggiu-Vit.

Ma Madur þa ecke reida sig a Mennena ?

Nei, þvi oft ber vid, ad annadhvert vilia þeir eige, edur geta eige hiaalpad.

Ps. 146. 3. 4. Treysted eige uppa Höfdingiana, þeir eru Menn, þeir kunna ecke ad hialpa.

Hvi a Madur þa ad reida sig uppa Gud ?

Þvi hañ er vor almaattuge og trwfaste Vinur.

Ps. 146. 5. 6. Sæll er sa, hvers Hiaalp þad Gud Jacobs er, hvers Von ad stendur uppa DRottenn hanns Gud. Hver ed Himenenn, Jørdena, Sioenn og allt hvad þar er inne hefur giørt, hañ sa ed Trw heldur eilijflega.

A Madr alleina ad reida sig uppa Gud þegar vel gengur ?

Ne, ecke alleina þa, helldur sierdeiles i Neydeñe.

Ps. 57. 2. A þig treyster Saala mijn, og under Skugga þinna Vængia, þa hefe eg mitt Athvarf, þar til ad sw Ogiæfan er umliden.

Ma Madur og reida sig uppa Gud, jafnvel þo hañ stofnar sier siaalfum i Haaska vijsvitande ?

Nei, þvi þad er Ofdyrfd.

Matth. 4. 7. Eige skalltu freista Drotteñs Guds þijns.

Hvada Dygder tilhlijda framar fyrsta Bodordenu ?

Þegar Madur Ottast og elskar Gud yfer alla Hlute frañ, treystande honum alleina, þa kemur þar af sierdeiles Audmykt, Þolenmæde og Afneitan sialfs sijns.

Hvad er Audmyktenn ?

Þa Madur verdur i sijnu Hiarta med Rokum sañfærdur uñ siñ Overdugleika fyrer Gude, og fiñur til þess sama Overdugleika, hvers vegna hañ sie

ei hæfur til ad niioota minnstu Nádar, Hroosunar edur Upphefdar, epter sinne Verdskuldan.

1. Pet. 5. 6. Haldeð ydur fast vid Lijtelæted, þviGud mootstendr dramblaatum, enn lijtelaatum gefur hann Naad.

Hvad er Þolenmæden ?

Ad Maduren vegna Guds take viliuglega á mioote Mootlætingunum, þeim er ad Høndum koma, þo Holde og Bloode þwingbærar sinnest; So hann enn Moglunar, jaa, med Þackargiørd, ligge under þeim þolennmoodlega, þar til Gude þocknast ad giøra Umbreiting og Boot á þeim.

Jac. 1. 2.3.4. Brædur mijner! reikned þad fyrer allann Fagnad, nær þier i margvijslegar Freistingar falled, og vited, þad Reynsla ydar Trwar verkar Þolenmæde, enn Þolenmæden mun stadføst blijfa, allt til Enda, so ad þier sieud fullkomner og algiørder, og i einguBrest hafed.

Hvad er Afneitan sialfs sijns ?

Þad er, ad Madur afneite sijns eigenn Holds Vilia, og øllu þvi sem honum þiker vænt umm i Heimenum, so ad Guds Vilie alleina mege i honum Frammgang faa.

Luc. 14. 26. 27. Ef nockur kemur til mijn, og hatar eige (þad er, afneitar, edur minna elskar) Fødur sinn og Moodur, Konu og Børn, Brædur og Systur, og þar til sitt eiged Lijf, hann fær eige minn Læresveinn vered: Og hver hann eige ber sinn Kroß, og filger mier epter, sa getur eige minn Læresveinn vered.

## Utaf Ødru Bodordenu.

Hvar fyrer standa upphaflega i Utleggingu þessa, og hinna annara Bodordanna þesse Ord: Vier eigum ad Ottast og elska Gud ?

Se þar med verde synt, ad allar sañar Christeñdoomsins Dygder meiga ecke vera einber wtvortis Hæverska og sidsamleg Riettviise, heldur eiga þær ad framkoma af elskuriiku og gudhræddu Hiartalage þess iñra Mañsens. Þær eiga ad vera riettar Trwarennar, Kiærleikañs og Gudhrædslunnar Avexter, ef þær skulu Gude þocknast, og vera betre eñ Phariseanna Riettlæte.

Hvad Illt er bannad i Ødru Bodordenu?

Ad leggia Guds Nafn vid Hiegooma.

Hvad er Guds Nafn?

1.) Þau eigeñlegu og sierdeileslegu Nofn, med hverium hañ verdr nefndur i Ritninguñe, so sem: Jehova, Gud, Drotteñ, Fader, Sonur, og heilagur Ande, Jesus, Christur, og þesskonar fleire.

2.) Allt þad sem Gude tilheyrer, hvar af hañ þeckest, lijka sem eiñ Madr af sijnu Nafne; hier til heyrer sialfs hañs Vera, Eigeñlegleikar, Hatign, hañs Verk, hañs Ord, hañs Sacramenta, og allt þad sem tilheyrer hañs Dijrdkan. Ps. 48. 11.

Hvernig verdur Guds Nafn lagdt vid Hiegooma?

1.) Þa Madr hefur i daglegu Tale Guds Nafn, edur Grein wr H. Ritningu, eda Vers wr einum gudrækelegum Psalme, eda nockud andlegt, med hiegoomlegum Hætte, galauslega, til Skemtunar edur Malltækes, an Virdingar og Gudrækne; Eiñig þa Madur lastar Guds Verk.

2.) Þa Madur blandar þessu blessada Nafne vid bolvud Ord og Athafner, og brwkar þad til Formælinga, Eida, Galdra, Liga og Svika.

Hvad er ad formæla i Guds Nafne ?

Þad Madur i þessu gooda Nafne, Oskar Ills fier edur sijnum Naunga, jaa, þa margur Guds Ovinur dyrfest ad hæda þaū allra hærsta Gud sialfaū. Jac. 3. 9. Med Twnguñe dijrdkum vier Gud Fodur, og med hreñe formælum vier Monnunum, epter Guds Mynd giordum, af hinum sama Muñe framgengur Blessan og Bølvan. Þad skal eige so vera, Brædur mijner.

Hvad er ad sveria ?

Þad Madur brwkar Guds Nafn, til ad stadfesta eitt Hlut med, ad saña sie, og þaňig krefur Gud til Vitnes og Doomara sijns Mdalefues.

Maa Madur þa aldrei sveria ?

Jw, i stærstu Naudsyn, sem er: Nær Yfervalded Guds vegna krefst þess, og Saūleikureñ kaū ei oðruvijs i Lioos ad leidast, þaa er þad eitt af Kiærleikaūs Verkum. Ebr 6.17. Meñerner sveria vid eiñ ædre eñ þeir erú, og sa Eidur giører Enda allrar Þrætu.

Eru þa aller adrer Eidar i daglegu Tale Synd ?

Jaa, stoor Synd, þo lijted sie agtad fyrer hana. Matth. 5. 34. 37. Eg sege ydur, ad þier skulud ølldunges ecke sveria, enn ydar Ræda sie Jaa, Jaa, Nei, Nei, enn hvad framyfer er, þad er af hinu Vonda.

Eñ ef Madur vill eige trwa mier, þo eg sege Jaa og Nei ?

Þaa maa eg ad hugga mig þar vid, ad mitt Vitne er i Himnenum.

Er þa Synden eins stoor, þa eg sver eige af Asetninge, heldur hef þad Orda-Tiltæke af Vana, sierdeiles þa eg hefe ei sonnu ad standa ?

Jaa vissulega, þvi sa syndsamlege Vane syner þad, ad Synden drottne yfer mier.

Sir. 23. 11. 12. Ven þiñ Muñ ecke til ad sveria, og Guds

Guds Nafn ad vanbrwka, þviad lijka sem sa Þræll sem ofterdur striikkur, er ecke utañ Beniar, so kañ ecke heldur sa hreiñ af Syndum ad vera, sem oftsinnes sver, og Guds Nafn vanbrwkar; Hver sem sver oftlega, sa syndgar oftlega, og Plagan mun ecke af hans Hwse gainga, ef hañ sver og skilr ecke, syndgar hañ þo ecke ad siidur, eñ ef hañ skilr, og skeiter ei þar um, þa syndgar hañ tvøfaldlega.

Hvad er ad fremia Fiolkinge i Guds Nafne ?

Þa Madur vill med Guds Nafne, Grein Ritningar, eda nockru odru sem tilhlyder Guds Dijrdkan, lækna Meñ edur Fenad, signa edur særa, syna hver stoled hafe, edur fremia nockra Hiatrw.

5. B. Mos. 18. 10. 12. Þar finest ecke hia þier sa nockur, sem fer med Spaadooma, edur er Dagvéliare, edur sa sem hyggur ad Fugla-Kvake, edur Galdra-Madur, edur Særinga-Madur, edur nockur Fitons-Anda Forsagnare, edur Teikna Utleggiare, eda sa nockur sem leitar Frietta af Daudum. Þvi hver hañ giører soddañ, hañ er ein Svijvirding fyrer DRottne.

Leifest Mañe eige ad leita Ralda til Fiolkuñugra edur Vijsenda Maña, er so kallast ?

Nei, eingañvegeñ. 3. B. Mos. 29. 31. Snwed ydur ecke til Spaasagnar-Maña, og þier skulud einkis spyria af þim sem fara med Teikna Þijdingar, so ad þier saurgist ecki af þim, þvi eg er Drottiñ ydar Gud. Ez. 14. 10.

Þarf Madur ecke ad Ottast Galdra-Meñ ?

Nei, þvi þeir geta þeim Tewudu alls eckert giørt, añ Guds Tilláetsene.

Hvernig vanbrwkast Guds Nafn til ad liwga, pretta edur svijkia ?

1.) Med falskre Kieñingu: Þa Madur brwkar Guds Ord til ad fegra nockurn Villu-Lærdoom. 2. Tim. 3. 13. Þeir vondu Meñ og Svikarar framleidast æ til hins verra, þvi þeir villa, og verda villter. 2. Pet. 3. 16.

2.)

2.) Med Hræsne: Þa Madur midt i sinne Vondsku vill synast gudhræddur, vegna þess hann ydkar Lestra og Saunga, edá talar um Guds Ord.
Ps. 50. 16. 17. Til hins Ogudhrædda seger Gud: Hvar fyrer kunngiörer þu minar Rettlætingar, og tekur minn Sattmaala þier i Munn, þar ed þu hatar Typtunena, og fleiger minnum Ordum a Bak þier aptur.
Hvers hefur sa ad vænta, sem med nockurt soddann Slag leggur Guds Nafn vid Hiegooma?
Stoors Straffs, bæde tijmanlega og eilijflega; Med þvi DRotten vill eige halda þann saklausann, edur Ohegndann vera laata, sem brwkar hanns Nafn hiegoomlega.
Hvad er þad gooda, oss verdur skipad i ödru Bodordenu?
Ad vier i öllum vorum Naudsynium og Mootgæange, akallum Guds heilaga Nafn, þad tilbidium, lofum og þvi Packer giorum.
Hvad er þad: Ad tilbidia og akalla?
Bænen er christens Manns ydugleg Osk til Guds.
1. Thess. 5. 17. Bidied Oaflaatanlega.
Enn Akallan er ein alvarlegre Bæn, sem pressast wt af Hiartanu vegna Neydar og Angistar.
Ps. 50. 15. Akalla mig i Neydene, þa mun eg frelsa þig, og þu skalt þa heidra mig.
Hvad er þad: Ad lofa Gud og honum Packer ad giöra?
Þad fyrra er: Ad kannast vid Guds Fullkomlegleika og Glædsku i siaalfum sier, og vegsama hann i sinu Hiarta. Þad sijdara er: Ad kannast vid hanns Giædsku vid oss, og prijsa hann þar fyrer.
Ps. 103. 1. 2. Lofa þu Saala mijn Drottenn, og allt hvad i mier er hanns H. Nafn. Lofa þu Drottenn Saala mijn, og forgleym eige þvi Gooda, sem hann hefur giort þier.

Er

Er enn fleira þad Gooda, sem Annad Bodorded skyldar oss til?

Jaa, sem er: Ad hafa Guds Ord uñ Hond med allre Virdingu, tala giarnañ uñ þad, lesa kostgiæfilega þa H. Ritning, og ad vidurkenna Guds Ords Sañleika Ofkelfdt, jafnvel i stærstu Haaskasemdum.

## Utaf Þridia Bodordenu.

Hvad er oss boded i Þridia Bodordenu?

Ad vier skulum helga Hvijldardagenn.

Hvar af hefur Hvijldardagureñ sitt Nafn?

Af Guds eigeñ Hvijld, þader, ad hann hætte Skopunar-Verkenu a þeim siounda Dege, epter þad hañ hafde a undañfornum sex Dogum skapad Himen og Jord. 1. Mos. 2. 3

Hver er þa Hvijldardagurenn?

Hia Gydingum var þad sa siounde Dagr i Vikuñe, a hverium Gud hvijldest; Eñ hia oss er þad sa fyrste, a hveriumChrist uppreis fra daudum.

Hvernig eigum vier ad helga Hvijldardagenn?

So ad vier brwkum allañ þann Dag, alleina til heilagra Hugsana, Orda og Verka, og til Eblingar vorre eigeñ Helgun.

Hvad ebler þa vora Helgun?

Kostgiæfilega ad heyra Guds Ord, lesa þad, og yfirvega bæde i Kyrkiuñe og vorum eigeñ Hwsum.

Joh. 17. 11. Heilage Fader, helga þu þa i þijnum Sannleik, þijn Ord eru Sannleikur.

Hvernig eigum vier ad hlijda a Guds Ords Predikun?

Med hiartanlegre Gudrækne, og sannarlegu Aforme ad laga vort Lijferne þar epter.

Jac. 1. 22. Vered og einnig Giørendur Ordsins, eñ

eige alleinasta Tilheyrendur, hvar med þier siaalfa ydur at Taular draged.

Forum vier þa til Kyrkiunnar alleina til ad heyra Predikunena ?

Nei, heldur og so til ad vegsama Gud, og upporfa hver añañ til elskufullrar Umgeingne med honum. Col. 3. 16. Latted Christi Ord riikuglega byggia medal ydar i allre Vitsku. Lœred og amiñed ydur siaalfa med Psalmum, Lofsaungum og andlegum Kvædum, og synged Drottne i ydrum Hiortum med Packargiord.

Erþa allt bwed þegar soddañ Piovnustugiord er endud ?

Nei, vier eigum siidañ med Bœnum, Yfirvegan og Ransookn, ad iñþryckia Sañleikanum eñ þaa kroptuglegar i vor Hiortu: Og i þessu innvortes Musterenu, sem er eiñ hoogvær Ande, eigum vier ad þioona Gude, þacka honum, tilbidia hañ, og laata hañs Ord gaanga oss riett iñelega til Hiarta. Luc. 11. 28. Sæler eru þeir sem heyra Guds Ord, og vardveita þad.

Hvad er þad Illa, sem i þridia Bodordenu er bañad ?

Ad vier foragtum eda vanrækium Guds Ord, edur laatum veraldlega Hlute hindra oss i vorum Gudrækins Efnum.

Hver vanræker Guds Ord ?

Saa sem aan sañra Naudsynia situr heima, og fer ei til Kyrkiu aa tilsettum Tijma. Ebr. 10. 25. Lautum oss ei yfirgefa vorn Søfnud, siñ sumra er Sidur.

Hver foragtar Guds Ord ?

Saa sem under þess Heyrn eda Lestre, skrafar, sefr, eda fyller upp sitt Hugskot mz añarlegum Þonkum. Pred. 5. 1. Vakta þiñ Foot, nær þu gengur til Guds Hwss, og kom so þu kunner ad heyra. Þad er betra

eiun

eun saviijs Manns Offur.

Hvar med vanhelgar Madur Hvijldardagenn ?

Med lijkamlegu nauðsynialausu Erfide, somuleid- es syndsamlegum Skemtunum, so sem Danse, Spilum, Gledeleikum, ad gaanga i Dryckiu Hws, og ødru soddañ, sem alltijd er Synd i sialfu sier, enn a Helgedøgum twofold Synd.

Eru þa eingeñ wtvortis Verk leyfileg a Suñudøgum ?

Jw, soñ Naudsynia Verk, sem eige meiga und- añdragast, og Kiærleikañs Verk, sem ætijd a ad giora. Siaa Luc. 14. 5. Matth. 12. 7.

Er þad þa ecke nøog til Sabbatz-Dagsens Helgunar, ad Madur gange ydiulaus ?

Nei, Madur a i þess Stad, þvi framar ad astun- da, ad hafa Hiartans Uñgeingne med Gude, so Hvijld Lijkamañs adstode Saalareñar Erfide.

Þurfum vier þa vid þessa Hvijldardags i hverre Viku ?

Vor eigen Saalar Preynging, avijsar oss þaa stooru Naudsyn, sem vier høfum til þeirrar andlegu Hvijldar, og sameigeñlegrar Uppbyggingar.

## Sw Pñur Taflan.

Hvad er i stuttu Maale Innehald Annarar Bod- orda Tøblunnar ?

Kiærleikureñ til sialfra vor og vors Naunga.

Matth. 22. 39. Elska skalltu Naunga þiñ sem sialfañ þig.

Er þad þa riett ad elska sialfann sig ?

Jaa, eñ ecke i Ostickañlegañ og syndsamlegañ Maa- ta, þvi þaa er Sialfs-Elskan Ordsøk til alls Ills.

I hveriu er innefalen sw syndsamlega og Ostickañ- lega Sialfs-Elska ?

 Þegar

Þegar Mädur leitar þess sem honum þiker horfa til siins eigeñ Sagns, siñar Vegsemdar edr Skemtunar, med soddañ Hætte sm striider a mooteGuds Vilia, og hirdir ecki neitt uñ Naunganš Kiærleika
Hvar i er innefalen sw skickañlega og syndlausa Siaalfs - Elska ?

J þeirre Epterlaangan sem af Gude er iñplontud, til ad ebla siina eigen Velferd, og hina soñu Saaluhiaalp.

Hvad er þad þa sem þu aatt mest ad hyrda uñ og hafa Umhyggiu fyrer ad ebla og styrkia til Velferdar ?

Saalen er þad, sem er saa ypparlegt og Odaudlege Partur Mannsens.

Matth. 16. 26. Hvad stodar þad Manneñ, þo hañ vinne allann Heimeñ, eñ fenge Tioon a sinne Saalu.

Maa eg þa liika bera Umhyggiu fyrer Liikamanum ?

Jaa, i skickañlegañ Maata, og so sem hañ þarf med naudsynlega. Eph. 5. 29. Alldrege hefr nockur sitt eiged Hold hatad, heldur nærer hañ þad og fooStrar.

A þa Holded eige ad krossfestast ?

Jw, þvi añars striider þad i moote Saaluñe, med þvi Synden byr liika i Holdenu, og nefnest Hold.

1. Cor. 9. 27. Eg tem miñ Liikama og þiaa hañ.
Col. 3. 5. So deyded nu ydar Limu, sm a Jordu eru.
Rom. 13. 14. Hafed ei Umhyggiu fyrer Holdenu, til (ad uppvekia) Girndernar.

Hvad kenner mier hin Onnur Tablan um þad sem ahrærer minn Naunga ?

Þad, ad eg aa ad vera vid hañ so siñadur, og haga mier so vid hann sem mier er fremst mogulegt, eins og eg vilde mier af honum kioosa.

Matth. 7. 12. Allt hvad þier vilied Mennerner giøre ydur,

ydur, þad ſkulud þier og þeim gióra, þad er Lögmaaled og Spaamennerner.

Hvernig get eg þa funded epter þeſſare Reglu, hvad Riett er edur Raangt i Umgengne vid miñ Naunga ?

Nær eg ſet mig ſiaalfañ i Stad mijns Naunga, og yfirvega, hvert eg vilde hañ ſlæe mig, bölvade mier, ſvike mig, ſtæle fraa mier, eda baktalade mig, og med þvi mijn Elſka, ſem eg hefe aa ſiaalfum mier, vill þetta ecke lijda, þaa er hun mier ein Regla uñ Elſkuna til mijns Naunga, og ſyner einnig hvad gott eg aa honum ad giora i Stadeñ þeſs vonda.

Hver er þa minn Naunge ?

Aller Meñ, hvert ſem þeir eru meire Hoattar edur miñe, chriſtner edur heidner, vonder edur goder, Viner edur Oviner, ſierdeiles þeir ſem vier vitum ad i Naud eru ſtadder, og kuñum ad hiaalpa.

Poſt. G. B. 17. 26. Allar Mannañа Ættkvijſler bwa aa Jordüñe af einu Bloode. Luc. 10. 29.

Er þa eingeñ Mismunur, edur hærra edur lægra, i Elſku þeirre ſem Madur aa ad hafa til Naunga ſijns ?

Ad vijſu, þvi þeſs meir og framar ſem miñ Naunge er mier vandabundeñ, añad hvert i lijkamlegañ Maata, ad Skyldugleika, Mægdum, Vinaattu, Naagreñe og Velgiordum; Edur uppaa andlega Vijſu, vegna ſameigennlegra Trwarbragda, Vonar, Kiærleika og Alvorugefnes, i þvi, ad leita Guds Rijkes, þeſs naakvæmlegar er eg ſkyldugur ad audſyna þvilijkum Kiærleika framar eñ ødrum.

Gal. 6. 10. Fyrſt vier hofum enn Tijdena, þa giorum gott hverium Manne, einna meſt þeim ſem eru Trwarennar Heimkynnes.

Er eg þa skyldugur ad elska Ovin miñ sem sialfañ mig?

Jæ. Matth. 5. 44. Elsked þier Ovine ydar, blessed þa er ydur bølva, giøred þeim gott er ydur hata, og bidied fyrer þeim er ydur Skada og Offsookn veita, so ad þier sieud Børn Fødur ydar, þess ä Himnum er.

Mä eg þa hata þann Ogudlega?

Nei, eg æ ad læta mier vera uñhugad uñ hañs Gagn, lijka sem nockurs añars; Eñ giæta þo ad sialfum mier, ad eg eige samhÿlle Synd hañs, og elska mest hañs Sælu, og ala Orn fyrer henne.

Er þad nøog, ad vier med Ordum og Atvikum audsynum oss vingiarnlega vid vorn Nauunga?

Nei, þad æ vissulega eiñig ad vera i Verke og Sannleika. 1. Joh. 3. 18. Elskum eige med Orde og Twngu alleina, heldur med Verke og Sannleika.

Hvers vegna eigum vier ad elska vorn Nauunga?

Guds vegna, þvi þad keñer hañ oss med sijnu Orde og Epterdæme. 1. Joh. 4. 11. Þier Astsamleger: Fyrst þad Gud hefur oss so elskad, þa skulum vier einnig elska oss innbyrdes.

Hvar verdur mier framveges wtmæladur Kiærleikurenn til Nauungañs?

J þeim Sio sijdare Bodordunum, sem hlijda til Annare Toblunne.

Hvert er þad fyrsta Bodord ä Annare Tobluñe?

Þad Fiorda Bodord.

## Ut af Fiorda Bodordenu.

Hvad er oss skipad i Fiorda Bodordenu?

Ad hafa vora Foreldra i Heidre, þiona þeim, hlijda þeim, og virda þæ.

Hvad er bannad i Fiorda Bodordenu?

Ad

Ad fyrerlijta og til Reide ad reita vora Foreldra.

Hverier skiliast under Nafne Fødur og Moodur?

Fyrst vorer nætturleger Foreldrar; Þar nærst þeir sem i nockurn Mæata eru yfer oss bodner edur stioornande, so sem: Yfervalds-Personur, Fiærhalds-Menn, Hwss-Bændur, Prestar, Skoolameistarar, og þesshættar, sem aller eru Foreldrar, hver epter sijnu Stande.

Hvad margar eru Høfudstietternar?

Þriær sierdeilis, sem er:

1.) Veraldleg Vald-Stiett. Z hverre Kongar, Furstar og adrar Yfervalds-Personur eru Foreldrar, enn þeirra Born Underssatarner.

2.) Kennedooms-Stietten. Z hverre Prestar og Skoolameistarar eru Foreldrar, eñ þeirra Tilheyrendur og Læresveinar Born.

3.) Hwsstioornar-Stietten. Z hverre Fader og Mooder, Hwsbændur og Hwssmædur, Fiærhaldsmeñ, Velgiordamenn, og froomt gamallt Foolk, eiga ad virdast sem Foreldrar, af Bornum, Barna-Bornum, Stiwp-Bornum, Þioonustu-Foolke, Umbods Bornum, og odrum Ynglingum.

Hvers vegna a eitt Barn, einn Þienare, edur Læresveinn, ad heidra þessa Foreldra?

Vegna þess, þad er Guds Skipan, og þienar til þeirra Velferdar.

Hver hefur tilsett Yfervalded yfer oss?

Siælfur Gud. Rom. 13. 1. Þar er eige nockurt Valdstioorn, utann af Gude.

Erum vier þa Guds vegna skylduger ad hlijda lijka

einu Ogudlegu Yfervalde ?

Jaa, þad var heided Yfirvald, sem St. Petur vilde, ad þeir, sem lifdu i þeirre fyrstu Christne, skyldu hlijdner vera, þa hann sagde: Vered undergefner allre mannlegre Skickan, fyrer Herrans Saker. 1. Pet. 2. 13.

Hverniig eiga Undersaatarner ad hegda sier vid sijn Yfervøld ?

1.) Eiga þeir viliuglega ad hlijda þeim.

Rom. 13. 5. Vered nu af Naudsyn undergefner, eige alleinasta Hirtingarennar vegna, heldur og lijka einnig fyrer Samvitskunnar Saker.

2.) Heidra þau.

Rom. 13. 7. Gefed þeim Heidur, sem Heidur heyrer.

3.) Bidia fyrer þeim.

1. Tim. 2. 1. So aunine eg nu, ad Menn umfram alla Hlute, giøre Booner, Bæner, Fyrerbeidslur og Packargiørder fyrer øllum Mønnum, fyrer Kongum og øllu Yfervalde, uppa þad vier mættum hafa spakt og roosamlegt Lijferne, i allre Gudrækne og Sidsemе.

4.) Skulu þeir greiduglega gialda þeim Skatt, Tolla og Tijunder.

Matth. 22. 21. Gefed þa Keisaranum hvad Keisarans er, og þad Gude hvad Guds er.

Eru Toll-Svik og þesshattar Afdrattur stoor Synd ?

Jaa vijst. Rom. 13. 6. 7. Þar fyrer skulud þier og Skatt gialda; þviad þeir eru Guds Þienarar, sem slijkar Verndaner skulu styrkia, þvi gefed þad hverium sem þier skylduger erud, þeim Skatt sem Skattur heyrer, þeim Toll er Tollur heyrer, þeim Otta er Otte heyrer, þeim Heidur sem Heidur heyrer.

Maa Madur alldreige vera Yfervaldenu Ohlijden, edur forsooma þess Skipan ?

Alldreige, nema bessalad sie þad sem er openber

Syn

Synd a mootẽ Guds Boderdum, þvi þa hæfir ad Madr framar hlijde Gude eñ Mønnum. Post. G. 5. 29.

Hvad er Yfervaldsens Skylda vid Undersaatana ?

Ad elska þa, leita þeirra tijmannlegrar og eilijfrar Velferdar, halda vid Fride og goodu Skicke, med þvi ad straffa þad Vonda, eñ launa þad Gooda. Rom. 13. 4. Valdstioornen er Guds Þienare þier til gooda, eñ ef þu giører þad vondt er, þa mattu Ottast, þviad hun ber eige Sverded forgefens.

Af hverium eru Lærefedur og Predikarar tilsetter ?

Af Gude. 2. Cor. 5. 20. So erum vier nu Sendebodar i Christi Stad, þvi Gud aminer fyrer ofs.

Eiga Tilheyrendurner ad hlijda Amiñingum þeirra Saalusorgara ?

Ia, vissulega. Ebr. 13. 17. Hlijded ydrum Keñefedrum, og fylged þeim, þviad þeir vaka yfir ydrum Saalum, lijka sem þeir ed Reikningskap þar fyrer giøra skulu, so ad þeir giøre þad med Glede, eñ ecke med Andvarpan, þviad þad er ydur ecke gott.

Eiga Meñ og ad hlijda einum Ogudlegum Keñe-Fødur, og breita epter hønum ?

Ecke maa breita epter hañs Verkum, heldur hañs Kenningu hlijda, so framt sem hañ vijkur eige fraa Ritningarennar Sañleika, og maa rañsaka þad, eins og þeir i Berrohen giørdu. (Post. G. 17. 11.) Og þar a heima þad Christr seger: Matth. 23. 2. 3. A Moysis Stoole sitia Skriftlærder og Phariseæi, allt hvad þeir segia ydur ad halda, þad halded og giøred, enn epter þeirra Verkum skulud þier ei giøra, þviad þeir segia þad og giøra eige.

Uñ hvad eru Tilheyrendurner þeirra Keñefedrum skylduger ?

Ad elska þa, hlijda, endurgialda, og bidia þeim

Goods, og virda þa.
Gal. 6. 6. Sa fræddur verdur med Ordenu, hañ bijte hønum allshattudum Giædum, sem hañ uppfræder.
Hvad er eins Keñesødur Skylda vid sijna Tilheyrendur?
Ad keña þeim, aminka og straffa þa af einu goodfwsu, hoogværu og umhygginfullu Hiarta; Sommuleides sijfeldt ad bidia fyrer þeim, hugga þa og ganga undann þeim med goodum Epterdæmum.
2. Tim. 4. 2. Predika þu Ordeð, haldt vid, hvert það stedur i haglegañ Tijma eda Ohaglegañ, sannfær, straffa, aminn, med allre Þolennmæde og Kenningu.
1. Pet. 5. 2. 3. 1. Cor. 4 16. 1. Cor. 11. 1.
Er eiñ Prestur ecke settur til ad hugga alla Meñ?
Nei, ecke utañ þa saň-ydrande; Þeim sem lifa i Andvaraleyse, er Huggunen Salareñar Olifian.
Ezech. 3. 9. Nær eg sege til hiñs Ogudlega: Þu skalt Dauda deya, og þu varar hañ eige vid, þa mun hiñ Ogudlege deya fyrer sinna Synda Saker, enn hañs Bloods mun eg krefia af þinne Hende.
Hverier eru þeir fölsku Spameñ a medal Kennefedrañа, sem Meñ eiga ad vakta sig fyrer?
Nærst morgum odrum er ei verda talder, eru sierdeiles, epter Frelsarañs Ordum, þeir sem giora breidann þañ Veg, sem leider til Himens, og draga so Salernar a Talar med Von Saluhialpareñar, þar til þær vakna i Helvijte.
Matth. 7. 14. 15. Það Port er þrangt, og sa Vegur er mioor, sem til Lijfsins leider, og þeir eru faier, er hañ rata: Vakted ydur fyrer Fals-Spamøñum, sem til ydar koma i Klædum Saudanna, eñ innañ til eru þeir glepsande Ulfar, af Avortum þeirra meged þier þa þeckia.
Es. 3. 12. Foolk mitt, þijner Huggunar-Meñ villa þig.
Hvad er þeirra natturlegn Foreldra og Flaurhaldsmaña

Maña Skylda vid þa Ungu ?

Ad bidia fyrer þeim, og bera Umsorgun fyrer þeirra tijmañlegre, andlegre og eilijfre Velferd.

Eph. 6. 4. Þier Fedr skulud ei egna ydar Børn til Reide, heldur aled þau upp i Aga og Umvøndun til Drottens.

Hvad eiga Foreldrarner ad giøra vid Ohlijden Børn ?

Þeir skulu straffa þau skynsamlega og goodfwslega, ecke til Uppertingar, heldur til Betrunar.

Ordskv. B. 13. 24. Hver hañ sparar siñ Vønd, hañ hatar siñ Son, eñ hver ą honum hefur Ast, agar hañ sliootl.

Straffar Gud þa Foreldrana sem lata Børnen vera sialfrꜳd ?

Jꜳ, þad siꜳum vier af Epterdæme Eli. 1. Sam. 2.

Kañ Madur og so ad straffa Børnen um of ?

Jꜳ, Eph. 6. 4. Þier Fedur skulud ei egna ydar Børn til Reide.

Hvad er Barnanna Skylda vid Foreldrana ?

Ad heidra þꜳ og elska, þioona þeim og hlijda, med Hiarta, Ordum, Vidmoote og Verkum, lijka þegar Børnen eru orden mindug, sinsøm, rijk og ꜳlitleg; Einig ad bidia fyrer þeim.

Sir. 3. 10. Heidra Fødur og Moodur, med Giørdum, Ordum og Þoleñmæde, so ad þeirra Blessan yfer þig kome. V. 14. Kiæra Barn, añast þu þiñ Fødur, i sinne Elle, og stygg hann eige so leinge hann lifer. V. 18. Hver sinn Fødur fyrerlætur, sꜳ verdur smꜳdur (er sem eiñ Gudlastare) og hver hann sijna Moodur stygger, sꜳ er bølvadur af DRottne.

Mꜳ eitt Barn gifta sig utann Vilia og Sambycke siña Foreldra ?

Nei, þad er ad giøra þeim stoort Angur.

Eiga Menn ad hlijdnast Foreldrunum i Illu og Syndsamlegu ?

Nei.

Nei. Matth. 10. 37. Hver hann elskar Fødur og Moodur meir enn mig, sa er miin eige verdugur.

Hvad er Hwßboondans og Matmoodurennar Skylda vid þeirra Pioonustufoolk ?

1.) Ad gefa þvi tilheyrelega Fædu og Laun i riett- ann Tijma. 3. B.Mos. 19. 13. Laattu ecke Daglauna-Mannsens Verk-Kaup vera hia þier allt til Morguns.

2.) Stijra þvi og stioorna med goodswslegre Polenmæde. Eph. 6. 9. Og þier Drottnar, giored einnig þetta hid sama vid þau, og læted af Ognunum, og vited einnig; þad ydar DRottenn er a Himnum, og þad hia hönum er eckert Manngreinar-Alit.

3.) Ad lata sier vera umhugad um þess lijkamlega Naudsyn, sierdeilis þa þad er veikt, sem og eins lijka um þad þvi er andlega naudsynlegt, ad þeir uppfræ- de, amminne og bidie fyrer þvi, so sem giorde Hofuds-madurenn i Capernaum. Matth. 8. 6. Gen. 18. 19.

Hvad er Pioonustufoolks Skylda vid þess Hwß-bændur og Matmædur ?

Þad a ad elska þau, heidra og hlijda þeim, og leita þeirra Gagnsmuna i øllum Hlutum, vera yded og trwtt, hvert sem þeir eru nær eda fiær, og bidia lijka kostgiæfelega fyrer þeim. Eph. 6. 5.-8. Þier Pioon- ustumenn, vered hlijduger ydrum lijkamlegum Drottnum med Otta og Skielfingu, i Einfaldleik ydvars Hiarta, so sem Christo, eige alleinasta med Pioonustu fyrer Augunum, Mønnunum til Þocknunar, heldur so sem Pioonar Christi, þad þier giored þenna Guds Vilia af Hiarta med goodum Vilia: Læted ydur þykia so sem þier þiooned DRottne, og eige Mønnunum, og vited, ad hvad sem hver einn giører Gott, þad mun hann af DRottne medtaka, hvert hann er Præll eda Frelsinge.

Enn

Enn ef Hwſsbondenn er undarlega lyndur, og baigt er ad forliikaſt vid hann ?

Þa ær chriſteñ Þienare ad ydka Þoleñmædena. 1. Pet. 2. 18. 19. Þier Þionnuſtumeñ, vered Herrunum undergefner med allre Ottaſeme, eige alleinaſta goodum og ſpakferdugum, heldur eiñig þeim ſtierlundudu, Þvi þad er Naad ef nockur fyrer Samvitſkuñar Saker til Guds Þoler hid Illa og liidur hid Orietta.

Maa Þionnuſtufoolk vera ſo hliided, ad þad laate brwka ſig til ſyndſamlegra Verka ?

Nei, eingannvegeñ; Þvi hæntt er Herra-Bod, eñ hærra er Guds Bod. Poſt.G.B. 5. 29. Framar ber ad hliida Gude enn Moñum.

Hverin lofar Gud þeim Bornum og Þienurum, ſem eru hliideñ, og halda Fioorda Bodorded ?

Ad þeim vegne vel, og þau liſe leinge a Jorduñe.

Gefur þa Gud ollum froomum Moñum laungt Liif og farſælt ?

Jaa, ſiæ hañ þad þiena til þeirra Sæluhialpar, annars ecke.

Þvi lætur hañ Ogudlega þa oft verda gamla ?

Af þvi hann vill unna þeim þeſs leingre Tijma og Tækefæres til Umvendunar.

Straffar Gud þa Barnaña Ohliidne, eins og hañ launar þeirra Hliidne vid Foreldrana ?

Jaa, þar uppa hofum vier merkelegt Dæme a Abſalon, Davids þverbrotnum Syne, ſem hieck a Hærenu i Eikeñe, gegnumſtwngeñ med þremur Spiootum. 2. Sam. 18. 9.-15.

## Ut af Fimta Bodordenu.

Hvad Illt er bannad i þeſſu Bodorde ?

Alls-

Allskyns Mord og Mañdræp, sem eige skiedur eptir Yfervaldsens Doome og Skipan, heldur af eigen Hefndargyrne.

Hvad margslags er Morded edur Mañdræped?

Tveñslags, sem er fyrst, þad stoorkostlega (sem mikid ber a) sem skiedur med gioraũlegum Verknade; Og þad annad, sem miña ber a, edur þad kiænlegra, sem skiedur med Hatre Hiartans, Ordum Muñsens, og Andlitsens Utlite.

Hvernig deyder Madur siñ Nauunga med Verkenu?

1.) Annadhvert i einu, med Hogge, Stijng, Skote, Eitre, og þvilijku. 1. Mos B. 9. 6. Hver sem wtheller Mañsins Bloode, hanns Blood skal og wthellast fyrer Manneñ.

Ellegar þad getur og sked,

2.) Med laungum Tildrætte, og leynelega, med þvi ad koma Naungann i stoort Hiartans Angur, edur fyrra hann sinne Næring.

Sir. 35. 26. 27. Hver hañ tekur fra ödrum hañs Næring, hañ drepur sinn Naunga; Hver hañ gefur eige Erfides-Mañenum sijn Laun, sa er Bloodhundur.

Nu, ef Madur svipter eige Naungañ Lijfenu, getur hañ þa deydt hañ med Haturs-fulln Hiarta og Illyrdum?

Ja, þad keñer JEsus, Matth. 5. 21. 22. Þar hañ wtleggur hvernig þetta Bodord a andlega ad skiliast, (segiande): Þier hafed heyrt ad sagt er til hiña Gömlu: Þu skallt ecke Mañ vega, eñ hver ed Mañ vegur, hañ verdur Dooms sekur; Eñ eg sege ydur, hver hañ er reidur Broodur sijnum (an Ordsaka) hañ verdur Dooms sekur, eñ hver sem til Broodur sijns seger: Racha, hañ verdur Raads sekur, eñ hver ed seger: Þu Afglape, hañ verdur sekur Helvijtis Elds.

Er

Er þa ein Haturs-full og Hefndar-giorn Mañeskia einn Mordinge ?

Ja vissulega, þvi Gud aalijtur Hiartad fraanar eñ Hondena. 1. Joh. 3. 15. Hver siñ Broodur hatar, sa er Mañdraapare, og þier vited ad Mañdraapareñ hefur eige eilijft Lijf hiaa sier bliifanda.

Er eiñ Ordhaakur, sem wteys grimum og haadugleg-um Faar-Ordum, og so eiñ Mordinge ?

Ja, Jesus kallar þad Synd, sem forþienar Helvijtes Eld, og David seger: Ps. 64. 4. Þeir hvetia sijna Twngu sem Sverd, þeir ed med sijnum eitrudum Ordum so skioota til Hæfis sem med Pijlum.

Er þa Grimd, Heiptrækne og Ulfbwd so hættuleg Synd ?

O Ja; Hvar sem hun hefur Yferhond, þar er eige Naadareñar Ande nie Blijdlynde JEsu.

Eph. 4. 31. 32. Allur Beiskleike og Grimd, Reide, Hroopan og Lastan, sie laangt fraa ydur, samt allre Illsku; Eñ vered iñbyrdes hver vid annañ vingiarnleger og aastwdleger, og fyrergefed hver ødrum, lijka so sem ad Gud hefur fyrergefed ydur i Christo.

Hvad skal þa eiñ Reidegiarn taka til Raada, til ad hafa i Taume og dempa med sitt Heiptar-Ged ?

Hañ skal wtbrynia sig med Blijdlynde JEsu, taka Vara aa hverre sinne Hugsan, bidia ad hañ falle ecke i Freistne, og sialfur taka sier Vara fyrer Tilefne til Freistingarennar.

Er þa alls eingen Reide leifileg ?

Eingen Reide vid Personurnar, eñ reidast maa vid Synd og Vondsku, hver rettferdug Reide kallast Vandlæting, og keimur af Elsku til Guds og Naaungans. Jac. 1. 19. 20. Ps. 119. 13. Eph. 4. 26.

Kañ Madur og ad deyda siñ Naunga ad Saaluñe til ?

Jaa

Jaa, med þvi ad leida hañ i Villu, og med þvi ad hneixla hañ. Matth. 18. 6. Hver sem hneixlar eiñ af þessum Smaau, sem aa mig trwa, þarfara være hønum, ad Mylnu-Steiñ heingdest uũ Hals hønum, og være i Siaafar-Diwp socktur.

Maa Madur taka Lijfed af siaalfum sier ?

Nei, þad er ad drepa Lijkama og Saal i einu Lage, og aptur læsa Dyrum Naadarennar, sem Judas, saa Fordiørsunar Sonur, giørde.

Hvad er þad Gooda, sem oss verdur boded i Fiũta Bodordenu ?

1.) Ad biarga og hiaalpa vid vorum Naaunga, i øllum hañs Lijfs Haaskasemdum.

1.Joh.3.17. Nær nockr hefur þessarar Veraldar Audæfe, og sier siñ Broodur Nand lijda, og lykur sitt Hiarta til fyrer hm̃, hvernig blijfur Guds Kiærleike hiaa hønum ?

2.) Ad um̃gaangast vinsamlega og med Hoogværd vid vorn Naaunga. Matth. 5. 5. Sæler eru Hoogværer, þvi þeir muuu Jardrijked erfa.

3.) Ad bera Um̃hyggiu fyrer Saal vors Naaunga, þa vier siaaum heñe hætt vid eilijfum Dauda, ad so miklu leite, sem vier, so sem andleger Kenneneñ, kunnum ad styrkia hana til Saaluhiaalpar, med goodfwsum Vidvorunum og Aminningum.

Jac.5.19.20. Kiærer Bræður! Ef ad nockur aa medal ydar villest fraa Sañleikanum, og um̃snyr hønum einhver, saa skal vita þad, ad hver ed Syndaranum um̃snyr i fraa Villu hañs Vegar, hefur frelsad eina Ønd fraa Dauda, og mun nidre byrgia Fiølda Syndanna.

Hver var saa fyrste Mordinge ?

Cain, er sloo siñ Broodur Abel i Hel af Øfund.

Er og Synd ad vera myskunarlaus vid maallausar

Skepn-

Skępnur?

Fm. Orðskv. 12. 10. Hinn Riettlaate aumkar sig yfer sijnum Fenade, eñ HiartaOgudrækensMañs ter Omyskunsamt.

## Ut af Siøtta Bodordenu.

Hvad er Hiwskapur?

Hiw elðsta Stiett og Stand, af sialfum Gude iñsett i Paradÿs, sem vilde ad Madur og Kvinna skyldu eitt Hold vera.

Er þesse Stiett þa ecke syndsamleg og saurug?

Þad er hun ecke, þegar i heñe er lifad epter Guds Orde og Vilia.

Ebr. 13 4. Hiwskapureñ skal heidurlegur haldenn vera hia ollum, og Hioonabands Sængen Ofleckud.

Til hvers hefur Gud innsett Hioonabanded?

1.) Til Mañkynsens Frioofgunar. 1. Mos. B. 1. 28. Aukest þid og margfaldest, og uppfylled Iørdena.

2.) Til ad aptra illum Gyrndum.

1. Cor. 7. 2. Fyrer Frillulifnadar Saker, þa hafe hver eiñ sijna eigeñ Konu, og hver ein hafe siñ eigeñMañ.

3.) Til iñbyrdesAdstodar, Huggunar ogRaada-neytes. 1. Mos. B. 2. 18. Og Drotteñ Gud sagde: Þad er eige gott, ad Madureñ sie eiñsamañ,eg vil giøra hønum einaMedhiælp, þa sem vera maa hiaa hønum.

Hverneig a eiñ Egta-Madur ad hegda sier vid sijna Egta-Kvinnu?

Hañ a trwlega ad elska hana, virda, stijra, stioorna, og ala Oñ fyrer heñe, so og ad umbera heñar Breyskleika med Poleñmæde, bidia fyrer heñe, og leita heñar Saalar Velferdar. Col. 3. 19. Þier Meñ, elsked ydar Eigeñ-Konur, og vered ei beyskluñ-

 ader

ader vid þær. 1. Cor. 7. 16.

Hvernig a ein Egta-Kvina ad hegda sier vid sinn Eigen Mann ?

Hun a ad vera honum undergefin i Kiærleika, Trwskap og Umhyggiu fyrir Hwsshondlanine, bidia fyrer honum, og leita hans Saalar Velferdar. 1. Mos. B. 3. 16. Þin Vilie skal vera Þijnum Manne undergefen, og hann skal vera Þin Herra. 1. Cor. 7. 34. Sw sem gift er, sw ber Ahyggiu um Þad, hvad Heimsens er, og hvernig hun meige Mannenum Þocknast. 1. Cor. 7. 16. 1. Pet. 3. 1.

Hvad er froomra Eckna og Fødurlausra Huggun ?

Ad sa himneske Faderen hefur sierdeiles Naadarrijka Umhyggiu fyrer þeim, og forsvarar þær. Ps. 68. 6 Drotten er Fader Fødurlausra, og Doomare Ecknanna. Sia framar, 2. Mos. 22. 22. 24. 5. Mos. 27. 19. Sir. 35. 14. 15.

Hvad er froomra Eckna Skylda ?

Þær eiga ad lifa i Sidsemd og Gudrækne. 1. Tim. 5. 5. 6. Þad er sannarleg Eckia, sem einsomul er, og sijna Von setur uppa Gud, og stadnæmest i Bænum og Akalle Dag og Noott ; Enn hun sem i Bijlijfe lifer, er lifande daud.

Hvad er Þad vonda sm oss er bannad i Siøtta Bodordenu?

Hoordoomur, Saurlifnadur, Blood-Skom, bestiulegur Loste, Lijkamans Saurgun, Egtaskaparens Foragt, Gyrnd til annarlegs Frijdleika, og allrahanda Saurugleike i Hugsunum, Ordum, Vidmoote og Verkum, bæde i Egtaskapnum og fyrer utan hann.

Hvad er Hugsanana Hoordoomur ?

Saurugar og lausláatar Gyrnder, hveriar ei eru

huldar

kuldar fyrer Gude, þvi hañ þeckar Hiartad.

Matth. 5. 28. Eg seige ydur, ad hver hann lijtur Konu til ad gyrnast hennar, sa hefur þegar drijgt Hoor med heñe i sijnu Hiarta.

Hvad er Hoordvomur i Ordnnum?

Allt svijvirdelegt og blygdunarlaust Klæm-Tal, Lauslætes Skrif, Vijsur og Kvedlingar, Gickshættur og Narrari, sem horfer til Lauslætes, edur strijder, hid miñsta, a moote riettchristeñe Alvorugefne, og reggsamlegu Skicke.

Eph. 4. 29. Læted einga vonda Rædu frañfara af ydrum Muñe. Eph. 5. 3. 4. 5. Frillulijfi og allañ Ohreinleik edur Agyrne, læted eige nefñ ydur segiast, so sin heilgum hæfir, nie smæanarleg Ord og fijflslegt Hial, eda Kieskne, hvad ydur heyrer ecke, heldur miklu framar Þackargiord. Þvi þad skulud þier vita, þad eingeñ Frillulijfis Madur, edur Ohreiñ, eda Agiarn, hver ad er Skurdgoda Dijrdkare, hefur Arftoku i Rijke Christi og Guds.

Hvad er Hoordoomslegt Vidmoot?

Allrahanda utvortis Merke, sem auglijsa þad Okamseilna Hiarta, hvert sem heldur er Augna edur Andlits Bragd, Lijkamañs Osæmeleg Opeñberan, Klædadragt Osæmeleg, Lauslætes Kossar, Dansar, Vijkevakar, og þesshættar.

Sir. 26. 13. 14. Sie þijn Dootter ecke bliug, so haldtu hana hards, so hun fremie ecke siñ mootþrøoadañ Vilia, a medañ hun er frij. Þegar þu merker þad hun litast drisluglega i kriijngum sig, so tak þad vel til Vara, eñ ef þu giører þad eige, og hun brijtur þar fyrer a moote þier, so lat þig þad ecke undra.

Eru þa Lauslætes Ord og Vidmoot so stoor Synd?

Ja, eige alleinasta eru þau i sialfu sier miked Osæmeleg christnum Moñum, heldur hafa þau

og so miked hœskasamlegar Verkaner, og þiena til eñ þœ framar ad uppvekia þœ vondu Gyrnd, þar til sw sama wtbrijtst i Verkenu.

Jac. 1. 14. 15. Sierhver freistast, nær hañ tilteigest af siñe eigen Gyrnd og lockadur verdur. Og sijdañ þad Gyrnden hefur geted, fæder hun Syndena, eñ nær Synden er fullkomnud, fæder hun Daudañ.

Hvad giører þessa Synd vidbioodslega og straffsverda framar eñ adrar Synder ?

Ad hun saurgar og fordiarfar œsamt bæde Sœl og Lijkama, sem skyldu vera Guds Mustere, enn verda ad Hybijlum hiñs Ohreina Anda.

1. Cor 6. 15. - 18. Vited þier ecke, þad ydrer Lijkamer eru ChristiLimer? Skylde eg nu takaChristsLime, og giøra þaraf SkiœkiuñarLime? þad sie fiærre. Eda vited þier ei ad hver hañ samlagar sig Skiœkiuñe, ad sœ er eiñ Lijkame mz heñi? Þvi þau munu (seiger hañ) tvø i einu Holde vera. Eñ hver hañ samteinger sig Drottne, sœ er eiñ Ande med hønum. Flyed Frillulifnadiñ, Þviad allar Synder, hveriar Maduren driiger, eru utañ hañs Lijkama, eñ hver ed Frillulifnadiñ driiger, sa syndgar vid siñ eigeñ Lijkama.

Hvad er skipad i Siøtta Bodordenu ?

Ad geyma bæde Lijkama og Sœl i søñu Hreinlijfi hvert Madur er giftur edur Ogiftur, so Madur sie alltijd hœfur ad umgœngast med sijnum Gude.

Matth. 5. 8. Sæler eru Hreinhiartader, Þvi þeir munu Gud sia.

Hvada Medøl kañ Madur ad brwka til ad geyma sig fyrer Saurlifnade ?

ÞœAndeñ er reidubwen, eñ Holded þo veikt, œ Madr ad vaka og bidia, og þar nærst vakta sig fyrer øllu þvi sem upptendrar þær vondu Gyrnder.

Hvad upptendrar þær vondu Holdsens Gyrnder ?

Þad

Þad er fierdeiles Ohoof og Dryckiuſkapur.

Er þa Ohoof og Dryckiuſkapur ſo hauſkalega ſtoor Synd?

Jaa, þvi þær wteloka oſs fraa Guds Rijke, eins og Hoordoomur, Mord, edur Þioofnadur.

Gal. 5. 19/21. Holdſins Verk eru opeñber, ſo ſem ad eru Hoordoomur, Frillulifnadur, Saurlijſe, Lauſung, Skurdgodadijrdkun, Fiolkinge, Fiandſkapur, Þrættan, Kijf, Reide, Agreiningur, Tvijdrægne, Flockadrættur, Hatur, Mord, Ofdryckia, Ofaat, og þeſſu lijkt: Ut af hveriu eg hefe adur ſagdt, og ſegie eñ nu fyrer, ad þeir ſomu, ſem ſlijkt giora, erfa eige Guds Rijke.

Luc. 21. 34. Vared ydr, ad ydar Hiortu þyngeſt ecke af Ofaate og Ofdryckiu, og med Sorgum þeſſarar Næringar.

Eñ mun ſo hauſkaſamlegt ad drecka ſig endur og ſtundum druckeñ, þa Madur leggſt eige daglega i þad?

Jaa, þegar þad ſkiedur af Aſetninge, þaa er þad alltijd fordæmanleg Synd, ſem aldrei maa eiga heima hiaa þeim ſem ſtunda epter Guds Naad og Saaluhiaalpeñe.

Enn ef Madur er ſo Hofud-ſterkur ad hañ þoler, miked, maa hañ þa ecke drecka miked?

Hverke maa Madur eta nie drecka fram yfer þad ſem hañ þarf naudſynlega med. Siaa 1. Pet. 4. 3. hvar ad gioreſt Miñnunur aa Ofdryckiu og Dryckiuſkap, og þo virdeſt þad fyrra, eins og þad ſijdara, fyrer eina heidinglega Synd.

Hvad er þad fleira, ſem kañ ad freiſta til Lauslætes?

Ydiuleyſe, vondur Selſkapur, Aꝛſiñtijre, Amors-Vijſur, Bækur og Bijlæte, Lauslætes Leiker, Danſar og Vijkevakar, og þad allt, af hveriu kviknar Fyyſn Holdſens, Fyyſn Augnaña og drambſamt Lijferne.

Hverier gooder Pænkar kuña ad vera hendtugaster, til ad kefia slijkar Holdsens Freistingar ?

Ad Madur læte sier koma i Hug: (1.) Ad sæ allra-heilagaste Gud er nálægur honum, og sier til hanns. (2.) Hvad stoor vered hafe Kvol JEsu hiñs krossfesta, sem hann leid æ ollum sijnum Lijkama. (3.) Hversu Ognarlegar munu verda Pijsler Þeirra Fordæmdu i Helvijte. Og (4.) Hversu skammvin ad er sw Skiemtan, sem Madur hefur af Þeirre saurugu Synd.

[Hver hef: so vardveitt sitt Hreinlijfe fyrer allreAstriidu?
Joseph, Þa hann sagde til Potiphars Kviñu:
Hvernig mæ eg nu Þa giora so miled Ohæfu Verk,
og syndgast æ moote Gude? 1. Mos. B. 39. 9.

## Ut af Siøunda Bodordenu.

Hvad Illt verdur bañad i Siøunda Bodordenu ?

Ad stela, edur fremia Pioofnad.

Hvad er ad stela ?

Þad er ad giora Nauungañ æ moote hañs Vilia, vidskila vid nockud, Þo Þad sie aldrei so lijtid af hañs Gootze.

Verdur Þad giort med fleiru eñ einu Moote ?

Jæ, añadhvert med Ofrijke, edur Vielum.

Hver stelur med Ofrijke ?

Þeir opeñberu Stoor-Pioofar, sem i eingu Riettenda Yfirskine, æn allrar Heimildar, taka burt añars Gootz, lijka sem Þad være Þeirra Eign.

Eph. 4. 28. Hver stoled hefur, sa stele nu eige meir, heldur erfide og afle med Hondunum nockud Gott.

Hver stelur med Vielum ?

Þad

Þad giøra aller þeir, sem annadhvert taka Naa-ungans Eign, edur halda henne med Kiænsku og leynelegum Hætte, sem ſkie kan med morgu Moote, þvi hver ein Þioofur brwkar ſijn ſlœttugu Viela-brogd og Hnicke.

Seig mier nockra af þin almennilegſtu Þioofa-Hnickium?

Ein heimuglegur Þioofur fyrer Heimenum, þo han ſie opinber fyrer Guds Auglite, er:

1.) Sa Kaupmadur, ſem i Kaupum og Solum giører Oriett ſijnum Naaunga, ſoleides, ad hann eige fær fullt Andvyrde fyrer ſitt; Annadhvert þad, ad Varan, Vigten, Mælerenn, edur Peningarner er minna verdt en Naungenn veit af, og þetta er ad elſka ei Naaungann ſem ſialfann ſig.

1. Theſſ. 4. 6. Eingenn aſæleſt edur take Agooda fraa ſijnum Broodur i Hondlanenne, þviad DRotten er hann, ſem hefner alls þeſſa.

3. Moſ. B. 19 35. Þier ſkulud ecke Ojafnadarlega hondla i Doomenum med Alen, med Vigt, og med Mæler, riettar Voger, riett Pund, og riett Mælekierhǫld, og riettar Koñur ſkulu vera hia ydur.

2.) Sa Þienare, Handverks-Madur eda Dag-launare er Þioofur, ſem fyrer fullann Betaling giører eige Verkenu Fullnuſtu, edr feller nockud undann.

2. Theſſ. 3. 10. Ef nockur vill eige erfida, ſa ſkal og ecke heldur eta.

Lijka ſa Hwſsboonde, ſem fyrer holla Þioonuſtu giefur eige tilhlijdeleg Laun og Fæde.

Jac. 5. 4. Siaied, ad Launen Verkamannanna, þeirra ſem ydar Akur-Lond hafa uppyrkt, og verid hafa af ydur innehalden, þau hroopa; og Hauſt-Yrkiaranna

Kroon er komed til Eyrna DRottens Zebaoth.

3.) Er sa Okur-Karl Pioofur, sem med Orietts-vijsre Rentu wtsygur siñ fatæka Naunga.
3. Mos. B. 25. 36. Þu skalt eckert Okur af þijnum Broodur taka, og eige osmikels af hønum krefia, helldur skalltu Ottast Drotteñ Gud þiñ, so ad þiñ Broodur meige lifa hia þier.

4.) Er sa Skulldunautur Pioofur, sem getur borgad sijna Skulld, eñ vill ecke, og med Asetningе, Svikum og Undañbrøgdum, helldur iñe hia sier annara Gootze.
Ps. 37. 21. Hiñ Ogudhrædde tek Laan og betalar ecke.

5.) Sa Doomare, edur añad Yfirvald er Pioofur, sem vanbrwkar siñ Myndugleika ad kwga Naungañ, eda tekur Mwtu til ad halla Rettenum.
Ordskv. B. 17. 23. Ogudlegur Madur þiggur giarna heimuglegar Gafur, til ad beygia Veg Rettareñs.

6.) Er sa Undersaate Pioofur, sem svijkst uñ Kongsens Toll, Tijunder og þvilijkt. Rom. 13. 7. Gefed þad hverium sem þier skylduger erud, þeim Skatt sem Skattur heyrer, þeim Toll er Tollur heyrer.

7.) Ad sijdurstu eru þeir og aller Pioofar, sem leitast vid ad naa sijnu Uppheldе med añara Skada, voga osmiked uppa Luckuna, hvert þeir viña edur tapa; ellegar vilia forsorga sig med Onytsamlegum Konstum, og naudsynialausum Hwsgangs Snijkium.
2. Thess. 3. 11. 12. Vier heyrum, þad nockrer a medal ydar gaunga Oskickañlega, og erfida eckert, drijgiande helldur Slenskap. Eñ slijkum biodum vier, og aumiñum þa, fyrer vorn Drotteñ Jesum Christum, þad þeir erfide med Spaklæte, og ete sitt eiged Brand.

Eru aller þessir Pioofar i fordæmañlegu Tilstande?

Ja:

Jaa; Þo þeir verde ei aller heingder, lenda þeir þo aller i Helvijte, nema þeir giøre saña Yfirboot. 1.Cor.6.9.10. Lated eige villa ydur; Eige Þioofar nie Agyrndar-Meñ, eige Ofdryckiu-Meñ, eige Ordhakar nie Ræningiar, munu Guds Rijke erfa.

Hvad a þa eiñ Þioofur til ad giøra, sem vill giøra Yfirboot, og leita Naadar hiaa Gude?

Þegar hañ lætur af ad stela, þaa skal hañ og so laata af ad eiga, og halda iñe hiaa sier, þvi sem hañ hefur stoled, so hañ bæte fyrer, og laate hvern faa sitt aptur, ef hañ hefur þaa Efne a þvi. 2.Mos.B.22. 3. Þioofureñ skal skila þvi stolna aptur. Luc. 19.8. Ef eg hefi nockurn tælt, þaa gef eg Ferfaldt aptur Tob. 2. 21. Afhended þeim rietta Eiganda Kidlingenn aptur, þviad oss foomer ecke ad eta stoled Gooß, eda þad sama ad snerta.

Eñ hvad skal giøra til, ef ei fiñst Eigande nie hanns Erfingiar?

Þaa so fellur til, maa þad stolna Gooß gefast Faatækum, eñ fyrre ecke. Luc. 16. 9. Giøred ydur Vine af þiñum ranglaata Mamon, so nær þier vidþurfed, ad þeir medtake ydur i eilijfar Tialdbuder.

Maa Prestureñ ecke afleysa mig af þeirre Synd, þo eg halde iñe hiaa mier þvi Rangfeingna?

Nei, eingañvegeñ, þvi fyrer Guds Auglite, nær Aflausnen ecke nema til þeirra sem eru sañ-ydrande; Eñ eingeñ Þioofur er sañ-ydrande, medañ hañ heldur iñe þvi stolna Fie.

Er þad lijka Synd ad stela Smaa-Munum?

Jaa, þad er ein stoor Synd i moote Gude, ad vilia yfirtroda hañs Bodord fyrer Smaa-Mune; Þo er Synden þvi stærre moote Naunganum,

 sem

sem meiru er stoled fra honum.

Er þad Synd ad stela fra þeim Rijku ?

Jaa, Synd er þad, þvi þetta Bodord hefur eckert Fortak, og Naungans Rijkedæme giører eige Nænginde mijn ad Rettendum.

Er þad Synd ad hylla med einum Pioof ?

Jaa, þad er ad giøra sig hluttakande i añarlegum Syndum. Ordskv. B. 29. 24. Hver Hlutskipte hefur med Pioofum, (heyrer Bølvan, og seiger þar ecke til,) hañ hatar sitt Lijf.

Getur nockur stoled fra sialfum sier ?

Jaa, þvi þad skiedur: (1.) Med Eydslu og Ydiulegse. Ordskv 23.21. Ølsvelgiarar og Grædinger wtarmast, og svefnugur Madur hlijtr ad bera tøtrug Føt.

2.) Med Nijdsku vid siñ eigeñ Lijkama.

Sir.14.5.6. Hver ecke giører sialfum sier neitt gott, hvad skal sa ødrum gott giøra ? Hañ mun aldrei af sijnu Gootze gladur vera. Eingeñ Hlutur er skamarlegre eñ sa, ad Madureñ añ sier sialfum einkis goods, og þad er makleg Plaaga fyrer hañs Vondsku.

Ma þa hver einn giøra af sijnu Gootze hvad hañ vill ?

Nei, þvi vier erum Raadsmeñ yfer Guds Gaafsum, og eigum eitt Siñ ad giøra Reikning fyrer þær. Luc. 16. 12.

Hvad Gott er skipad i Siøunda Bodordenu ?

Ad vier skulum styrkia Gagn vors Naunga.

Hvernig førum vier ad þvi, ad styrkia Naungans Gagn, i þvi sem hañs Uppheelde vidvijkur ?

Þaa vier laanum honum nockud af voru Gootze, eda gefum honum Ølmusu, hafe hañ heñar Þorf. 1.Joh.3.17. Nær nockur hefr þessarar Veraldar Audæfi, og sier siñ Brooдur Naud lijda, og lykur sitt Hiarta til

fyrer

fyrer hønum, hvernig bliifr GudsKiærleike hiaa hønum?
Ebr. 13. 16. Gott ad giøra, og med ad skipta, þa
forgleymed ecke, þvi ad sliikt Offur þocknast Gude vel.
Hver gietur og a ad hialpa þeim þurfande Naunga?
Sierdeilis þeir Riiku, samt sierhver sem hefur
nockud Afgangs þvi er hañ þarf daglega med.
1.Tim.6. 17.-19. Riikum þessarar Veraldar biood
þu (ad þeir sieu ecke mikellaater, og legge einga Von
uppa þeñañ fallvalltañ Riikdoom, heldur uppa lifanda
Gud, sem oss riikuglega gefur allshaattad til Notkunar)
þad þeir giøre gott, þad þeir audgest i goodum Ver-
kum, sieu giafmilder, goodviliader; Safnande sier
siaalfum Siood, til goods Grundvallar, uppa þad til-
komanda, so ad þeir høndle eiliift Liif.
Hvernig a Madur ad gefa Ølmusu?
EpterEfnum, og af Kiærleiks-fullu Hiartalage.
Tob 4.9. Hafir þu miked, so veittu riikuglega, eñ ef
þu hefur liited, so veittu þo af þvi litla med trwu Hiarta.
Straffar Gud þa Myskunarlausu?
Ia Jac.2. 13. Þar mun Omyskunsamur Doomur
yfir þañ gaunga, sem einga Myskunseme hefur giørda.
Ps. 41. 1. Sæll er sa sem añast hiñ Þurftuga,
DRottiñ mun frelsa hañ i hinne vondu Tiid.

## Ut af Attunda Bodordenu.

Hvad Vondt verdur i þessu Bodorde bañad?
Ad bera falskann Vitnesburd a moote Na-
unganum.
Hvad er falskur Vitnesburdur?
Øll logenn og astsemdarlaus Ræda um Na-
ungañ, hvert sem hun skiedur fyrer Rette, edur
fyrer utañ hann.
Hvernig verdur falskur Vitnesburdur borenn i

Rettar-

Rettargangs Malum ?

1.) Þegar Sækiandeñ ber fram logna Akiæru.
Ordskv. B. 19. 5. Eiñ Liwgvottur blijfur ecke Ohegndur, og sa sem framgiarnlega framber Lijge, mun ecke undañ hlaupa.

2.) Þa Vitnen stadfesta Lijgena.
Ordskv. 19.5. Eiñ Liwgvottur blijfur ei Ohegndur.

3.) Þa Talsmadureñ forsvarar Lijge i moote siñe eigen Samvitsku. 2.Mos. 23.1. Þu skalt ecke trwa raunguṁ Kiærumalum, og giør ecke þeim Ogudlega nockra Hiastod, so ad þu berer falskt Vitne.

4.) Þa Doomareñ vijsvitande, edur af Samvitsku, dæmer þad sem Lijge er, satt ad vera, og þad rangt ad vera, sem rett er.
Ordskv. B. 17. 15. Hver hañ seger þañ Ogudlega hafa riett, og fyrerdæmer Riettlatañ, þeir eru bader fyrer DRottne ein Svijvirding.

Meiga christner Meñ eiga Mal samañ ?

Þeir meiga, i þeim Sokum sem miked rijdur a, og i stærstu Naudsyn, flya til Doomara Embættes sins, sem er Guds Skipan, og klaga Naudsyn sijna, an Haturs til sijns Mootparts; Eñ ad hefia Þrætur fyrer litla Sok, og ad syna sig i ollu sierstiñadañ og hefndargiarnañ, er miog Ogudlegt.
1. Cor. 6. 7. Þar er allareidu Brestur a millum ydar, þad þier hafed Lagadeilur ydar a mille; Hvar fyrer lijded þier eige miklu heldur Oriett? Eda þvi lated þier ecke afælast ydur heldur? Sia Ordsk. B. 20. 22. Matth. 5. 39. Rom. 12. 19.

Hvernig verdur falskur Vitnesburdur boreñ fyrer utañ Rettargang ?

Þa Madur lijgur uppa siñ Naunga, og kemur

hønum

hønum raunglega i Ohroodur. Sir.5. 16. Ver eige Søqvijs, og bakmæl þu ecke med þiñe Twngu.

Mä Madur segia þad illt uñ Naungañ, sem satt er ?

Nei, nema þad sie adur opeñbert orded hverium Mañe, og ad þo Madur eige ad hafa sier til Gamans ad segia fra þvi; Þad er Kiærleiksleyse.

Hvernig kañ Madur ad svijkia siñ Naunga ?

1.) Þa Madur opeñberar þad sem hann hefur heimuglega trwad hønum fyrer. Ordskv.B. 11.13. Bakmälugur Madur opeñberar þad sem hañ veit leyneligt, eñ sa sem med trwføstu Hiarta er, hañ leyner þvi.

2.) Þa Madur upplioostrar hañs heimuglegum Brestum, hønum til Skada, eñ ødrum til Hneixlis. Sir.19. 7.8. Heyrer þu nockud vondt, þad seig eige epter, þvi Þøgn giører þier eingañ Skada. Þu skalt hverke segia þad þijnum Vin nie Ovin, og opeñbera þu þad ecke, kuñer þu ad giøra þad fyrer utañ vonda Samvitsku.

Mä Madur eige gefa til kyña Yfervaldenu edur Prestenum Naungañs Synd ?

Jw, þegar þad skedur af Elsku til Naungañs, og Umsorgun fyrer hønum, og til ad aptra Syndeñe, so sem þa Joseph sagde Fødur sijnum fra Synd Brædra siña. Sia Matth. 18.17. hvar ed Christur bijdr ad segia Søfnudenum fra Synd sijns Naunga, þegar heimugleg Advorun vill eige gagna; Enn ef þad skedur af Hefnd edur Mealæde, þa er þad Synd.

Kañ Madur og med ødru Moote missia sig i sijnu Tale ?

Ja, þvi øll Onytin Ord eru syndsamleg.

Matth. 12. 36. Eg seige ydur, af hveriu þvi faafeingu Orde sem Meñerner tala, muuu þeir Reikningskap giøra ä ytsta Dege.

Hvad

Hvad Gott er skipad i Attunda Bodordenu ?

Ad affaka Naunganñ, tala vel og meina vel um̃ hañ, og taka allt upp i betstu Meining.

Gietur Madur þa geted Goods til allra Mañа ?

Þa þeir ei med þeckiañlegum Holdsens Verkum uppliooстra siñe iñre Vonsku, mœ Madur, Kiærleikañs vegna, vænta hins betsta, og ei giora sier Misþœnka, edur fœ Oþocka til nockurs.

1. Cor. 13. 5. 7. Kiærleikureñ hugsar ecke Illt, hañ um̃ber alla Hlute, trwer ollu, vonar allt.

Eñ þœ Vondskan er orden opeñber, mœ Madur ei kalla hana gooda. Es. 5. 20. Vei þeim, hverier ed kalla hid vonda gott, og þad hid gooda vondt.

A Madur og so ad affaka siñ Naunga, þa adrer tala illa um̃ hañ ?

Iœ; Giete Madur þad med Sañe, sierdeiles þœ hañ er eige sialfur vid, og kañ ad affaka sig.

Sir. 6. 5. Hver alla Hlute fœrer til betre Vegar, sœ giører sier marga Vine.

1. Pet. 4. 8. Kiærleikureñ hylur eiñig Fiølda Syndañа.

## Ut af Nijunda og Tijunda Bodordenu.

Hvad er þad sem bañad verdur i Nijunda Bodordenu ?

Syndsamleg Fysn og Gyrnder, sierdeiles epter Annara Gootze.

Hlioodar ei þad Tijunda Bodord nær þvi eins ?

Iw.

Hver Mismunur er œ millum þess Nijunda og Tijunda Bodordsens ?

Mismunureñ er eige so sierdeiles iñefaleñ i þeim Hlutum sem Meñ gyrnast, so sem i þvi, hvernig Gyrnd-

Gyrnden edur Fysnen til þess er at sig komen.

Hvad margslags er þa sw illa Gyrnd?

Tveñslags: 1.) Erfdagyrnden, edur Upprunagyrnden, sem er sw spillta Nattura sialf, edur Tilhneiging til þess Vonda. 2.) Sw gioranlega Gyrnden, sem framkemur af Upprunagyrndenne eins og eiñ Avoxtur af siñe Root. Og verdur hun aññadhvert af Vilia Mañsens samþyckt og halden vid Magt, ellegar henne verdur mootstaded, og hun nidurkiæfd.

Jac. 1. 14. 15. Sierhver freistast nær hañ tilteigest af sine eigen Gyrnd og lockadur verdur,; Og sijdañ þa Gyrnden hefur geted, fæder hun Syndena, eñ nær Synden er fullkomnud, fæder hun Daudañ.

Hvar verdur fyrerboden sw gioranlega Gyrnd?

J Nijunda Bodordenu, hvert 5. Mos. B. 5. 21. wtleggst soleides: Þu skalt ecke gyrnast at, þad er: Laat þu þiñ Vilia ecke burt-dragast fra mier, þijnum Gude, af þeim vondu Gyrndum sem bwa i þier.

Hvar verdur Upprunagyrnden bønnud?

J Tijunda Bodordenu, sem wtleggst soleides: Þu skalt ecke gyrnast, þad er: Þar skal eingen vond Gyrnd vera i þijnu Hiarta, þu skalt einga Arf-Synd hafa.

Fiñst þa nockur Madur a Jørduñe, sem einga vonda Upprunagyrnd hefur?

Nei. 1. Joh. 1. 8. Ef vier seiginn, vier høfum einga Synd, þa villum vier sialfa oss, og Sañleikurenn er ei i oss.

Fordæmer þa Upprunagyrnden þan trwudu Guds

Born,

Børn, sem hafa Ángur af heñe ?

Nei, hiꝏ þeim hefur Synden tapad þeim sijnum Krapte sem fordæmer, med þvi þau eru i Christo, og standa eige framar naken, edur forsvarslaus fyrer Guds Rettlæte. Rom. 8. 1. So er nu eingen Fordæming i þeim sem i JEsu Christo eru, þeir sem eige gꝏnga epter Holdenu, heldur epter Andanum.

Hvad skedur, ef Madur lætur so Upprunagyrndena vid sig rꝏda, ad honum þiker vænt um̃ ad fylgia gioranlegum Gyrndum ?

Hvar sem sw gioranlega Gyrnden rædur fyrer, og hefur Yfirrꝏd, þar rædur Christi Nꝏd ecke fyrer, og er so sw Mañeskia under Bolvaniñe.

Rom. 8. 13. Ef þier lifed epter Holdenu, munnd þier deya, enn ef þier deyded fyrer Andann Holdsens Gyrnder, munud þier lifa.

Er þa vond Gyrnd Synd, þo hun sie ad eins i Aforme, og komest ecke leingra ?

Jꝏ, fyrer Gude tekst Vilieñ fyrer Verked. Matth. 5. 28. Hver hañ lijtr Konu til ad gyrnast heñar, ꝛc. Kañ þa Madur ad brjota ꝏ þeña Hꝏtt Bodord Guds øll med einberum Þaunkum og Gyrndum ?

Jꝏ, þvi Guds Logmꝏl er andlegt, og hver sem vill hinum Bodordunum hlijda, mꝏ ydugliga taka Vara ꝏ sijnu Hiarta, epter þvi sem þesse seinustu Bodorden ꝏskilia, þvi þau eru so sem Lykell ad øllu Logmꝏlenu, og keña ad skilia allt Logmꝏled.

Er þa øll Fysn og Gyrnd Synd ?

Saklaus Gyrnd er sw, sem Sꝏlen hefur til þess sm Lijkameñ þarf med, so sem: Lyst til ad eta, drecka, sofa, og hræra sig, og aňara soddañ Hluta; Sw Gyrnd var med Mañenum i Sakleysisens Stande,

og ad þvi leite er hun eige syndsamleg.

Eñ framkoma þar þo ecke margfaldar Synder af
soddañ nattnrlegum Epterlaungunum ?

Jw, ad vijsu, og veldur þvi sw iñrætta Nattur-
uñar Spilling, sem vill komast i alla Hlute, og gio-
ra Epterlaungunena þaa skickañlegu, Oskickañlega
Ohooflega og sauruga, ef vier eige noogsamlega
tokum Vara aa oss, og mootstrijdum heñe.

Hverier eru þeir syndsamlegu Hluter, sem Gyrnd-
en festest mest aa ?

Pad eru þeir Hluter: 1.) Sem eiga skyldt vid
Ohoof, Drambseme og Vellystingar.

1. Pet. 2. 11. Haldeð ydur fraa holdlegum Gyrnd-
um, hveriar i gegn Saaluñe strijda.

2.) Þeir Hluter sem Odrum vidvijkia, hveria
Gud hefur ei gefed mier, heldur mijnum Naaun-
ga, og maa eg þvi eige misuña honum þeirra, so
sem er, hañs Egta-Kviña, Pioon, Pioonustu-
Kviña, eda nockud af ollu þvi sm̃ honum heyrer til.

Get eg þa med eingu Moote gyrnst neitt aan Ofundar
og Orettar af þvi Gootze sem miñ Naaunge aa ?

Ad vijsu: Ofta maa eg epter Kaupmañs Voruñe
fyrer Betaling, so sem Abraham falade Akureñ,
1. Mos. 23. 4. Eñ ei maa eg gyrnast ad draga und-
er mig Gootz mijns Naaunga med Rettenda Yfir-
varpe, Svikum eda Okrijke, so sem Achab aagyrn-
test Nabots Vijngard, 1. Kong. B. 21. 2.

Hvad er nu Gott boded i Nijunda Bodordenu ?

Ad vier tokum Vara aa oss fyrer vondum Hiart-
añs Gyrndum, og strijdum i moote þeim.

Hvad Gott er skipad i Tijunda Bodordenu ?

 Ad

Ad vier skulum ecke eitt Siñ hafa hina minnstu Gyrnd vonda i Hiartanu.

Hvar til þienar þa þad Tijunda Bodord, sem wtheimter af oss Mœñunum eitt oldunges fullkomed Sakleyse, sñ oss er þo Omøgnlegt ad lata Gud hia oss fiña?

Þetta Bodord syner: 1.) Guds fullkomna Rettlæte, sem hefur Rett til ad heimta þad, og ætelia fyrer þad, sem Madureñ, i Syndena falleñ, kañ ecke af siinum Kroptum ad framkvæma.

2.) Syner þad, ad Gud er eige Ordsok til þess ad Madureñ fiell i Syndena; Þvi hefde hañ vered Ordsok til þess, þa hefde hañ aldreige kuñad ad baña þessa illu Gyrnd, sem þar af leiddest.

3.) Syner þad, ad aller Meñ, lijka þeir heilogustu, eru reyndar Syndarar, og fa ei, med þeirra eigeñ Rettlæte, stadest fyrer Gude; Þvi þo þeir, fyrer Guds Naad, feinge yfiruñed allar gioraãlegar Synder og Gyrnder, þa er þo þesse Erfda-Synd þeim Ordsok til ad audmykia sig fyrer Gude.

Hvad er styttsta Iñehald þessara Orda: Eg er Drotteñ Gud þiñ, sterkur, Vandlætare. ꝛc.?

Tvær Ordsaker, sem skulu knya oss til ad halda Guds Bodord, edur ad fordast þad Vonda, og giora þad Gooda.

Hver er fyrre Ordsøken?

Guds rettferdug Reide og Vandlæte, sem hootar ad straffa alla þverbrotna Yfirtrodslu-Meñ.

Hver er siidare Ordsøken?

Guds fodurleg Naad og Myskun, sem lofar ad giora gott þeim sem halda hañs Bodord.

Hvad er Yfirtrodsla edur Synd ?

Allt þad sem strijder ꝏ mopte Guds Bodordum, sem nijlega eru wtmaalud.

Hvad margslags er Synden, almeñelega ad segia ?

Tvennslags: Erfda Synden (edur Uppruna Synden) og gioraũleg Synd.

Hvad er þa Erfda Synden ?

Hun er Naatturunar Vanart, inngrooen Fordiorfun, og illar Tilhneigingar (sem hondlar uñ i Tijunda Bodorde.)

Þvi kallast hun Arf Synd, edur Erfda Synd ?

Af þvi hun er oss medfædd, so sem eiñ vondur Erfda Hlute epter vor'n Fodur Adam.

Rom. 5. 12. Synden er fyrer eiñ Mañ komen i Heimeñ.
Ps. 51. 7. Siaa þu, wt af syndsamlegu Sæde em eg geteñ, og i Synd gat mig mijn Mooder.

Hvad er sw gioraũlega Synden ?

Allar vondar Hugsaner, Ord og Giorder, sem framkoma, so sem illur Avoxtur af vondre Root Arf Syndarennar.

Er þad þa eins lijka Synd, ad lꝏta Ogiört og forsooma þad sem gott er, eins og ad giora þad sem illt er ?

Jaa, visśulega. Jac. 4. 17. Hañ sem kañ nockud gott ad giora, og giörer þad ecke, þeim er þad Synd.

Hvad margslags er sw gioraũlega Synden sier i Lage ?

Tveñslags, sem er, sw Synd sem kemur af Breiskleika, og sw Synd sem kemur af Illgyrne.

Hvad er Breiskleikañs Synd ?

Hun er, þꝏ eiñ sañchristeñ Madur, er af Hiarta hatar allar Synder, missier sig af Fꝏvitsku, Oad, giætne, Astrijdu, edur einhveriu soddañ; Eñ straf

sem hañ sijna Synd sier, fyrer Typtan (Aminiñgu) Andañs i Samvitskunne, angrast hañ af henne i Hiartanu, bidur Gud Fyrergefningar a henne, og keppest framveiges ad betra sig.

Gal. 6. 1. Ef Madur verdur a nockurn Hatt af nockrum Brest yfirfalliñ, þa leidriettid hañ med hoogværum Anda.

Jac. 3. 2. Aller vier briootum margfaldlega.

Hvad er Illgyrnes Synd ?

Þa Madur vijsvitande, viliande og med Gied-þocknan, giörer þad sem illt er, eñ lætur Ogiördt þad sem gott er, og heldur afram i þvi illa.

1.Joh.3.8. - 10. Hver Syndena giörer, sa er af Diöflenum, þvi ad Diöfulleñ syndgade af Upphafe; Þar til byrtest Guds Son, ad hañ nidurbriootc Diöfulsins Verk; Hver af Gude er fæddur, sa giörer ei Synd, þvi hañs Saad bliifur hia hönum, og hañ getur eige syndgast, þvi ad hañ er af Gude fæddur. Þar af eru auglioos Guds Börn, og Diöfulsins Börn: Hver hañ eige giörer Rettvijsena, sa er ecke af Gude, og hver ei elskar siñ Broodur. Sia. Joh. 8.34. 2.Pet.3.3. 4.Mos.15.30.

Rijdur nockud a þvi, ad þeckia þeña Mismun Breiskleikans Syndar, og Illgyrnes Syndareñar ?

Miked rijdur a þvi, þvi þad allra stærst Andvaraleyse kemur rett af þvi enu sama, ad Madur giörer eige soddañ Greinarmun; Þar af kañ og ad ordsakast naudsynialaus Angurseme.

Hvernig kañ Andvaraleysed ad ordsakast af þvi ?

Þad ordsakast so af þvi, ad sa sem lifir i Illgyrnes Syndum, huggar sig vid þad, ad aller Meñ sieu Syndarar, eda sier sie eige vandara eñ ödrum.

Er þad ecke satt, ad aller Meñ sien Syndarar ?

Vijst eru aller Syndarar, eñ þar a er stoor Mismunur

munur (sem madur er bwed ad syna.

Seig þu mier þañ Mismun eñ nu med ødrum Ordum, med þvi so miked rijdur a þessu ?

Þad skilur so miked sem Noott og Dag ; Þvi Guds Born hafa ad soñu Synd Breiskleikans, siña til Syndareñar, þioast af heñe, verda þvert i moote þeirra Vilia ysirfalleñ af heñe, og leggia daglega af meir og meir syndsamlegar Yfirsiooner og Breste, af hverium þau hafa sart Angur, so þau gaanga þo epter Andanum, kappkostande ad verda fullkomeñ i þvi sem gott er. Eñ Heimsens og Diofulsens Born giora Syndena, setia sig til ad syndga, gledia sig i heñe, og skemta sier vid hana. Ja, þau syndga uppa Naadena, og gaanga epter Holdenu, hvers vegna þau skulu deya.

Driiger eitt Guds Barn aldrei neina Illgyrnes Synd ?

Alldrei, þad getur ecke med nockru moote komest heim vid þad Naadareñar Stand, sem þad er i, og þa niju Fæding, so leinge sem þad er stadfast i þvi ; Eñ falle þad med Asetnings Synd fra þvi Stande, þa er þad ecke Guds Barn leingur.

1. Joh. 3. 9. Hver af Gude er fæddur, sa giører ei Synd, þvi hañs Sæd bliifur hiá hønum, og hann getur eige syndgast.

Þar nu Guds Born hafa Epterstødvar af syndsamlegum Yfirsioonum og Brestum, kuña þær þa ei fordæma þau ?

Alldeiles ecke. Hinar allra miñstu Synder þeirra væru ad sonnu Fordæmingar verdar, eñ þeirra Samfelag med Christo friiar þau þar fra.

Rom. 8. 1. So er nu eingen Fordæming i þeim sem i Christo JEsu eru, þeir sem eige gaunga epter

Holdenu, heldur epter Andanum.

Sakar þa Breiſkleikans Synd alls eckert chriſtenMan ?

Iu, hun deyfer Naadena, og hindrar þaa ſonarlegu Diorfung Andans, i þvi ſem Madur a ad hondla um vid Gud, og horfer miog til þeſs, ad Madurenn falle fraa Gude i Illgyrnes Synder.

Hvad giører þa ſu Illgyrnes Synd ad Verkum ?

Alla ſijna Eiſkendur fordæmer hun, og giører ſorglegan Adſkilnad millum Guds og þeirra ; Iaa, hun giører þa Satan lijka, bæde þeſſa Heims og annars.

1.Ioh.3.8. Hver Syndena giører, ſa er af Dioflenum.

1.Cor.6.9.10. Vited þier eige þad Raanglaater munu eige eignaſt Guds Rijke? Lated eige villa ydur: Hverke Frilluliifis Men nie Bloot Men Skurdgoda, eige Hoordooms Menn nie Sælgiætingar, eige heldur þeir ſem Skom drijgia med Karlmonnum, eige Þiofar nie Agyrndar Men, eige Ofdryckiu Men, eige Hneixlarar nie Ræningiar munu Guds Rijke erfa.

Er ein einaſta Synd, af þeſſum edur odrum Illgyrnes Syndum, noog til ad fordæma Mannenn ?

Iaa, þvi þo Madur drijge ei utan eina edur adra viſſa Synd, er han freiſtaſt af, eda fær Hentugleika til, þaa ſyner þo ſu eina Synd, ſem i honum drottnar, ad han er enn þaa eiumvendtur, og ad han i ſijns Hiartans Grunne ſie Guds Foragtare.

Iac. 2. 10. Þo ad einhver hielde allt Logmaalid, og brotlegur yrde i einu, þa er han þegar alls þeſs ſekur.

Er nockur Mismunur a Illgyrnes Syndunum ?

Iaa, hiaa ſumum drottna þær med Forherding og ſtooru Andvaraleyſe, ſo ſem hiaa Pharao ; En hiaa ſumum drottna þær an Forherdingar, og drijgiaſt med Samvitſkunnar Sturlan edur Mootmæle, ſo

ſem

sem hiꝛ David, i hans Breitne vid Uriam.

Hver er sw fremsta Trappa i Illgyrnes Syndum?

Þegar sa, sem i sinu Hiarta hefur verid anægianlega sanfærdr um Sanle kan, an Þvingunar og Tillockunar, moot þroaanlega og af Asetninge, neitar, hæder og ofsæker soddan Sanleika og Lærdoom um Guds Otta, og heldur fram i þeisu ydrunarlaust. Þetta kallast Synd a moote heilogum Anda, edur hans Embætte, og fyrergefst ecke, Matth. 12. 31. Ebr. 6. 4. 5. 6.

Er þa Myskun Guds og Forþienusta Christi eige nooga kraptug til ad fyrergefa, slijka þessa Synd?

Hier skorter eige a Guds og Christi Sidu, þvi hans Naad og Forþienusta er i sialfre sier anægianleg, og yfirgnæfer allar Synder; Heldur er Manenum um þetta ad kena, sem heldur fram til Æfiloka i hatursfullre Spottan og Offsookn þess Sanleika, er hon hefur adur þeckt.

Kan Madur og so ad giora sig Hluttakara i anarlegum Syndum, og so einig slijka i þeirra Straffe?

Ia, og skedur þad, þegar Mane þiker vænt um þær, gefur Samþycke, Raad, Befalning, edur Tækefære til þeirra, og hindrar þær ecke, edur straffar, ef hann getur. 3. Mos. 19. 17. Straffa þin Naunga, so þu be rer eige Skuld hans vegna. Sia 1. Tim. 5. 22. Opinb. 18. 4.

Hveriar eru þær almenneligustu stoor-Synder i moote Guds Logmale?

Þad eru: Vantrw, Hræsne, Ærugyrnd, Agyrnd, Vellyst, Reide og Ohoftenmæde.

Hverigr eru þær heldstu og stærstu Dygder epter

Guds Lagmaale ?

Þessar: Trw, Kiærleike, Froomleike, Audmyke, Anægianlegleike (Hooffeme) Bindinde, Hoogværd og Poleñmæde, og uñfrañ allt, gudrækelegt og himneskt Simeslag.

Hverin hvortar Gud Þeim sem eige hlyda hañs Bodordum?

Ad hann vill vitia Þeirra Vondsku med Straffe.

Skedur Þad alleina i Þessum Heime ?

Nei, stundum fær sa Ogudlege ad señu Enda med Skelfing, eñ oft luckast honum so vel Illyndeñ, ad hañ er kalladur sæll; Þo kemur frañ uñsider hañs Straff i Helvijte og Kvolunum. Luc 16.23.

Kemur Þad tijmañlega Straff alleinasta yfer sialf añ hañ Ogudlega ?

Nei, Gud straffar og so Illsku Foreldranna a Bornunum, allt i Þridiu og Fioordu Ættkvijsl.

Er Þad rett ad straffa Soneñ fyrer Synder Fodursins ?

Jaa, Þegar hañ gengur i Footspor og Epterdæmum sijns Fodurs, frañ i somu Syndum, Þvi añars ræfest Þad sem stendur: Ezech 18. 19. 20. Soñureñ skal ecke bera Fodursins Misgiørning, fyrer Þad hañ giørde vel og rettvijslega, og hañ hieldt og giørde øll mijn Rettinde, Þa skal hañ lifa.

Hversu margfaldt er almeñelega Guds Straff ?

Þrefaldt. 1.) Lijkamlegt, so sem: Strijd, Hallære, Drepsoott, edur oñur Ohamingia, bæde a Lande og Lijdum.

2 ) Andlegt, so sem: Guds Reide, og Þad, ad hañ burttekur siñ Anda, og svipter siñe Naad, yfirgefur i fraleitt Siñe og Forherdingar Doom.

3.) Er Þad Eilijfa, semer: Fordæming til Helvijtis

viijtis. Somuleides eru eiñig þrefold Laun fyrer
þad Gooda: Lijkamleg, Andleg og Eilijf.

Hveriu Goodu heiter Gud þar i moot þeim sem
halda hañs Bodord ?

Ad hañ vill giøra Myskunseme vid þa i Þusund
Lidu.

Hvad skilst hier fyrer Myskunseme ?

Allt gott til Lijfs og Sálar, uñ Tijma og Eilijfd.
1 Tim.4.8. Gudræknen er til allra Hluta nytsøm, hafande
þessa Lijfs Fyrerheit, og so hins epterkomanda.

Hveriuin lofar Gud siñe Myskun ?

Þeim sem hañ elska og halda hanns Bodord.

Elska þa eingeñ Gud, nema sa sem heldur hañs Bodord?

Nei. Joh. 14.21. Hver hañ hefur mijn Bodord og
heldur þau, hañ er sa sem mig elskar.

Hvad er þad, ad Madur heldur Guds Bodord ?

Þad er, ad eiñ endurfæddur og til Nádar tekeñ
christenn Madur, hefur Guds Vilia alltijd fyrer
Augum sier, og lagar sijnar Hugsaner, Ord og
Giørder þar epter, af einlægu Hiarta, med stadfostum
Asetninge, ad láta sier i þvi framfara.
Joh.14.23. Hver hañ elskar mig, sa heldur mijn Ord.
1.Joh.2.3.4.5. Þar af vitum vier, þad vier þeckium hañ,
ef vier vardveitum hañs Bodord. Hver ed seiger: Eg
þecke hañ, og heldur ecke hañs Bodord, sa er Lijgare, og i
þvilijkum er eingeñ Sañleikur. Eñ hver hañs Ord vardveiter,
i þeim er sañarlega Guds Kiærleike fullkomeñ.
Matth. 28. 20. Kenned þeim ad halda allt hvad eg
baud ydur, og siaed: Eg em med ydur alla Daga, allt
til Enda Veráldar.

Getur Madur þa halded Guds Løgmál edur Bodord ?

Ja, med þvi Madur elske Gud rettelega, þa bæde

maa hañ, og lijka kañ hañ ad halda Guds Bodord, med einlægu Gede epter Evangelii Anda, fyrer Krapt Christi, þo þad kuñe ecke ad skie, epter þvi sem Løgmaaled i straangasta Maata wtkrefur, og kañ Madureñ þess vegna eckert Gott fyrer slijkt ad forþiena, heldur bevijsar hañ þar med sijna Trw og Kiærleikañ. Joh. 14. 23. 1. Joh. 5.3.

Kuñum vier þa ad forþiena Saaluhiaalpena med þvi ad halda Løgmaaled ?

Nei. 1.) Þvi vor Hlijdne er ein Skylda edur skyldug Þioonusta.

Luc. 17. 10. Nær þier hafed allt þad giørdt, hvad ydr var boded, þa seged: Onijter Þioonar erum vier, þvi hvad vier attum med Skyldu ad giøra, þad giørdum vier.

2.) Verdur Løgmaaled ecke halded af Krapte vorrar Naatturu, heldur af Guds Naadar Krapte, og er þad eige vor Forþienusta sem Gud verkar i oss.

Phil. 2. 13. Gud er hañ sem i ydur verkar bæde Viliañ og Giørningeñ, epter siñe Þocknan.

3.) Verdur Løgmaaled aldrei halded so fullkomlega, ad Hlijdne Andañs, þo hañ sie vijst reidubwenn, sie eige blondud med Breiskleika Holdsens, samt aalijtur Gud, og launar i Naad siñe, fyrer Christi Skuld, vora Hlijdne, þo hun sie Ofullkomen.

Ps. 130.3. Ef ad þu DRotteñ villt tilreikna Syndernar, DRotteñ, hver maa þad standast.

Getur Madur ecke eins og Postuleñ komest so laungt (i Hlijdne Løgmaalsins) ad hañ sie sier sialfum eige medvitande nockra Synda, sem hañ hafe af Asetninge drijgt, epter þad hañ hefur giørdt Idran ?

Jw, þvi Postuleñ var lijka ein breisk Mañeskia;

Enn

Enn þaa Madur er nu so laangt komenn (i þvi Gooda sem hañ var) er Madur þo ecke þar fyrer rettlaatur fyrer Gude.

Þvi ecke ?

Vegna þess, ad Løgmaaled er andlegt, eñ Gud, sem oss dæmer, sier epter Hugreñingum og Gyrndum, meir eñ aller Menn, grandgiæfilega; Jaa, framar eñ vier siaalfer kunnum ad skygnast i vorn syndumspillta Hiartans Gruñ, og þess vegna er sw wtvortis Sidseme og Rettlæte (sem kann ad finnast jafnvel hiaa Heidingium) ecke Uppfylling Løgmaalsins.

Er þa eingrar Fullkomnunar ad vænta i þessu Lijfe ?

Eingenn er so fullkomeñ, ad Synden wtrymest øldungis fraa honum, edur øldungis þriote þad Striid Holdsens og Andañs, og eckert aafaatt siñest framar. Þo kallast, og er, einn christenn Madur fullkomeñ, i Tillite til:

1.) Hañs Rettlætingar fyrer Christum, hver ed fullkomlega hefur i burttekeð alla hañs Synd, og fullkomlega iklædt hann øllu sijnu eigeñ Rettlæte.

2.) J Tillite til hañs Helgunar; Eñ þaa merker ecke þetta Ord (fullkomeñ) syndlausañ Fullkomleleika epter Løgmaalenu, heldur alls Hiartalagsens einlæga Trwfeste og Raadvendne.

3.) J Tillite til añara breiskare og Ofullkomnare, epter þeirra Aldurs Maata i Christo. Phil.3.12.15. Col.1.28. Matth.5.48. 2.Cor 7.1.

Þegar vier nu leggium Astundan aa ad halda Guds Bodord, hvad giorum vier þa ?

Vier

Vier giorum Goodverken.

Hver eru þau rettu Goodverk ?

Eige alleinasta utvortis Gudræknes Athafner, Rettlætes og Kiærleikans Verk, heldur og so innvortis, þær heilogu og goodu Hræringar, sem Guds Ande verkar hia endurfæddum Guds Bornum, epter Reglum Logmaalsens, ecke þo af þvi, ad Logmaaled þvijnge þau til þess, heldur kemur þad af þvi, ad Trwen og Naad Guds, 'sem þau þiggia, heldur þeim sialfviliuglega til þessa, ad verda meige til Dijrdar Gude, enn Gagns Naunganum.

Gal. 5. 22. Avøxtur Andans er Kiærleike, Fognudur, Fridur, Polenmæde, Blijdleike, Goodgyrne, Trw, Hoogværd, Hreinlijfe.

Eru þa Bæner, Olmusur, og soddann Athafner Heidingianna og þeirra Oendurfæddu Christnu, hijka einnig Goodverk ?

Ecke eru þau fyrer Gude sannarlega good, þvi hvad sem eige framkemur af Trwnne, þad er og so Synd.

Er þad aldungis naudsynlegt ad giora sannarleg Goodverk ?

Jaa, þad er ad visu naudsynlegt fyrer alla þaa sim vilia verda saaluhoolpner; Þvi þad er eitt af þvi, til hvers JEsus hefur oss endurleyst, þad framkemur af Trwarennar Natturu, og þar med audsyneft sw nija Hlijdne.

Ebr. 12. 14. Eptersylged Fridnum vid hvern Mann, og Helguninne, ann hverrar þad eingenn kann Drotten ad sia.

Enn eru þa Goodverken naudsynleg so sem ein verkande Orsok til ad giora oss rettlaata og saaluhoolpna ?

Nei, þar til duga vor betstu Verk aldeiles eckert,

sem

sem fyrr er saagdt.

Phil.3.6.7. (Eg var) epter Vandlætingunne Offsookn-are Safnadarens, verande (siaalfur) epter Rettlætenu i Lögmaalenu Ostraffanlegur. En hvad minn Avinn-ingur var, þad hefi eg Christi vegna fyrer Skada reiknad.

Fyrer hvad verdur Madur þa rettlaatur og saaluhoolpen ?

Alleinasta fyrer Trwna, sem tekur ad sier Guds Naad i Christo.

Rom. 3. 28. So hølldum vier nu þad Madurenn verde rettlaatur aan Løgmaalsins Verka, fyrer Trwna alleina.

Er þa Trwen so mikels verd i vorum Christenndoome ?

Ja, hun er þad allra dijrmætasta, þvi aan hennar er Omøgulegt Gude ad þocknast. Ebr.11.6.

Hvar finn eg þa i mijnum Catechismo frekare Uppfræding umm Trwna ?

J þeim ødrum Partenum, sem høndlar umm vorrar christelegrar Trwar Høfudgreiner.

## Sa Annar Parturenn.

Verdur Madur saaluhoolpenn fyrer þad, þo hann kunne Trwargreinernar ?

Nei, þvi Dioffullenn þecker þær lijka. Jac.2.19.

Hver Mismunur er millum Trwar Høfudgreinanna og siaalfrar Trwarennar ?

Trwarennar Høfudgreiner eru wtvortis fyrer Mannenum sa Sannleike, sem hann skal trwa og medtaka fyrer Sannindе. En Trwen siaalf er innvortis i Mannenum þad Traust og Tileinkan, med hveriu hann tekur ad sier øll þau Sannindе, sem inne eru falen i Trwarennar Høfudgreinum.

Hvar

Hvar um̃ hondla Trwareñar Hofudgreiner ?
Um̃ Guds Veru, Vilia og Verk.
Er þa eiñ Gud til ?

Jaa, vissulega.

Hvad gefur þier Vissu um̃ þad, hvert Gud er til, med því þu sier hañ ecke ?

Vijst kañ eg ad siaa hañ; Þo þad sie eige med lijkamlegum Augum, þaa sie eg hañ samt i Huga mijnum, i minne eigen Samvitsku, aa Skopunarverke allrar Veraldar, og i Liooſe heilagrar Ritningar.

Hveruig fræda þesser Hluter þig þar-um̃, ad þar sie eiñ Gud til ?

1.) Samvitskan, sem er Doomstooll Guds i Hiartanu, keñer mier þad med heimuglegum Otta, þaa eg giøre þad sem illt er, eñ med nockurskonar Ynde og Hugfroo, þaa eg giøre þad sem gott er.

Rom.2.15. Þeir (Heidnu) bevijsa, þad Løgmalsens Verk sien skrifud i þeirra Hiørtum, med því þeirra Samvitska siaalf ber þeim Vitne, og þar med þeir Þeancar sem sijn aa mille munu aaklaga sig, edur afsaka innbyrdes.

2.) Skøpunarverk alls Heimsens og hañs Vidhald, vitnar um̃ þad sama daglega fyrer migr.

Rom.1.19.20. Meñ vita ad Gud er til, þad er þeim opeñbert, því ad Gud hefur þeim þad opeñberad: Med því ad Guds Osyneleger Hluter siaaſt, þad er hañs eilijfur Kraptur og Guddoomur, þegar Meñ giæta þar ad aa Verkunum, sem ad er, aa Veraldareñar Skøpun, so ad þeir hafa einga Afsøkun.

3.) Sw H. Ritning talar liooslegar hier um̃, og heilagur Ande innsiglar þañ Sannleik, fyrer Orded, i Hiortum þeirra Trwudu.

Joh. 1. 19. Eingeñ hefur nockurn Tijma Gud sienañ, sa eingetne Sonureñ, sem er i Födursins Skaute, hañ hefur oss þetta kuñgiört.

Er þa sw naatturlega Þecking, sem eiñ Heidinge kañ ad hafa uñ Gud af Skynseme siñe, Samvitskuñe, og Sköpunarverke Heimsins, ecke noog til Saaluhiaalpar ?

Nei, þvi hun veit alls eckert af Christo og Guds Raad i honum, þvi Hold og Blood birter þad eige, Matth. 16. 17. Þo kañ hun ad syna Veg til ad leita framar epter ad þeckia Gud; Og þad giörer hun, ad þeir sem henne vilia eige sæta, hafa einga Afsökun a Doomsens Dege.

Hvad er Gud ?

Hañ er ein andleg, Oendañleg og Oransakañleg (Omælañleg) Vera, sem er almaattug, alvijs, allstadar naalæg, good, heilög, myskunsöm, sañleiks-full og rettlaat.

Hefur þa Gud hverke Lijkama nie Mind, med þvi hañ er andleg Vera ?

Nei, þvi (eiñ) Ande hefur hverke Hold nie Bein. Luc. 24. 39.

Þvi talar Ritningen þa uñ Guds Augu, hañs Hendur, ellegar adra Limu ?

J þvi hagar hier Ande Guds epter mañlegum Skilninge, og meinar fyrer þessa Limu, Verkaner og Eigeñlegleika Guds: So sem fyrer Augun hañs Vijsdoom, fyrer Hendurnar hañs Krapt. etc.

A hvad miñer mig Guds andlega Vera ?

A þad, ad Gud, sem er eiñ Ande, hañ a i Anda og Sañleika ad tilbidiast. Joh. 4. 24.

Hvad skilur þu fyrer þa Guds Eigeñlegleika, sem hier voru fyrer frámañ upptalder ?

Hañs Almætte er, ad hañ getur alla Hlute giort; Alvitska, ad hañ sier og þecker alla Hlute; Allstadar Nælægd, ad hañ er hverge iñeluktur nie wtebirgdur, heldur allstadar nælægur; Giædska, ad eckert er illt i honum, og ad hañ vill ofs hid betsta; Myskunseme, ad hañ aumkast yfer Eymd vora; Heilagleike, ad øll Synd er lꝏngt fra honum; Sañleike, ad hañ kañ hverke ad liwga nie svijkia; Og Rettlæte, ad hañ vill straffa þad Vonda, eñ umbuna þad Gooda.

Hvad getur Madur teked sier til Amiñingar, af Yfirvegan Guds Eigeñlegleika ?

Madur a ad blygdast fyrer hanns Allstadar Nælægd og Alvitsku; Epterfilgia hañs Heilagleika; Lꝏta sier gꝏnga til Hiarta hañs Giædsku og Myskunseme; Treysta uppꝏ hanns Almætte og Sañleika; Og lꝏta hanns Rettlætes Ihugun halda sier fra øllu Vondu.

Hvada Huggun getur Madur teked sier, af Yfirvegan Guds Eigeñlegleika ?

Þar af høfum vier stoora Huggun, ad Gud, epter siñe Allstadar Nælægd og Alvitsku, sier vora Naud; Getur hialpad ofs, af þvi hañ er almattugur; Og vill þad giora, þvi hañ er myskunsamur og goodur; Og med þvi hañ er sañordur og rettlꝏtur, er þad vijst ad hann giorer þad, þegar vier i Trwñe hiartannlega leitum til hañs.

Hversu marger Guder eru til ?

Ecke utañ einaste eiñ Gud. 5. Mos. B. 6. 4. Heyr þu Israel, Drotteñ Gud vor er eiñ einungis DRotteñ.

Hvernig hefur sw guddoomlega Vera opẽberad sig i Ritningareñar Ordum ?

So sem ein einasta Vera, Fader, Sonur og heilagur Ande, hverier þo aller eru Eitt, og kallast sw heilaga Þreñing (Þrij-Eining.)

1.Joh.5.6. Þrijr eru sem Vitnesburdeñ gefa a Himne, Faderen, Orded og heilagur Ande, og þeir þrijr eru Eitt. Matth.3.16.17. Cap.28.19. 2.Cor.13.13.

Kuñum vier med vorre Skynseme ad skilia ad Gud sie Eiñ, og þo eiñig Þreñur ?

Nei, þvi þo þad sie eige i moote vorre Skinseme, gengur þad þo lãangt yfir hana; Þar fyrer er þad ein Hofudgrein Trwareñar, enn ecke Skinsemeñar, og Gud være eige Gud, ef vor Skinseme giæte skiled ad ollu, hvernig hañ være.

Eru þa þau Ord: Gud Fader, Sonur, og heilagur Ande, einasta Þriw adgreind Nofn, edur Eigeñlegleikar i Gude, og ecke neitt añad ?

Ad vijsu er þad meir, eñ einber Adgreining Nafnaña edur Eigeñlegleikaña, þvi sierhver re Persoñuñe leggst nockud þad til sierdeileslega, sem eige kemur odrum vid.

Hvar i er þesse Adgreining innefalenn ?

Ecke i Veruñe, sem ꜳdur er sagt, heldur i vissum Persoñulegum iñvortes Verkum, sem koma hverre eiñe Persoñu vid wt af fyrer sig; sem er: Faderen, sem er af eingum, getur Soneñ fra Eilijfd; Sonureñ verdur geteñ af Fodurnum: Og heilagur Ande framgengur af þeim bꜳdum. Allt þetta eru diwpsetter Trwareñar Leyndardoomar, sem vor Skinseme eige fær rañsakad.

Sjá Ps. 2. 7. Joh. 15. 26. Rom. 8. 9.

Er Faderen̄ elldre edur ypparlegre en̄ Sonuren̄, og Sonuren̄ elldre edur ypparlegre, en̄ heilagur Ande?

Nei, þeir þrijr eru eitt, og þess vegna er eingen̄ þeirra i Veru og Tign, ædre nie Oædre, helldur en̄ an̄ar, helldur eru þeir fullkomlega jafner.

Hvad fyrer Verk eru þad ön̄ur sem tileinkast sierdeilesslega hverium fyrer sig?

Fodurnum tileinkast Sköpunen, Synenum Endurlausnen, og heilogum Anda Helgunen: Þo eru þeir aller samverkande þar i, og eingen̄ af þeim er uteluktur i þm̄ Verkum sem vidviskia Heimenum.

Hvar er talad i Frædunum um̄ Sköpunena?

J Fyrstu Greinenne.

## Ut af Fyrstu Grein Trwarjatningareñar.

Hvad er ad skapa?

Þad er ad giora eitthvad af eingu edur Ohendtugu Efne. Ebr. 11. 3. Fyrer Trwna underſtondum vier Heimen̄ giordan̄ vera ſyrer Guds Ord, og allt þad hvad ſynelegt er, er orded af eingu.

Hvad hefur Gud skapad?

Himen og Jord og allt þad sem þar er in̄e, so sem Sool, Tungl, Stiörnr, Planetur, Hofudskepnur, Diur, Fugla, Fiska, Orma, og Otal Fiolda af odrum Hlutum, sem þiena til Guds Dijrdar, en̄ oss til Nytsemdar, þoott vier ei þeckium þad allt. 1 Mos. 1:

Var Gud marga Daga ad skapa Heimenn?

J Sex Daga, og a þeim siötta skoop han̄ Man̄en̄.

Helldur Gud þeim Hlutum en̄ nu vid Magt, sem han̄ skoop i Ondverdu?

Ja,

Jaa, vissulega. Ebr. 1. 3. Hañ ber alla Hlute med siinu kroptuga Orde. Ps. 104. 27. 30.

Til hvers eiga þesse Sañende ad upporfa þig ?

Til þess ad dijrdka Gud i ollum Hlutum, og foornfæra sialfañ mig honum, med ollum Hlutum, sem af honum eru, og fyrer hann vidhalldast og standast. 1. Cor. 10. 31.

Er þad þa Gud alleina sem vidhelldur ollum Mønnum og forsorgar þa ?

Jaa, sierdeiles medtakaMeñerner afGuds Hende oll siin UppheldesMedøl, hvert sem þad er Matur edur Dryckur, Klæde edur Skiæde. 2c.

Eñ geta ecke þeir Riiku sialfer veitt sier Upphelde og forsorgad sig ?

Nei, ecke eitt Augnablik, þvi þeir hafa eckert utañ af Hende Guds, sem gefur og tekur burt þaa hañ vill; Under hañs Vilja og Blessan er þad allt saman komed. 1. Cor. 3. 7. So er nu hverke sa nockud sem plantar, nie hinn sem vøkvar, helldur Gud sa sem Frioofgunena gefur.

Vidheldur Gud lijka Ogudlegum Mønnum ?

Jaa, þvi hann lætur siina Sool upprenna yfer Vonda og Gooda, og lætur rigna yfer Rettlaata og Rangláta. Matth. 5. 45.

Fyrer hverium ber Gud helldst Umhyggiu ?

Fyrer siinum trwudum Børnum.

1. Pet. 3. 12. Augu Drotteñs lijta til þeirra Rettlaatu.

Styrer þa og vidheldur Guds Forsioon ollum Hlutum odrum i heilum Heimenum ?

Jaa. Post. G. B. 17. 28. Þvi ad vier lifum, hrærumst og erum i honum.

Stioornar Forsioon Guds Mokunum lijka i þeirra Syndum ?

Guds Forsioon stioornar eingum til ad syndga, þvi þad giorer þeirra eigeñ vondur Vilie, þvert a moote Guds Vilia; Eñ Gud umlijdur ad þeir syndge, hañ setur þeirra Syndum Takmark, og stioornar so, med sijnum Vijsdoome, Afdrifum Maalefnaña, ad aller Hluter verda ad þiena þeim til Goþda, sem hañ elska. Rom. 8. 28. Og þetta siaaum vier a Dæme Josephs.

Eru Guds Skepnur eda skapader Hluter margslags ?

Yfir Hofud tveñslags, synelegar og Osynelegar.

Hveriar eru þær vegleguſtu Osynelegu Skepnur ?

Englarner, og merker þetta Nafn Sendeboda, og þar fyrer verdur þad lijka tillagdt Christo, þeim Oskapada Engle, sem sendur er af sijnum Fodur, og opeñberadeſt opt i Gamla Testamentenu. Sia 1. Mos. 22. 11. 2. Mos 3. 2.

Hvad margslags eru Englarner ?

Tveñslags, gooder Englar, sem eigennlega eiga þetta Nafn; Og vonder Englar, sem annars eru kallader Dioflar.

Hvad eru þeir goodu Englar ?

Þeir eru heilager, vijser, flooter og obluger Andar, sem ætijd lofa Gud, og giora þad hañ þeim befalar, og þioona sierdeilis þeim trwudu. Ebr. 1, 14.

Hvad eru þeir vondu Englar edur Dioflarner ?

Þeir voru i Ondverdu af sama Tage sem þeir goodu, eñ eru fyrir Dramb og Ohlijdne fra Gude fallner, og eru ordner bæde Guds og Maña org-

ustu Oviner, hverra Hybijle ad er Helviite.
2.Pet.2.4. Gud hefur eige Þirmt Englunum, þeim sem syndguduft, heldur hefur steypt þeim med Hleckium Myrkranna til Helviitis, og ofurgefed þa, þad þeir til Doomsins vardveittust.

Hveriar eru þær heldstu Skepnur, medal þeirra synelegu Skepnaña ?

Mennerner.

Hvad er Madureñ ?

Ein miøg vegleg Guds Skepna, og eiñ Herra yfir ollum odrum Dijrum.

Eru marger veruleger Partar eiñar Mañeskiu ?

Tveir, sem er: Saal og Liikame.

Hvad er Saal Mañsens ?

Hun er eiñ Osynelegur og Odaudlegur Ande, sem er adskiliañlegum Kroptum giæddur, sierdeilis med Mann = Vitenu til ad skilia, og Viljanum ad wtvelia, edur hafna.

Hvad er Liikame eiñar Mañeskiu ?

Saalarennar Hws og Hybijle, samsettur med adskiliañlegum Limum, wtbwenn med sijnum Skilningarvitum, sem eru: Heyrnen, Sioonen, Smeckurenn, Ilmanen, og Tilfiñingen

Hvert er veglegra, Saalen edur Liikameñ ?

Saalen er miklu veglegre eñ Liikameñ, þvi hun er eiñ Odaudlegur Ande, og kañ ad hafa Samkvæme med Gude; Hun stioornar Liikamanum, og hvert sem hun fer, þangad fer Liikameñ uñ sijder, hvert sem er til Himnarijkis edur Helviitis.

Hversu marga Meñ skapade Gud i Ondverdu ?

Eiñ Karlmañ af Jardar Leire, er nefndest Adam,

og eina Kvinnu af Adams Rif-Beine, þaa hann svaf, sem kalladest Eva. 1. Mos. 2. 7. 22.

Stoodst þa eins a fyrer þeim fyrstu Mønum, þa þeir voru fyrst skapader, sem nu fyrer oss Nidinm þeirra?

Nei, þeirra Stand var laangtum farsælla.

Er þa Mañsins Stand margfaldt?

Ferfaldt, sem er: 1.) Sakleysesins Stand. 2.) Syndareñar Stand. 3.) Naadareñar Stand 4.) Dijrdarennar Stand, fyrer þaa sem saalu-hoolpner verda, eñ Fordæmingareñnar Stand, fyrer þaa sem fortapast.

Hvad var Sakleysisens Stand?

Þaa Madureñ var i hiñe ædstu Farsæld, aan Synda og Mootlætis, skapadur rett epter Guds Mind.

1. Mos. B. 1. 27. Gud skapade Manneñ epter sinne Mind, epter Guds Mind skapade hañ hann, og hann skapade þau Karlmañ og Kvinnu.

Hvad var þesse Guds Mind i Mañenum?

Yfir-Hofud: Ein Lijking og Siñislagsens Samhlioodan vid Gud sialfañ: Eñ sier i Lage var hun Lioos guddooml:grar Vitsku i Skilningenum, sem þeckte Gud rettelega, og allt þad, sem hañ hafde skapad: Ein oblug Elska i Viliannm, sem hieldt sier fast vid Gud: Epterlaanganernar og Siñesins Tilhneigingar voru i heilogu Lage: Lijkameñ med sijnum Limum brwkadest þaa og rettelega: Og þar fyrer var lijka i Samvitskuñe, eitt Fridar og Fagnadar-fullt Himnarijke.

Var Madureñ þessa Guds Mind ei sierdeiles i Salluñe?

Ad vijsu; Þo hafde Lijkameñ þar af og so stoor Giæde, sem var: Fullkomen Heilbrygde, Odaud-leike

leike og Yfirdrottnan yfir ollum Skepnum; Hañs Heimile var hin veglega Paradijs, sæ lystelege og ávaxtarsame Alldengardur.

Er nu eingeñ Madur framar i þessu Sakleysis Stande ?

Nei, þvi midur! Þad keñer Reynslan, ad Adam, og med honum oll hañs Born, eru falieñ wr Sakleysesins Stande i Syndareñar Stand.

Spek. B. 2. 23. 24. Gud skapade Mañeñ til eilijfs Lijfs, og giørde hañ ad einu Bijlæte, ad hañ skylde vera lijkur þvi sem hañ er. Eñ fyrer Diøfulsins Øfund, er Daudenn komeñ i Heimeñ.

Hvernig skede Fall vorra fyrstu Foreldra ?

Þau letu Slægd Diøfulsins tæla sig til ad eta af Skilnings Tresins Avexte, hvert ed var þad einasta, sem Gud hafde þeim streingelega bañad.

Var þa su Synd so hræskalega stoor ?

Jæa vissulega; Þvi hun var innefalieñ eige alleinasta i þeirre wtvortis Nautn af Eplenu, helldr sierdeilis i þvi, ad þeirra Hiørtu mootvilluglega viku fræ Gude til sialfra þeirra, Heimsens, og Guds Ovinar Diøfulsins; Og þad þæ þau voru so ær sig komenn, ad Guds Mind gaf þeim fullkomenn Krapt ad standa æ moote ollu Illu.

Hvad hlautst þa af þessu Syndafalle ?

Allt Illt: Guds Mind tapadest, eñ Diøfulsins herfilegasta Lijking og Yfferræd komu i Stadenn, med Fordiorfun bæde Sæalar og Lijkama; Þad er i stuttu Mæale: Daudeñ sæ andlege, lijkamlege, og eilijfe. 1. Mos. B. 2. 17. A hverium Dege sem þu etur af þvi, þa skalltu Dauda deya.

Hverju hefur þa Synden fierdeiles wtleiked

Mañsins Saulu ?

1.) Hun hefur blindad Skilningeñ, sem er ordenn ad hælfu leite blindur, i þeim Hlutum sem Mañenum vidviјkia, og sioonlaus i þvi sem Gude vidviјkur: Jæ, ᴄaſwɔs til allrar Villu og rangra Dooma, uñ þad sem Gude tilheyrer.

2.) Hun hefur svipt Viliañ sinum Heilagleik, og giordt hañ hatursfullañ vid Gud.

3.) Hun hefur fordiarfad Tilhneigingarnar og Siñesins Hræringar, og þar mz eiñig Frid Samvitskuñar Rom. 8. 7. Holdlega ad vera siñadur, er Fiandskapur i gegn Gude. Eph. 4. 18. 1. Cor. 2. 14.

Hvernig hefur Synden sier i Lage wtleiked Mañsens Lijkama ?

Hun hefur giordt hañ synduga ñ, naudlijdande, forgeingelegañ, daudlegañ, og Oteliande Meinsemdum underorpeñ.

Hefur sá fallne Madur þa i siinu natturlegu Stande eckert Sialfrædi til þess Gooda ?

Ecke til þess andlega Gooda, þvi þad er honum oldunges ómoote; Eñ Siælfræde hefur hañ til goodra Hluta, þeirra sem Natturuñe vidviјkia, og wtvortes goodra Ydkana, so sem ad lesa og syngia, og ferdast til Kyrkiu.

Er þa Guds Mind soleides burtnumen og tapud vegna Syndareñar ?

Jæ.

Fæinn vier hana aldrei meir ?

Jw, Guds Morn, er endurfædast og endurnijast til þessarar Mindar, sæ hana aptur, þo hun sie eige fullkomen hier i Heime, eñ a Himnum munu

Þau hana oldunges fullkomna að sier bera.

Hvert eru aller Meñ ordner Hluttakendur i þessu fyrsta Syndafalle ?

Jaa, vissulega. Rom. 5. 12. Synden er fyrer eiñ Mañ komen i Heimeñ, og Daudeñ fyrer Syndena, og so hefur Daudeñ til allra Mañа sier iñþreyngt, af þvi ad aller hafa syndgad.

Af hverium er nu Synden og allt þad Illa iñkomed i Heimeñ ?

Af Dioflenum, og af þvi Madureñ misbrwkade sinn Frijvilia.

Er Gud þa ecke Ordsök til Syndareñar ?

Nei; Ad hugsa þad edur tala, være Lijge-full Gudlöstun. Sir. 15. 12. Þu þarft ecke ad segia: Hafe eg raungt keñt, so hefur hañ sviked mig, þvi hañ þarf einkis Ogudrækeñs vid.

Gat Gud þa ecke hindrad Syndafalled ?

Ecke nema hañ hefde svipt Meñnena þeirra Frijvilia, og að moote sijnum alvijsa Asetninge uñ breitt þeim soleides i adrar Skepnur, hveriar ecke gaatu synt nockurt Hlijdnes Merke.

Hvad hafa Meñerner forþienad med Synd sijns Frijvilia?

Guds Reide og Oblijdu, tijmannlegañ Dauda, og eilijfa Fordæming.

Eiga þa aller, sem aifram halda i þeirra Synda Stande, og natturlegre Spilling, ad lijda soddañ Straff eilijflega ?

Jaa. Joh. 3. 3. Nema so sie, ad nockur verde að niju fæddur, hañ kañ eige ad sia Guds Rijke.

Vill Gud þa lata Meñena tortijnast so eilijflega ?

Nei, hañ hefur af siñe myskunarrijku Elsku aalyktad ad taka þa aptur til Naadar, og koma þeim wr

Syndareñar Stande, i Stand Naadarennar.

Joh. 3. 16. So elskade Gud Heimeñ, ad hañ gaf wt siñ eingeteñ Son til þess, ad aller þeir sem a hañ trwa fyrerfarest eige, heldur ad þeir hafe eilijft Lijf.

1. Tim. 2. 4. Gud vill ad aller Meñ verde sælu-hoolpner, og til Vidurkeñingar Sañleiksens komest.

Hvad er Naadareñar Stand ?

Ein sæluhiælpleg Sameining og Forlijkun vid Gud, siñ fyrer Christi Saker, endurfæder med sijnum Anda þaa syndugu Sælu, fyrergefur heñe heñar Synder, iklæder hana Christi Rettlæte, frijar hana fraa Syndareñar og Satans Snorum, og daglega endurnijar hana til Lijkingar siñar Mindar aptur. Eph. 2. 4. 5. 6. Gud sa audugur er af Myskun, fyrer sijna miklu Elsku, med hverre hañ elskade oss, þa vier vorum dauder i Syndunum, hefur hañ giørdt oss lifande i Christo (þviad af Naadeñe erud þier hiælpleger vordner) og hefur uppvaked oss med hønum, og sett oss med hønum i himneskt Athæfe i Christo JEsu.

Hver hefur þa wtvegad Møñunum Guds Naad, so ad þeir mættu aptur faa Uppreisn af Fallenu, og komast aptur i eitt sæluhiælplegt Stand ?

Þad hefur alleina Guds eigenn Sonur JEsus Christr giort, hver strax epter Syndafalled var fyrerheiteñ, og i Uppfyllingu Tijmañs, sendur øllum Heime til Sæluhiælpar og Uppreisnar af Fallenu. Rom. 5. 17. Þvi ef Daudeñ rijkte vegna eiñar Syndar fyrer eiñ, mikln meir munu þeir, sem ødlast Naadareñar og Gafnñar yfirfliootañlega Nægd til Rettlætesins, rijkia i Lijfenu, fyrer þañ eina Jesum Christum. 1. Mos. 3. 15.

Hvar lære eg þa nakvæmara ad þeckia og elska þeña dijrmæta Endurlausnara JEsum Christum ?

I Annare Greinenne, sem hondlar um̃ Endurlausnena.

## Ut af Añare Grein Trwarjatningareñar.

Hvad er Iñehald Añarar Greinareñar ?

Þecking og Lærdoomur um̃ tvær Natturur þeirrar einu Personu Christi, um̃ hans þrefalda Embætte, tvøfalda Stand, og sierdeiles þaa dijrmætu Endurlausn vora fyrer hañ.

Riidur miøg miked a þvi ad þeckia Christum ?

Jaa, Þviad þar er eckert añad Nafn gefed Mønnunum, i hveriu oss byriar saaluhoolpnum ad verda. Post. G.B.4.12. Og þad er eiliift Liif, ad þeir þecke þig alleina eiñ sannañ Gud, og þann þu sender JEsum Christum. Joh.17.3. 1.Joh.5.11.12. Gud hefur gefed oss eiliift Liif, og þetta Liif er i hañs Syne, hver sem Guds Son hefur, sa hefur Liifed, hver hann hefur eige Guds Son, sa hefur eige Liifed.

Hver er JEsus Christus ?

Guds og Mariu Sonur, sañur Gud og Madur.

Er þa Christur tvær Personur ?

Nei. 1.Tim. 2. 5. Þar er eiñ Gud, og eiñ Medalgøngare mille Guds og Manna, sem er sa Madur Christus Jesus. Eñ i þeirre einu guddoomlegu Personu Christi eru tvær Natturur, naakvæmlega sameinadar, sem er sw guddoomlega og manndoomlega Nattura.

Hafa þessar tvær Natturur ætiid vered sameinadar i Christo ?

Nei, þaa guddoomlegu Natturu hefur hañ af Fødurnum fraa Eiliifd. Ps. 2. 7. Þu ert miñ Sonur, i Dag fædde eg þig. Eñ þaa Mañdoomlegu hefur hann

hañ uppa sig teked af sinne Moodur Mariu.

Gal. 4. 4. Pa Uppfylling Tijmañs var komen, utsende Gud sinn Son, fæddan af Kvinnu, og Løgmalenu underorpeñ.

Hvar af bevijsar þu ad Christur sie eiñ sañ: verulegr Gud ?

Þad bevijsast af hañs eilijfre Fæding af Foodurnum, og af hañs guddoomlegum Eigeñlegleikum og Verkum. Þar ad auk vitnar Ritningen um þad med ljoosum Ordum, fierdeiles: 1.Joh.5.20. Vier erum i hinum sañarlega hañs Syne JEsu Christo, þesse er sañur Gud og eilijst Lijf.

Getur þu eñ framar bevijsad, ad Christus sie Gud og Madur i eiñe Persónu ?

Ja. Joh.1.14. Orded vard Hold, og byggde med oss. Rom.9.5. Hverra Fedur eru og þeir, sem Christur er wt af komeñ epter Holdenu, sa sem ad er Gud yfer ollum Hlutum, blessadur ad Eilijfu.

Hvers vegna vard Guds Sonur ad vera sañur Madur ?

So ad hañ kyñe, vegna vor Mañaña, ad smacka Daudañs Beiskiu, i vorre daudlegre Natturu.

Hvers vegna vard hañ þar med ad vera sannur Gud ?

So ad hanns Daude og Foornfæringar Blood, kyñe ad hafa Oendañlegañ Krapt til ad fridþægia.

Er JEsus af Nazareth sa sañe Messias og forerheitne Heimsens Endurlausnare ?

Ja, þvi oll þau Keñeteikn sem Ritningen leider til um þañ saña Messiam, fiñast hia Jesu af Nazareth. Hann er fæddur af Juda Ættkvijsl, 1. Mos.49.8.10. Og af Davids Ætt, 2.Sam.7. 12. J Bethlehem Davids Borg, Mich.5.2. Af Meyu, Es. 7. 14. Sia framar Hagg.2.7.9. Dan.9.24. Ja, allt þad añad, sem spaad er um

Nidur-

Nidurlæging og Upphefd þess saña Messiæ, hlijd-
er oidungis og alleinasta uppa vorn JEsum af
Nazareth. Ps. 22. Es. 53.

Af hverium var JEsus fæddur ?

Af Mariu, eiñe hreiñe og heilagre Jungfrw, sem
ad soñu var trwlofud Joseph Jesu Fooſtur-Fodur,
eñ kennde þo eingañ Mañ.

Er hañ þa ei geteñ og fæddur af syndugn Sæde ?

Nei, þvi þo Maria hefde Uppruna Syndena i siñe
Nattúru, þa geck hun þo ecke ad Erfd til Christ-
um, heldur var hun i hanns Getnade wthreinsud
fyrer heilagañ Anda. Luc. 1. 35. Heilagur Ande
mun koma yfer þig, og Kraptur hinns Hærsta mun
yfirskyggia þig, af þvi, ad þad hid Helga, sem af þier
mun fædast, skal nefnast Sonur Guds.

Hvernig kann Madur ad færa sier i Nyt Umþeinking
JEsu heilögu Mañdooms-Tekningar ?

Sa yndeslege Sannleike fær huggad oss, med
Fullvissu um alvarlega Elsku Guds, til vor aumra
syndugra Maña; Um þad, ad vier sieum sañar-
lega og fullkomlega fridþægder; Og um þañ stoo-
ra Göfugleika og ypparlega Vegsemd, sem vor
Nattura er upphafeñ til med Sameininguñe vid
Gud i Personu Christi: So ad vier þess vegna
eigum þvi heldur ad hreinsa oss af Saurugleik
Holdsins og Andaňs.

Hvad þijda þan tvö Nöfn þijns Frelsara ?

1.) Nafned JEsus þijder Frelsara. Matth. 1. 21.
Hun mun Son fæda, og hañs Nafn skaltu JEsus kalla,
þviad hañ mun frelsa sitt Foolk af þeirra Syndum.

2.) Nafned Christur er sama sem Messias, og

þijder

þijder Smurdur.

Med hveriu var Christur smurdur ?

Med heilogum Anda og Krapte, Post. G. B. 10.38. Og þad ꝏn Mælingar, Joh.3.34. Sw guddoomlega Nꝏtturan meddeilde þeirre Mañdoomlegu sijna guddoomlega Eigeñlegleika, i þvi Augnablike, sem sw Personulega Sameining mille beggia Nꝏtturaña skede.

Epter hverre Nꝏtturuñe var Christur smurdur ?

Epter þeirre Mañdoomlegu, þvi sw Guddoomlega hafde alla Hlute frꝏ Eilijfd.

Brwkade Christur alltijd sijna guddoomlega Eigennlegleika ?

J sijnu Nidurlægingar Stande lagde hañ nidur ad brwka þꝏ, ad undañteknu þvi, þꝏ hañ med Kraptaverkum vilde syna hver hañ var.

Hvers vegna skylde vor Frelsare vera DRottenns Smurdur, og hafa guddoomlega Eigeñlegleika ?

Til þess, ad hañ kyñe ad framkvæma so sitt þrefalda Embætte, nefnelega: Pad Keñemañlega, Spꝏmannlega og Konunglega; Þvi til soddañ Embætta voru Meñ innvijgder med Smurning i gamla Testamentenu. Þetta hañs þrefalda Embætte nefnest añars hañs Medalgaungu Embætte.

J hveriu er iñefaled Pad ypparsta Prests Embætte Christi ?

J þvi, ad hañ hefur eitt Siñ sialfañ sig ꝏ Krossenum Gude offrad fyrer vorar Synder, og hann bidur enn ꝏn Aflꝏts fyrer oss, og blessar oss. Ebr.7.24. 26. Eñ þesse, fyrer þvi hañ eilijflega blijfur, þa hefur hañ Oforgeingelegañ Keñemañskap, þar fyrer

kañ hañ og eiñig þa ætijd sæluhoolpna ad giøra, sem fyrer hañ koma til Guds, og hañ lifer æfeñlega, og bidur fyrer þeim; Þviad slijkann Biskup skyldum vier hafa, sa sem være heilagur, saklaus, Oflectadur, syndugum fraskilen, og hærre eñ þad Himeneñ er.

Hvar i er iñefaled Christi Spamañlega Embætte ?

J þvi, ad keña oss Guds Vilia til vorrar Sæluhiælpar; Þad giørde hann fordum i eigen Personu sialfur, eñ nu giører hañ þad fyrer siñ Anda og sijna Þienara. Joh. 6.14. Þesse er sañarlega sa Spamadur, sem i Heimeñ skal koma.

Hvat i er iñefaled Christi Konunglega Embætte ?

J þvi, ad stioorna, vidhalda og vernda sijna Trwada fyrer þeirra Ovinum.

Hefur þa þesse Kongur og so eitt Kongs-Rijke ?

Jaa, eñ þad er eitt andlegt Rijke, sem er hanns Kyrkia edur Nadar Rijke hier a Jordune, wr hveriu hañ flytur uñ syder sijna Trwada til Dijrdareñar Rijkes a Himnum.

Joh. 18. 36. Mitt Rijke er eig af þessum Heime.

Til hvers a Yfirvegan Christi Embættes ad upparfa þig ?

Til ad elska hañ, sem minn ædsta Prest og Endurlausnara; Ad trwa honum, so sem mijnum Spamanne; Ad heidra hann og hlijda honum, so sem mijnum Konunge. Þar med kann eg og lijka ad hafa stærstu Huggun af hañs Embættum.

Hvernig taka þeir Trwadu Nafn af Christo ?

Þeir kallast christner, þad er, smurdur; Þvi hann hefur smurdt þa med sijnum Anda.

1. Joh. 2. 20. Þier hafid Smurningena af þeim sem heilagur er, og þeckid allt.

Eru

Eru aller Menn i þessum christnu Løndum þvilijker Christner?

Nafned hafa þeir ad sonnu, eñ Smurningarenar Anda og Naad vantar þaa flesta.

Eru þa þeir Sann-christnu og so smurder til andlegra Kennemanna, Konga og Spamanna?

Jaa, og þad audsyna þeir; Sem Kiñemeñ,i þvi, ad foornfæra sig Gude, gefa sig Gude til Pioonustu, ad blessa og bidia fyrer sier og ødrum; Sem Kongar, i þvi, ad stioorna sialfum sier fyrer Guds Anda Hialp, samt einig i þvi, ad strijda aa moote sijnum andlegum Ovinum; sem Spaameñ, i þvi, ad keña, uñvanda, aamiña og hugga sialfa sig og adra.

Maa þa hver einn Christenn, sem einn andlegur Prestur, taka uppaa sig opennbert Keñemañs Embætte?

Nei, þar til heyrer Guds Kallan, fyrer Yfirvalldsens Tilhlutan; eñ þad er allra Christeña Kall og Skyllda, ad keña, hugga og uppbyggia hver añañ i daglegre Umgengne, og þa Tækefære gefst.
1. Thess. 5. 11. Fyrer þvi aamiñe hver ydar añañ iñbyrdes, og leidrette hver añañ iñbyrdes, so sem ad þier einig giøred. Og i 14. V. Vier bidium ydr, kiærer Brædr, ad þier aamiñed Oraadvanda, hugged Istødulitla, umlijdid breiska, veridþoliñmoodir hver vid añañ. Ebr. 3. 13. Amiñed ydur sialfa alla Daga, so leinge sem þad i Dag kallast, ad þar eingeñ aa medal ydar forherdest af Svikræde Syndarennar.

Hvert af þessum þremur Embættum hlijda eigenlega til vorre Endurlausn?

Hañs ypparsta Prests Embætte, epter hveriu hañ er vor Fridþægingar og Talsmadur; Po-

getur eingeñ medteked Christum, sem siñ ypparsta Prest, og ordeð hluttakande i hanns Endurlausn, utann hañ medtake hann eiñig, og fylge honum so sem sijnum Spaamañe og Kouge. 1. Cor. 1. 30. Med þvi ad Christi ypparsta Prests Embætte er Grundvolluren til vorrar Saluhiaalpar, þa feig mier annæqiañlega og skiliañlega, allt þad sem heyrer til Lærdoome vorrar Endurlausnar ?

J þessum Lærdoome hefi eg ad þeckia glogst: Hañ sem hefur endurleyst oss: Þaa sem hañ hefur endurleyst: Þad Medal sem hañ endurleyste oss med: Þad Vonda sem hann hefur endurleyst oss fraa: Og til hvers hañ hefur viliad oss endurleysa.

Er þetta eige wtmaalad i Catechismo ?

Jw, þess styttsta Jnnhald er innefaled i þessum Ordum: Ad hañ sie miñ DRotteñ, sem mig glatadann og fyrerdæmdañ Mañ hefur afkekad rc. (Siaa Adra Grein Trwarjaatningareñar.)

Hver hefur nu endurleyst oss ?

Vor DRotteñ JEsus Christus, Guds og Mariu Sonur, sañur Gud og sannur Madur, hefur endurleyst oss, epter baadum Nattturunum. Post. G. B. 20. 28. Gud hefur wtvegad Sofnud med sijnu eigenn Bloode.

Hafa þa eige Fadereñ og H. Aude endurleyst oss ?

Þeir hafa ad soñu elskad oss, og framfylat vorre Endurlausn, Joh. 3. 16. 1. Cor. 6. 11. Enn þeir kuñu ecke ad wtrietta Endurlausnar Verked sialft, sem skede med Pijnu og Dauda.

Þvi gaatu þeir þad ecke ?

Þvi Fadereñ er alleina Gud, sem eige kann ad

 deya,

deya, so er lijka heilagur Ande; Enn Sonureñ er sannur Gud og sañur Madur, sem er dæeñ, og hefur wthellt sijnu Bloode fyrer vorar Synder.

Hvern hefur Christur endurleyst?

Mig aumañ, glatadañ og fordæmdañ Mañ.

Hveria Vissu hefur þu þar uñ, ad þu siert endurleystur?

Eg hefi þar þessa Vissu uñ, ad aller Menn eru endurleyster, og eg so eiñig lijka i þeirra Tolu.

1.Tim.2.6. Christus JEsus hefur siálfañ sig wtgefed fyrer alla til Endurlausnar.

Bevijsa þu mier eñ nu framar, ad aller Meñ sieu endurleyster fyrer Christum?

Rom.5. frá 15. til 21. Vers, keñer Postuleñ St. Páll þad med morgum Ordum, ad Uppreisningen edur Hiálpen i Christo, náde allt eins vijda til, eins og Falled og Fordiorfunen i Adam, sem er, til allra. 1.Joh.2.2. Hañ same er Forlijkun fyrer vorar Synder, eñ eige einasta fyrer vorar (þad er, þeirra Trwudu) heldur eiñig fyrer allrar Veraldarennar. 1,Tim.4.10. Gud er Frelsare allra Maña, eñ sierdeiles Trwadra.

Hefur þa Christur lijka endurleyst þa, sem med Ydrunarleyse og Vantrw steipa sier siálfer i Fordæminguna?

Já. 2.Pet.2.1. Þeir afneita Drottne, sem þa hefur endurkeypt, og munu yfir sig leida snøgga Fyrerdæming.

Med hveriu hefur Christur endurleyst oss?

Hverke med Gulle nie Silfre, heldur med sijnu heilaga, dijrmæta Bloode, og med sijnum Ovidurkvæmelega og saklausa Dauda; Já, ecke med Pijnuñe alleina, heldur og so med siñe Hlijdne og Logmálsens Uppfylling.

1.Pet.1.18.19. Vited, ad þier erud ecke med forgeinge-

legn Gulle edur Silfre endurleyster i frá ydru Hiegooma Athæfe, epter Fedraña Uppasetninge, heldur med dijrmætu Bloode Christi, so sem hiñs Oflekada og saklausa Lambs.

Rom. 5. 19. Þvíad lijka sem fyrer eins Manns Ohlijdne eru marger synduger vordner, so verda og fyrer eins Hlijdne marger rettlæter.

Var þa so stoor Naudsyn á, ad brwka so dijrmætt Medal til vorrar Endurlausnar ?

Jæ, þvi Christi Foornfæringar Blood var Omissande til Hreinsunar vorrar og Fridþægingar.

Ebr. 9.22. An Bloods Uthellingar skedur eingen Fyrergefning.

Frá hveriu Illu hefur Christur vss endurleyst ?

Fráa Synd, Dauda og Diofulsens Valde.

Hvernig hefur Christur frelsad oss frá Syndeñe ?

Med þvi moote, ad: 1.) Er Syndareñar Sekt og Straff burtteked. 1. Joh. 1. 7. Blooded JEsu Christi Guds Sonar, hreinsar oss af allre Synd.

Col.1.14. J hverium vier høfum Eudurlausnena fyrer hañs Blood, sem er Syndaña Fyrergefning.

2.) Ad Syndareñar Magt og Yfirráad eru broteñ; Jæ, Syndareñar Root verdur um sijder upprætt i Daudanum. Rom. 6. 14. Synden mun eige kuña ad drottna yfir ydur, med þvi ad þier erud eige under Løgmálenu, heldur under Náadeñe.

1.Pet. 2.24. Christur hefur vorar Synder bored a sijnum Lijkama uppá Tred, so ad vier i frá Syndunum deydder, lifdum Rettlætenu, fyrer hvers Beniar þier erud heilbrygder vordner.

Kañ eg ecke nooglega ad vera frelsadur frá Straffe Syndareñar, þo eg sie bunden under heñar Yfirdrottnan ?

 Nei,

Nei, þad syna aðr framfærdar Ritningareñar Greiner; Og aller ydrunarlauser fara villt i þvi, ad þeir rangfæra Evangelium, a þañ Hatt, ad þeir vilia nijta sier þad til holdlegra Frijheita; Eñ eige til Frelses fra Syndeñe sialfre (hverre þeir vilia þiona i andlegum Dauda) heldur fra Syndarennar Straffe, fra hveriu alleina þeir vilia frijast fyrer Christum.

Hvernig hefur Christur endurleyst oss fra Daudanum ?

So ad sa tijmañlege Daude er orden Iñgang-ur til Lijfsens, enn sa andlege Daude hefur mist sijna Magt, og þann eilijfa Dauda er eige meir ad Ottast fyrer þa Trwudu. Joh. 11. 25. 26. Eg em Uppprisan og Lijfed, hver hann trwer a mig, sa mun lifa, þoott hañ deye, og hver hañ lifer og trwer a mig, sa skal aldrei deya

Hvernig hefur Christur frelsad oss fra Dioflenum og hañs Rijke ?

So ad hann hefur einga Magt yfer oss, heldur kuñum vier ad veita honum Mootstødu, og þurfum ecke ad hrædast hañ, þegar vier Ottumst Gud.

Ebr. 2.14. Uppa þad, ad hañ Magtena tæke fyrer Daudañ, fra þeim sem Daudañs Magt hafde, þad er Dioflenum, og endurleysite þa, sem fyrer Ogn Daud-añs hlutu um alla Æfe i Prælkan ad vera.

Til hvers hefur Christur endurleyst þig ?

Uppa þad eg skule vera hañs eigeñlegur, og so sim eigen Eign, life sijfeldt under hañs Valde, i hañs Rijke, og þioone honum.

(Gefur þa Christi Endurlausnar Verk þier øldunges eckert Leyfe ad þioona Syndeñe, Dioflenum og

Verøld-

Veroldecke, edur ad vera Þeirra Eign ?

Nei, Þad er ad stela fra Christo mijnum retta Herra, Þvi hañ hefur so dijrt keypt sier til Eignar.

Luc.1.74.75. Ad vier leyster af Hende Ovina vorra, Þioonudum hønum an Otta, alla vora Lijfdaga, i Heilagleika og Rettlæte, sem hønum Þocknast.

Rom.6.18. Fyrst Þier erud frelsader af Syndeñe, Þa erud Þier ordner Rettlætesens Þioonustu-Meñ.

Tit.2.14. JEsus Christus hefur sialfañ sig gefed wt fyrer oss, uppa Þad hann endurleyste oss i fra øllu Orettlæte, og hreinsade sier sialfum Foolk til Eignar, Þad kostgiæfed være til goodra Verka.

Er Þad Þa ad siaa a Heimsens Børnum, ad Christur hafe Þau endurleyst ?

Nei, Þvi Þau hafa a nij burt-seldt sig Guds Ovinum, Syndeñe og Dioflenum.

Hefur Christur vor Endurlausnare alltijd vered i einu sama Stande ?

Nei, hañs Stand er tveñslags, sem er: Nidurlægingar Stand, og Upphafningar Stand. Uñ bæde talar Paulus: Phil. 2. 6. - 11. Hver Þo hañ være i Guds Mind, hieldt hañ Þad Þo ecke fyrer Ran, Gude lijkur ad vera, heldur mijnkade hañ sig sialfañ, og took a sig Mind eins Þioons, vard lijkur ødrum Møñum, og ad Hegdan fundeñ sem Madur, lijtelækkade sialfañ sig, og vard hlijdugur allt til Dauda, ja, allt til KrossensDauda. Fyrer Þvi hefur Gud upphafed hañ, og gaf hønum Nafn, Þad yfer øllum Nøfnum er, so ad i Nafne JEsu skulu sig beigia øll Knie Þeirra sem a Himnum, og a Jørdu, og under Jørdunne eru, og allar Tungur skulu viddurkeña, Þad JEsus Christus sie DRottenñ, til Dijrdar Guds Fødurs.

Hvad er Christi Nidurlægingar Stand ?

Pad er þad Stand, i hveriu hañ epter siñe Mañdoomlegu Nattùru, lagde af ad brwka fullkomlega og sijfeldt þaa guddoomlegu Eigeñlegleika, sim Mañdoomenum voru meddeilder, og took uppaa sig Þioons Mind, so ad hañ, med sinne Hlijdne, kyñe ad forlijka oss vid Gud.

Hvad er Christi Upphafningar Stand?

Pad Stand, i hveriu Christur (þaa hañs Pijna var endud) var epter siñe Manndoomlegre Nattùru, upphafeñ, til ad brwka fullkomlega og sijfeldt, guddoomlega Eigennlegleika og Tignargiæde, til ad giora oss hluttakande i þeirre Saaluhiaalp, sem hann oss wtvegade.

Hvad mørg Atride eru i Christi diwpu Nidurlægingu?

Sw Postullega Trwarjaatning upptelur Fim, sim er: 1.) Fatæklega Fæding, 2.) Pijnuna, 3.) Krossfestinguna, 4.) Daudañ, og 5.) Greftranena.

Hvi uppbyriade Christur sitt Lijferne med þeirre fatæklegu Fæding i Stallenum?

Ad hañ sem fyrst aavijsade þad, ad hann sækte ei epter Rijkium og Metordum Veralðarennar, heldur vilde hann alleinasta audga oss med sinne Fatækt. 2. Cor. 8. 9.

Hvad var þad sem Christur leid?

Aller hañs Lijfs Hager voru fraa Ungdoome fuller med Fatækt, Foragt, Offsookn, Erfide, og Onæde; Eñ ad sijdurstu var hañ saarlega pijndur, under þeim Romversku Landshøfdingia Pontio Pilato, sem liet hañ hwdstrijkia, hæda, þyrnekrijna, og illa med hann hondla.

Leid Christur alleinasta wtvortis a Lijkamanum ?

Nei, hanns allra stærsta Kvol var ïw helvijtska Saalar Angist vegna vorra Synda, hverra hin þwnga Byrde wtpressade af honum Blood-Sveitañ, og kom honum til ad segia: Hrygg. er Saala mijn allt til Dauda. Matth. 26. 38.

Hvar fyrer leid JEsus so mikel Harmkvæle ?

Vegna vorra Synda, og oss til Saaluhiaalpar. Es. 53. 7. 8. Saññarlega þa bar hañ vort Krankdæme, og vorum Pijnum hlood hañ uppa sig, fyrer vorra Misgiørda Saker er hañ særdur, og fyrer vorra Synda Saker er hañ lemstradur. Hegningen hun liggur a hønum, uppa þad vier hefdum Fridenn, og fyrer hans Beniar erum vier heilbrygder vordner.

Hvernig hagade JEsus sier i siñe Pijnu ?

Miog þolenmoodlega, so sem eitt Lamb sem leidest til Slaatrunar Beckstns. Es. 53. 7.

Hvad er Christi Krossfesting ?

Eitt miog kvalafullt, forsmaanarlegt og bølvad Dauda Straff, sem brwkad var vid allra stærstu Odaada-Meñ. Gal. 3. 13. Christur hefur leyst oss fraa Bølvan Logmalsins, þañ Tijd hañ vard Bølvan fyrer oss, (Þvi skrifad er) Bøkvadr sie sa, hver sin a Tre hangir.

Er Christur sañarlega dauðen a Krossenum ?

Ja. Luc. 23. 46. JEsus kallade hærre Røddu og sagde : Fader! J þijnar Hendur fel eg miñ Anda. Og er hañ hafde þetta sagdt, gaf hañ upp siñ Anda.

Hafde soddañ Daude JEsu Christi stoorañ Krapt til ad wtvega oss vort Lijf og Saaluhiaalp ?

Ja, allra stærsta Kraft, þvi þar med var Daudeñ, so sem Syndareñar Verdlaun, betaladr af vorum Medalgaangara, og vier fyrir hañ lauser gefner.

Rom.5.10. Vier erum vid Gud forlijkter fyrer hañs Sonar Dauda, þa vier vorum eñ Oviner.

Hvad er Christi Greftran?

Ecke var nockur Naudsyn a heñe, med þvi hann ætlade ei ad vera daudur til Leingdar; Heldur var hun Vitnesburdur uñ, ad hañ være sannarlega daudur, og eitt Huggunar-rijkt Miñes Teikn, ad þorar Synder eru nidurgrafnar, vorar Grafer helgadar, og þeirra Vidbiodur fra þeim tekenn.

Hvernig a Madur ad aulijta Christi Lijf allt, og alla Pijning i þessu Nidurlægingar Stande?

Ad nockru leite, og sierdeilis, so sem eina Forlijkun fyrer oss: Og ad nockru leite, so sem Heilagleikans og Polenmæðeñar Epterdæme, i Lifnadenum og Pijnunne. 1.Pet.2.21. Christur hefur eiñig lided fyrer oss, og oss eitt Epterdæme epterlated, ad þier skyldud epterfylgia hans Footsporum. 1.Joh.2.6.Joh.13.15. Matth.10.38. Cap.11.29. Luc 9.23.

Hvad kom epter Greftraneña, so sem þad sijdarsta Atride i Christi Nidurlægingar Stande?

Hañs Upphafningar Stand, og til þess hlijda lijka Fiñ Atride, sem er: 1.) Hañs Nidurstigning til Helvijtis. 2.) Uppriſan. 3.) Himnaforen. 4.) Setan til hægre Handar hia Fodurnum. 5.) Aptur koman ad dæma Lifendur og Dauda.

Hvad er Christi Nidurstigning til Helvijtis?

Þad, ad hann komu fyrer sijna Uppriſu kom til Samastadar þeirra Fordæmdu, hroosade Sigre yfir Satans Magt, og predikade fyrer Ondunum. 1.Pet.3.18.19.20. Christur er deyddur epter Holdenu, eñ lifande giørdur epter Andanum, i þim sama er hañ eiñig i burt geingeñ, og hefur þeim Ondunum predikad

ad i Jiötrunum, hverier fordum Daga eige trwdu.

Hvad er Christi Upprisa ?

Hun er, ad hañ a þridia Dege epter siñ Dauda, hefur teked aptur sitt Lijf, forklarad siñ Lijkama, og i honum syndt sig opeñberlega.

Post. G.B. 2. 24. Gud hefur uppreist JEsum, ad uppleystum Daudañs Kvölum, fyrer þvi ad þad var Omögulegt, ad hañ skylde af honum halden vera.

Hvada Nytseme höfum vier af Christi Upprisu ?

Allra stærstu Nytsemd: 1.) Til Stadfestu vorre Trw, ad fullkomeñ Betalingur sie ætlagdur fyrer vorar Synder, þar ed vor Medalgangare er wr Daudañs Fangelse sloppeñ.

Rom. 4. 25. Sa er fyrer vorar Synder var ofurseldur, og fyrer vors Rettlætes Saker uppvaktur.

2.) Til vorrar andlegu Upprisu og heilags Framferdis, i einum nijum Lifnade; Og ad sijdurstu:

3.) Til þess, ad vorer Lijkamer skulu sealuhoolpner upprijsa. Rom. 6. 4. 5. Lijka sem Christur er uppvakeñ fra Daudum fyrer Dijrd Fødursins, lijka so skulum vier ganga i einu niju Lijferne; Þvi fyrst vier erum med honum plantader til lijks Dauda, þa munum vier og Upprisuñe lijker verda.

Umgeckst Christur ad Jafnade hier a Jørduñe epter sijna Upprisu ?

Nei, þa hañ i fiorutyger Daga hafde hier umgengest med sijnum Læresveinum i adskilianlegum Opeñberunum, og talad fyrer þeim um þad sem heyrde til Guds Rijkes, veik hañ burt wr Verøldeñe ad synelegre Nalægd, og foor upp yfir alla skapada Himna, til Guds Dijrdar Himens, og hañs Hatignar

 hægre

hægre Handar. Post.G. 1. 9. Og er hañ sagde þetta, var hañ, þeim aasiaaendum uppnumeñ, og eitt Skij took hañ upp, i burt fyrer þeirra Augum. Ebr. 9. 24.

Hvert Gagn høfum vier af Christi Himnafør?

1.) Þaa Huggun, ad Jesus er fareñ hiedañ ad tilbwa oss Stad i sijns Fødurs himneska Hwse, og vill taka oss þangad til sijn. Joh. 14. 2. J mijns Fødurs Hwse eru margar Verur, eg fer hiedañ ad tilbwa ydur Stad.

2.) Þaa Amiñing, ad vier skulum hafa eitt himneskt Siñeslag, ja, Lyst til ad fara hiedañ, og vera med Christo. Col. 3. 1. Erud þier nu upp aptur risner med Christo, þaa leited þess hvad þar uppe er, þar ed Christur er sitiande til Guds hægre Handar.

Hvad merker Christi Seta til Fødursins hægre Handar?

Ad Christur epter siñe Mañdoomlegu Naatturu, med fullkomnu og æfarande Herradæme, drottnar og stioornar øllum Hlutum.

Eph. 1. 20. 21. Gud uppvakte Christum af Dauda, og sette hañ til siñar hægre Handar a Himnum, yfer allañ Høfdingskap, Valdstiett, Magt og Herradoom.

Hvert Gagn høfum vier af Setu Christi til Guds hægre Handar?

Þar af vitum vier oss til Huggunar, ad hann i Haasæte sijns Guddooms, stioornar siñe Kyrkiu, sefar sijna Ovine, bidur fyrer oss, sender oss sinn heilaga Anda, og med þessu Moote vill hañ i sijnu Upphafningar Stande giora oss niootande þess, hann hefur wtvegad oss i sijnu Nidurlægingar Stande; Hvar i moot vor Skylda er ad heidra tilbidia, og hlijda so haatt-tignudum Høfdingia.

Þs-

Ps. 110. 1. DRottenn sagde mijnum DRottne: set þu þig til miñar hægre Handar, þangad til eg legg þijna Ovine til Skarar Foota þiña. Rom. 8. 34.

Er Christur eige framar nalægur hier a Jordūñe?

Jw, med kroptuaum, eñ þo Osynelegum Hætte.

Matth. 28. 20. Sialed, eg er med ydur alla Daga, allt til Enda Veraldar.

Nær vill hañ i añad Siñ aptur koma synelega til Veraldarēñar?

A sijdarsta Dege, sem alleina er Gude kunnur.

Post. G. B. 1. 11. Þesse JEsus, sem uppnumenn er fra ydur til Himens, mun koma, lijka so sem þier saad hann til Himens uppfara.

Luc. 21. 27. Þa munn þeir sia Mannsins Son, komande i Skyunum med stoorum Krapte og Dijrd.

Hvernig mun þad tilganga a Dooms Dege?

Aller Meñ, bæde þeir sem þa lisa, og hiner sem adur voru dauder, og þa aptur uppvakter, skulu stadnæmast fyrer Christi Doomstool, og þeirra Hugrenningar, Ord og Verk dæmast epter Guds Orde, Dioflarner skulu þa og dæmast.

Post. G. B. 17. 31. Hañ hefur Dag tilsett, a hverium hañ vill dæma alla Jardarkrijngluna med Rettvijse, fyrer eiñ Mañ, fyrer hvern hañ hefur þad og auglyktad.

1. Cor. 4. 5. Dæmed ei fyrer Tijmañ, fyrr eñ Drotteñ kemur, sa er auglijsa mun eiñig þad i Myrkrunum er huled, og opeñber giøra Raaden Hiartnaña, og mun þa hverium sem einum Lofstijr skie af Gude.

2. Cor. 5. 10. Vier hliootum aller ad opeñberast fyrer Doomstoole Christi, uppa þad, ad hver eiñ ødlest epter þvi hañ hef: adhafst i Lijkamañs Lijfe, sie þad Jllt eda Gott.

2. Thess. 1. 6. 7. 8. Þad er rett hia Gude, ad endurgialda þeim Hørmung, sem ydur Hørmung veita, eñ ydur, þier sem Hørmung lijded, Hvijld med oss; Þa er

Drott-

Drottenñ Jesus mun openberast af Himne, medur Englum siins Kraptar, og med Eldsins Loga, Hefnd ad gefa yfer þa, sem ecke þeckia Gud, og yfer þa, sem ecke eru hlijduger Evangelio vors DRottens JEsu Christi.

1. Cor. 6. 3. Vited þier ei, þad vier munum yfer Englunum dæma.

Joh. 12. 48. Þad Ord sem eg talade, þad mun dæma hañ a efsta Dege.

Er þad nu nøg, ad þu veitst allt þetta um Christum, og heldur þad fyrer satt?

Nei, ecke utann sa heilage Ande auglijse Christum i mijnu Hiarta fyrer eina lifande Trw, og helge mig so i Sañleikanum.

## Ut af Þridiu Grein Trwarjatningareñar.

Trwer þu a þa heilogu almeñelegu christelegu Kyrkiu?

Nei, heldur trwe eg, ad ein heilog almenneleg christeleg Kyrkia sie til.

Trwer þu þa a heilagañ Anda?

Ja, a heilagañ Anda trwe eg, eins og a Fødurenn og Sonenn, þvi hann er med þeim ein guddoomleg Vera.

Bevijsa þu mier ad heilagur Ande sie ein guddoomleg Persona?

Þad bevijsast, ecke alleinasta af þeim guddoomlegu Eigeñlegleikum og Verkunum, sem honum tilleggiast optlega i Ritninguñe; Heldur og so, af þvi hañ verdur wtþrickelega nefndur Gud.

Post G.5.3.4. Anania, þvi uppfyllte Andskoteñ Hiarta þitt, so ad þu vilder liwga ad heiløgum Anda? Eige hefur þu loged ad Møñum, heldur ad Gude.

1.Cor.3.16. Vited þier eige þad þier erud Guds Must-

ere,

ere, og þad Guds Ande bygger i ydur? 1.Joh.5.7.

Þvi kallast hañ: Einn Ande?

Vegna þess, ad hañ med guddoomlegum Hætte so sem Guds Muñs Ande (Ps.33.6.) framgeng-ur fraa Eilijfd af Fødur og Syne.

Joh.15.26. Eñ þa sa Huggareñ kem, hvern eg mun sen-da ydur af Fødurnum, sa er Sañleikssens Ande, hver af Fødurnum framgengur, hañ mun bera Vitne af mier.

Vegna hvers kallast hañ: Heilagur Ande?

Eige alleinasta þess vegna, ad hann er sialfur i siñe Veru heilagur; Heldur og so þar fyrer, ad hañ framkvæmer i Moñum Helgunar Verkeñ.

Hveriar eru þær heldstu Verkaner heilags Anda?

Ad kalla, upplysa, helga, og vidhalda

Er nockur Þørf aa ad þeckia þessar heilags Anda Verkaner i Saalunne?

Jaa, þvi epter þvi maa hver eiñ proofa sig sialfañ, hvert hañ sie rettelegur Limur Guds Kyrkiu.

Hvad er þa Guds Kallan?

Ad hañ med sijnu Orde hrærer Mañaña Hiortu, opeñberar þeim sijna Naad, sierdeilis fyrer Evan-gelium, frambijdur hana alvarlega, og gefur med Evangelio Krapt til ad medtaka hana.

2. Tim. 1. 9. Gud hefur oss hiaalplega giørdt, og kallad med heilagre Kallan, ecke epter vorum Verk-um, heldur epter sinne Fyrerhyggiu og Naad.

Hver eñar Hiaalpar Medøl brwkar Gud til ad uppveck-ia og kalla Meñ til ad leita Saaluhiaalpareñar?

Hier til brwkar hañ stundum Piaaningar, stun-dum Velgiorninga, stundum añara Epterdæme, og soddañ fleira, sem Menn kunna ad færa sier til Jhugunar.

Segna

Segna og so aller Meñ Þvilijkre Guds Kallan ?

Nei, marger standa ꜳ moote Þeirre heilags Anda Nꜳd, sem undañ gengur og under bijr Þꜳ, og Þess vegna nioota Þeir ei heldur Nꜳdareñar Ibwdar.

Getur Madur mootstaded lijka Guds Kallan ?

Jꜳ. Post. G. B. 7. 51. Þier standed jafnann i moote heiløgum Anda,

Es. 65. 2. Eg wtriette mijnar Hendur allañ Dagenn, til eins Ohlijdugs Foolks.

Hver medtekur Þa Guds Kallan ?

Þeir sem medtaka Orded med viliugu Hiarta, og sꜳra Avoxt i Þolenmæde; Þad er, Þeir sem ydrast og trwa Evangelio, hvert ad er Kraptur Guds til Sꜳluhiꜳlpar, eñ eige nema hiꜳ Þeim sem trwa. Rom. 1. 16.

Þa Madur nu eige mootstendur Evangelii Kallan, heldur gesr heñe Rwm hiꜳ sier, hvad verkar hun Þa i Hiartanu ?

Hun verkar Upplysing, Þad er, eina lifande Þeckíng og obluga Sañfæring um Þann guddoomlega Sañleik, iñ i hvern Madureñ fær Þꜳ fyrst sied, og smackad hañ rettelega. Joh. 7. 17.

Er eiñ Ogudlegur Madur ecke upplystur, af Þvi hañ er skijr og froodur i Ritninguñe ?

Nei, hañ er enn nu Myrkraña Barn, og Þecker eige Liooßaña Fødur. 1. Sam. 2. 12. Syner Eli voru iller Skalkar, Þeir hyrdtu ecke um DRotteñ. Jer. 2. 5. Prestarner hugsudu ecke, hver er Drotteñ, og Þeir hiner Lærdu skeittu ecke um mig, og Hyrdararner burtleiddu Foolked frꜳ mier.

Joh. 8. 54. Hvern Þier seiged ydvarn Gud vera, og Þecked hañ Þo eige.

1. Joh. 2. 3. 4. Þar af vitum vier, Þad vier Þeckium hañ,

ef ad vier vardveitum hañs Bodord; Hver ed seiger: eg þecke hañ, og helldur ecke hañs Bodord, sa er Liwgare, og i þvilijkum er eingeñ Sañleikur.

Eph.5.8. Þier vorud fordum Myrkur, eñ nu erud þier Lioos i Drottne, gaanged so sem Born Liooſſens.

Seig mier þañ eigeñlega Mismun, sem er a mille mañlegs Lærdooms, og gudlegrar Upplysingar?

Saa mañlege Lærdoomr verdr lærdur med mañlegreSkinseme og Ydkun Guds Ords, hvers Krapte verdur þaa i moote staded; Eñ sw gudlega Upplysing verkast fyrer þad sama Ord, af H. Anda, sem þaa nemur Stadar og bijr i Saaluñe. Saa mañlege Lærdoomur er ecke nema i Heilanum, og eintoom Historiu Þecking; Sw gudlega Upplysing iñtekur Hiartad, og er samañ vid hana ein lifande Reynsla, ad soddañ allt sie satt og saaluhiaalplegt. Fyrer þañ mañlega Lærdoom blijfur Madur samt i siñe Vondsku; Eñ sw gudlega Upplysing byriar ad taka i burt Mootþroa Vilians.

Hvad skilst fyrer þad Ord: Helgan?

Þegar meint verdur med þvi fleira eñ eitt, innebyndur þad i sier þetta Þreñt, sem verdur hvert ødru ad fylgia: Endurfædinguna, Rettlætinguna, og Endurnijungena. Añars merker þad oft alleina daglega Endurnijun.

Hvad er Endurfædingen, edur sw nija Fæding?

Þad sama er hun, sem Meddeiling einnar lifande Trwar, edur Uppvakning af þeim andlega Dauda, Umvendan og Flutningur fraa Myrkrunum til Liooſſens, fraa Diøfulsens Valde til Guds.

Eph.2.4. Þa vier vorum dauder i Syndunum, hefur

Gud giørt oss lifande i Christo.

Seig mier eñ þa skijrlegar hvad Endurfædingen er ?

Hun er eige (eins og Nicodemus meinte) ad Mañ-ureñ skylde hverfa aptr i siñar Moodur Lijf, þa hañ være ordeñ gamall, og fædast so ad niju; Heldur er Endurfædingen eiñ andlegur og iñvortis Giørningur Guds, i Hiarta Mañsens, sem fædest ad niju, þegar þar i skapast (med þeim Hætte sem vier getum eige skiled) eitt nijtt gudlegt Edle og Hattalag: J Skilningenum nij Upplysing: J Vilianum ein nij Epterlaungan, Gyrnd og Kraptr, og so aldeilis nijtt Lijf, i þeim sem annars var andlega daudur, hvert ed Ritningen kallar: Nijtt Hiarta, og nijañ Anda, eina nija Mañeskiu, ellegar nija Skepnu.

Ezech. 36. 26. Eg vil gefa ydur eitt nijtt Hiarta, og eiñ nijañ Anda i ydur, og eg vil burt taka Stein-Hiartad wr ydar Holde, og gefa ydur eitt kiøtlegt Hiarta.

Joh 3. 6. Hvad af Holdenu er fædt, þad er Hold, og hvad af Andanum er fædt, þad er Ande.

Fyrer hver Medøl verkast Endurfædingen ?

Hia Ungbørnunum skedr hun fyrir Vatn og Anda i Skijrnar Sacramentenu; Eñ hia þm̃ Fullordnu (sem vegna Andvaraleyses eda Illgyrnes Synda, eru fallner fra Skijrnar Naadeñe, og Endurfædingar Standenu) skest hun aptur a nij fyrer Guds Ord, sm̃ er þad Oforrotnañlega Sæde. 1. Pet. 1. 23.

Er þa øldungis naudsynlegt til Saaluhiaalpareñar ad verda endurfæddur ?

Jaa. Joh. 3. 3. Nema so sie ad nockur verde ad niju fæddur, hañ kañ eige ad sia Guds Rijke.

Gal. 6. 15. J Christo JEsu duger hverke Umskurn

nie Ykrhwd nockud, heldur nij Skepna.

Hvar af fær Madur þeckt ad hañ sie endurfæddur?

Af alvarlegre Umbreiting hanns Hiarta, og af þeim niju Gaafum Náadarennar, sem giora hann ad eiñe þeckiañlegre, niýrre og añare Mañeskiu.

Hvad er þad sem Madur ødlast eigeñlega med Endurfædinguñe, þad sem hañ hafde ei ádur?

Hañ ødlast þaa soñu lifande Trw, sem umfadmar og ad sier tekur Christum, og i honum sonarlegañ Utvalningar Anda, med Rette til Guds Rijkes, samt Lyst og Krapt ad giora Vilia Guds.

Joh. 1. 12. 13. So marger sem hañ medtooku, þa gaf hañ þeim Magt Guds Børnum ad verda, þeim er a hañs Nafn trwa, þeim sem ecke af Bloodenu nie af Holdsens Vild, nie Mañsens Vilia, heldur þeim sem af Gude eru borner.

Hvad er sw sanna lifande Trw, sem gefen verdur med Endurfædinguñe?

Trwen er, þegar ein ydrande Saal iñflijr og leitar sier Lijknar til Guds Naadar, i Christi Forþienustu, hveria hun tekur ad sier med Epterlaangan, tileinkar sier hana, og treyster med oruggu Trauste þar uppaa.

Hverniig wtmaalar Lutherus þa soñu Trw?

Trwen er eitt lifande orugagt Huggunar Traust um Naad Guds, hun er eitt Guds Verk i oss, sem giorer oss umskiptelega, og fæder oss ad niju af Gude, deyder hañ gamla Adam, giorer oss ad øldungis odrum Mañeskium, ad Hiartanu, Huganum, Siñeslagenu, og øllum Kroptunum, og færer med sier H. Anda. O hversu lifande, kroptugur,

 megt=

ſmegtugur og koſtgiæfeñ Hlutur er Trwen!
( Siaı Formala Piſtelſens til Romveria. )

Hvad marger Partar tilheyra þa eigenlega þeirre ſønnu Trw ?

Þrijr, ſem eru: 1 ) Liſande Þecking uñ Gud, og hañs Vilia, ſem opeñberadur er i Ordenu.

Joh. 17.3. Þad er eilijft Lijf, ad þeir þecke þig alleina eiñ ſañañ Gud, og þañ þu ſender JEſum Chriſtum.
Rom. 10.14. Hvernig ſkulu þeir trwa a þañ, af hverſum þeir hafa eige heyrt.

2.) Liſande Samſiñing og Sañfæring, uñ Sañleik þeſs, ſem Madur veit af Guds Orde.

Joh. 3.33. Hver ed medtekur hañs Vitnesburd, ſa iñſiglar þad, ad Gud ſie ſañur.
Ebr. 11.1. Trwen er øruggt Trauſt þeirra Hluta ſem Madur vonar, og eſar ei uñ þad ſem hañ ſier ecke.

3.) Ein liſande Tileinkan Guds Nᴂdar i Chriſto, ſamt Trauſt og Huggunar Athvarf til þeirrar ſomu, hvert heldur hun audſyner ſig i breñande Laungun og Hwngre epter Chriſto, ellegar i ſtærre Fullviſſu uñ Nᴂd og Rooſemd i honum.

Matth. 5.6. Sæler eru þeir ſem hwngra og þyrſta epter Rettlætenu, þviad þeir ſkulu ſadder verda.
Rom. 8. 33. 34. Hver vill aſaka Guds Utvalda? Gud er hier ſem rettlæter. Hver er hañ ſem fordæmer? Chriſtur er hier ſem dæed heſur, ja, miklu heldur ſa ſem upp aptur er vakenn, hver ad er til hægre Handar Gude, og bidur fyrer oſs.

Hvar fyrer kallaſt þeſſe Þecking, Samſinning og Tileinkan, ein liſande Trw?

Vegna þeſs, ad þeſser Hluter eru ecke alleina verkader af Guds Orde, ſem er Lijf og Ande, heldur og einnig lᴂta þeir ſig finna liſande og kroptuga i

Hiart-

Hiartanu, eñ þad giører ecke ſw dauda Trw.

Hvad er daud Trw ?

Sw dauda Trw er raung Ætlan, ſem ydrunarlauſer Syndarar ſmijda ſier ſiaalfum, ad þeir unne ſaa Guds Naad, jafnvel þo þeir vilie ei um̃vendaſt, og leita Naadareñar med þvi retta Lage, heldur eru aller hiner ſømu, þar þo Trwareñar Edle og Eigeñlegleike er ad um̃breita Mañenum.

Jac.2.26. Lijka ſem Lijkameñ er an Andañs daudur, ſo er og eiñig Trwen an Verkaña daud.

Hafa þa þeir Ydrunarlauſu einga ſaña Trw ?

Nei, aldeiles einga, þvi þo þeir kunne allt Guds Ord, halde þad fyrer ſatt, og hugge ſig þar vid, þa er þo þeirra Trw daud, og þeirra Aſigkomulag og Hattalag fordæmañlegt, ſo leinge ſem þeirra Trw er ecke ad ſiña neina i Heilanum (Lærdoomenum) og hun kemur ecke i Hiartad, eda deyder þann gamla Adam, og endurfæder þaa til ad verda eirr nij Mañeſkia.

Af hveriu get eg þa þeckt hvert mijn Trw er lifande edur daud ?

Af kroptugre Verkan heñar i Hiartanu, ſem er: Kiærleikureñ til Guds og Naungañs, Hatur til Syndareñar, Sigur aa Heimenum, retteleg Brwkun Naadar Medalaña, og fleira ſoddañ.

Jac 2.18. Syn mier Trw þijna af Verkum þijnum.
Luc.6.43. Eckert gott Tre ber ſweñ Avøxt, og eckert ſwed Tre ber goodañ Avøxt
Poſt.G.15.9 Gud hreinſade þeirra Hiørtu m3 Trwñe.
1.Joh.5 4. Allt hvad af Gude er fædt, þad yfirviñur Heimeñ, og vor Trw er Yfirviñingen, hver Veroldena

hefur yfirunneð.

Er þa ſiw ſaña Trw ætijð og hia allum eins ſterk ?

Nei, þvi þa Vantrwen ſtrijder a hana, þa er hun ſtundum miøg veik, ſem ein ſkialfande og titrande Hend, ſem varla vogar að taka til Naðar Guðs, edur tileinka ſier hana, eñ vill na til heñar með hiartañlegre Gyrnd og Epterlangan.

Marc.9.23. Eg trwe, Herra, hialpa þu miñe Vantrw!

Lætur þa Guð ſier lijka jafnvel veika Trw ?

Ja, þa hun er ſoñ og ſkijlaus, þo hun ſie veik ; Sem þa kañ berſt að ſiaſt a þvi, að Maður hafe alvarlegt Hatur a Syndunum, og hann lange epter frekare Trwarſtyrking, jafnvel þo Dìorfung Trwareñar ſie ecke þa að fiña.

Matth. 5.3.6. Sæler eru þeir ſem i Anda eru volaðer, þvi að þeirra er Himnarijke. ꝛc. 1.Joh.3.19.

Hvaða Gagn hefur þa Maður af þeirre Trw, ſem hañ øðlaſt með Endurfæðinguñe ?

Allra ſtærſta Gagn, þvi Trwen alleina er það, ſem hondlar Chriſtum, og giører Syndarañ rettlataañ, það er, Hluttakara i JEſu Chriſti Rettlæte.

Rom. 5. 1. Með þvi vier erum nu rettlater orðner fyrer Trwna, þa høfum vier Frið við Guð, fyrer DRottiñ vorn JEſum Chriſtum.

Hvað er þa Rettlætingen ?

Hun er hiñ allra næſte Avøxtr Endurfæðingareñar, og er iñifaliñ i þvi, að ſa þrijeini Guð, af einſkiærre Naad, alyktar fyrer ſijnum Doome, eiñ ſañyðrandi og trwaðañ Syndara frijañ, bæði fra ſijnum Syndum, og þeirra forþentu Straffe, og tilreiknar honum aptr a moote Chriſti Rettlæte. Ja, hañ a-

lijtur

lijtz hañ i Christo, eins og hañ hefde aldrei syndgad. 2.Cor.5.21. Hañ hefur þañ, sem af eingre Synd visse, fyrer osz ad Synd giørt, uppa þad vier verdum i hønum þad Rettlæte, sem fyrer Gude gylder. Rom.3.28. So holdum vier nu, þad Madureñ verde rettlætur an Logmalsens Verka, fyrer Trwna alleina. Gal.2.16. Med þvi vier vitum, þad Madureñ verdur ecke rettlætur fyrer Logmalsens Verk, heldr fyrer Trwna a Christum JEsum; So trwum vier og einig a Christum JEsum, uppa þad vier verdum rettlæter fyrer Trwna a Christum, og ecke fyrer Verken Logmalsens, þvi fyrer Verken Logmalsens, verdur eckert Hold rettferdugt. Sia Rom.4.28. Phil.3.9.10. Eph.2.9.10.

Er þa soddañ ein rettlæt Sal i einu hialplegu Asigkomulage, og betra eñ adur?

Ja vissulega, þvi hun er þa komen i nænare Teingder vid þañ þrij-eina Gud, sem bijr i Hiartanu, so sem i sijnu eigeñ Mustere. Hun er þa i Christo audgud med andlegre Blessan, þeim hÿmnesku Giædum, med Ometañlegum Evangelii Tignar-Giædum, med Nadareñar og Saluhialpareñar rijkuglegum Audæfum og Fiarsiodum.

Ps.32.1.2. Sæler eru þeir, hveriam Yfirtrodslurnar eru fyrirgefnar, þeir, hverra Synder ad eru hulldar. Sæll er sa Madur, hveriam Drottéñ tilreiknar ecke Syndena, i hvers Anda þad eingen Flærd er.

Hveriar eru þa slijkar Evangelii Nadar-Gaufur?

Þær eru: Christi Rettlæte, Syndañá Fyrergefning, sonarleg Utvalning, Guds fodurleg Umsorgun, Erfda-Rettureñ, Fridr vid Gud, þad sañarlega Trwnadartraust, sætr Smeckr Guds Elsku, Adgangur til Guds Nadar, Diorfung til ad

bidia hañ, Fullvissa um̃ Naad Guds, um̃ Bæn-heyrslu og Hiaalp i allre Neyd, fierdeilis um̃ kropt-uga Guds Verndan fyrer øllum Ovinum synelegum̃ og Osynelegum, Forsmeckr þess eilijfa Lijffens, Glede i H. Anda, Stiwornan, Upplysing, Tilladan og Kraptr þess sama Anda, Frelse fraa Straffe og Yferraadum Syndareñar, fraa Guds Reide, naa Logmaalsens Bølvan og Kwøgan, fraa Satans, Helvijtis og Daudañs Magt, fraa Verøldeñe og vondre Samvitsku, og (Vissa um̃ þad) ad aller Hluter, jafnvel þær bitrustu Pijsler, skule verda Trwudum ad Goodu; Em lifande Von um̃ Saaluhiaalpena, hvar en epter fylger sw eilijfa og Owtsegianlega Glede og Dijrd i Himnenum.

Eph. 1. 3 Blessadur sie Gud og Fader vors Drottens Jesu Christi, sem oss hefur blessad med allshaattadre andlegre Blessan i himneskum Giædum, fyrer Christum.

Eph. 3. 8 Mier hinum sijdarsta allra Heilagra er gefen þesse Naad, þad eg kunngiørde medal heideña Pioodañ Oransakañlega Rijkdoom Christi.

Rom. 10. 15. Hverju frijder eru Fætur þeirra sem Fridenn boda, þeir ed boda hid Gooda.

Smackar hver eiñ Rettlætur ætijd og eins mieg þessar Naadar-Saukur ?

Nei, fierdeilis i Sorg, Freistingum og Astrijdum; Þar fyrer skal eiñ trwadur Madur leitast vid med Framsfor i Trwñe, ad tileinka sier þær med stærstu Umhyggiu, vardveita þær med Otta og Fagnade, og fáa þar af Lyst og Krapt, ad laata sier fara fram i þeirre daglegu Endurnijan, edur Helgan, sem fylgest med Rettlætinguñe.

Eph. 1. 16. - 19. Eg læt eige af Þacker ad giøra fyrer ydur, og ad miñast ydar i mijnum Bænum: Þad Gud vors Drottens Jesu Christi Dijrdareñar Fader, gefe ydur Vijsdoomsens og Opeñberingar Anda, til hañs eigen Vidurkeñingar; Og upplyse Augu ydvars Skilnings, Þad Þier meged vita, hvilijk ad sie sw Von, sem Þier erud til kallader, og hver Þar sie Rijkdoomur hañs dijrdarfullrar Arfleifdar, til hanns Heilagra: Og hver Þar sie hin yfergnæfañlega Stærd hañs Kraptar vid oss, vier sem trwum epter Verkan hañs volduga Styrkleiks. 2. Cor. 4. 3. 4.

Hvad er eigeñlega Endurnijungen ?

Hun er yduglega ad afklæda sig Þm gamla Mañe, edur læta af Syndunum, og iklædast aptur Þeim nija Manne, edur læta sier daglega framfara i Þvi Gooda, so sem i Upplysing og Þeckingu Guds, Trw, Von, Kiærleika, Audmykt, Hoogvære, Þolennmæde, Afneitan sicalfs sijns, Lysting til Bænræknes og Guds Orda, Krapte til ad standa a moote Syndeñe, og keppast epter Helgauneñe.

Eph. 4. 22. So aflegged i fra ydur epter fyrre Breitne hiñ gamla Mañen, sem sig fordiarfar i Gyrndum Villudoomsens. Eñ endurnijed ydur i Anda ydvars Hugskots, og klædest Þeim nija Mañe, sem epter Gude er skapadur i sañarlegu Rettlæte og Heilagleika.

Þvi kallast Þesse Endurnijung, dagleg ?

Þvi hun er eige strax fullkomen, eins og Rettlætingen, heldur eigum vier med daglegare Astundan ad efla hana alla vora Lijfdaga; Og Þa Þeckest Guds Mind, Siñe og Art meir og meir hia hañs endurfæddu Bornum.

Phil. 3. 12. Ecke Þad eg hafe Þad Þegar høndlad, edur

sie þegar fullkomiñ, og stunda þar epter, hvert ad eg giæte eiñig høndlad, epter því ad eg em af Christo høndladur.

Hver er sa sijdarste Velgiørningur heilags Anda vid Manneñ ?

Þad er Vidhalded, því þa hañ hefur helgad oss med Endurfædinguñe, Rettlætinguñe og Endurnijaneñe, þa vidheldur hann oss og so i allskonar Freistingum, i sañre Trw, allt til Enda, ef vier eige sollum fra mootviliuglega.

Phil. 1. 6. Sa sem i ydur hefur uppbyriad þad gooda Verked, hañ mun þad og eiñig fullkomna, allt til þess Dags JEsu Christi. 1 Pet 1. 5. Cap. 5. 10.

Hvernig vidheldur heilagur Ande þeim Trwndu ?

Med þvi hañ inñvortes sannfærer, edur aavijtar, fræder, leider, og huggar þeirra Hiørtu.

Hvad er heilags Anda Sañfæringar edur Avijtunar Embætte ?

Ad hann giører Samvitskuna vidkvæma, so ad hun kañast med sarre Tilfiñingu, jafnvel vid hinar minnstu Synder, hvar af ad kemur so sañа Hiartans Audmykt.

Joh. 16. 8. Þa Talsmadureñ kemur, mun hañ straffa Heimeñ fyrer Synd, og fyrer Rettlæte, og fyrer Doom.

Hvad er Uppfrædingar Embætte heilags Anda ?

Ad hañ, med Guds Orde, æ meir og meir opnar og upplyser Mañsens Skilning, og stadfester Sañleikañ i Hiartanu, aamoote ollum Villudoom.

1. Joh. 2. 20. 27. Þier hafed Smurningena af þeim sem heilagur er, og þeked allt. &c.

Hvad er Leidrettingar Embætte heilags Anda ?

Ad hañ med siñe heimuglegre Añvøndun og Vidvorun heldur Manne fra þvi ad syndga, enn upp-

orfar

orfar, tilladar, og hvetur hañ til beſs Gooda.
Rom.8.14. Þeir ſem Guds Ande leider, eru Guds Børn. Gal.5.16. Gänged i Andanum, þa munud þier ecke fullkoͤmna Holdſens Gyrnder.

Hvad er Huggunar Embætte heilags Anda ?

Ad hañ, ſierdeiles ꜳ Freiſtingar Tijmanum og ꜳ Neydareñar Tijma, minner eiñ Sann-chriſteñ ꜳ Guds Nꜳdar-rijka Hiꜳſtod, gefur honum ad ſmacka Evangelii Huggunar Krapt, og vidheldur honum ſo i Þoleñmæde med lifande Von.

Rom.15.13. Gud Vonareñar fylle ydur med øllum Fagnade og Fride i Trwñe, ſo ad þier hafed gnooglega Von fyrer Krapt heilags Anda.

Rom. 8.16. Sꜳ ſame Ande ber vitnesburd med vorum Anda, þad vier erum Guds Børn.

Þegar Guds Ande nu ſo helgar Meñena, og vidheldur þeim, hvad kallaſt og eru þeir þa ?

Heilager, edur heilagar Mañeſkiur. Eph.1.1. Þeim Heiløgu, ſem eru til Epheſo, og Trwudu i Chriſto Jeſu. Pſ.86.2. Vardveit þu Sꜳl mijna, þvi eg em þiñ heilagr.

Hvar er þeſſa Heilaga ad fiña ?

J þeirre heiløgu, almeñelegu, chriſtelegu Kyrkiu.

Hvad ſkilſt hier fyrer Kyrkiu ?

Ecke eitt Hws, ſem byggt er af Tre og Steinum, heldur er ſw Kyrkia eitt Samneyte, Samband og Sameining heilagra Maña i Andanum.

Eru ſoddañ Kyrkiur edur Samneyte mørg til ?

Ecke utañ ein, ſem er almeñeleg, þad er, eige bundin vid nockurt vijſt Plꜳts, heldur er hun wtdreifd um̃ alla Veroldena, hvar hun er nu ſtrijdande, eñ ſkal i Himnenum Sigre hrooſa.

Þvi kallaſt Kyrkian, Chriſteleg ?

Þvi hun medkeñer Christi Lærdoom, og hefr Christum sialfañ fyrir sitt Hofud og Herra alleina.

Er þad þa ætijd søñ christeleg Kyrkia, sem vidurkeñer Christi Nafn, og kenner sig vid hañ ?

Nei, ecke utañ hun keñe þar med Christi Ord Ofalsad, og brwke þau H. Sacramenta epter hañs Jñsetningu, og er þetta Kyrkiuñar Keñe-Teikn.

Joh. 8. 31. Ef þier blijfed vid mijna Rædu, þa erud þier mijner Læresveinar.

Verda þeir þa aller saluhoolpner, sem lifa og deya i þeirre søñu Kyrkiu ?

Nei, ei aller Limer þeirrar synelegu Kyrkiu, heldur alleina þeirrar Osynelegu verda saluhoolpner.

Matth. 22. 14. Marger eru kallader, eñ fáer Utvalder.

Eg meinte ad ecke være nema einasta ein Kyrkia, hver er þa Mismunur millum þeirrar synelegu og Osynelegu ?

Hun er eige utañ ein, eñ i þeim wtvortis og synelega Hoop eru tveñslags adskiliañleger Limer, sem eru Hræsnararner, og þeir Sañ-christnu.

Hverier eru Hræsnarar, og alleina wtvortis Limer ?

Þeir sem af einberre Medkeñing hroopa; HErra! HErra! Eñ giora ecke Vilia Fodursens, sem er a Himnum er. Matth. 7. 21.

Hverier eru sañ-christner og retteleger Kyrkiuñar Limer ?

Þeir sem i Trwñe giora Guds Vilia, so þeir halda sier vid Drotteñ, og eru eiñ Ande med honum. 1. Cor. 6. 17. Rom. 8. 9. Hver hañ hefr ei Christi Anda, sa er ei hañs.

Kañ Madur ætijd ad þeckia þessa hina sijdare fra þeim fyrre ?

DRotteñ þecker ætijd sijna, eñ fyrer Mannaña Augum er sa Mismunur ecke ætijd opeñber; Þar fyrer kallast Kyrkian Osyneleg, af þvi heñar Limer

hyliast

þylkast i þeim stoora wtvortis Hoop Hræsnaradña:

**Meiga Sann-christner hafa Samfelag med Hræsnurum ?**

Ecke i þeirra Vondsku, þvilijksosed hefr ei Samfelag vid Myrkred, ellegar Christr vid Belial; Eñ i Kauphondlan, Erfide, og aññare soddañ naudsynlegre Umgengne, geta þeir ecke komest hiaa þvi, þvi aññars yrdu þeir ad rymma Heimeñ. 1. Cor. 5. 10.

**Hafa þa þeir Sañ-christnu nockurt naukvæmt Samfelag sijn a mille innbyrdes ?**

Jaa, þvi þar þeir allir eru Limer a einum Lijkama, Greiner a einu Tre, og Born fædd af eins Fodur Sæde, þaa hafa þeir brooderlegt Samfelag og Hlutdeild i Sorg og Glede, i andlegum Giafum og Velgiorningum, i Bænum og Fyrerbeidslum, i Trwñe og Von þeirrar eilijfu Arfleifdar.

Eph. 4. 3. - 6. Vered kostgiæfner ad halda Eindrægne i Andanum, fyrir Band Fridariñs. Eiñ Lijkame og eiñ Ande, so sem þier erud kallader uppa eina Von ydar Kallanar. Eiñ Drotteñ, ein Trw, ein Skijrn, eiñ Gud og Fader allra, sa sem ad er yfer ollum, fyrer alla, og i ydur ollum.

**Getur Guds Kyrkia genged til Grunna ?**

Sw Osynelega og almeñelega Kyrkia forgengur eige, heldur verdr heñe halded vid af heñar Hofde Christo, a moote ollum Helvijtaña Portum; Þo lijdur Gud oftlega ad Tyrañar og Villu-Menn eydeleggia hana i vissum Stodum.

**Hvad er nu epter i Þridia Greinenne ?**

Þreñt, sem er: Syndaña Fyrergefning, Holdsens Upprisa, og þad eilijfa Lijf.

**Hver fyrergefur Syndernar ?**

Sialfur Gud, sem Synden er drijgd a moote.
Marc. 2. 7. Hver mä Syndernar fyrergefa, nema Gud einn.

Hvad er, ad fyrergefa Syndena ?
Pad er, ad afmaa og burttaka alla Syndareñar Sekt og Straff, so at Syndareñ reikneſt ſo fyrer Rettlaataañ, sem aldreige hefde hañ syndgad.
2.Sam. 12.13. DRotteñ hefur i burtteked Þijna Synd, Þu skalt ecke deya.

Vill Gud a Þañ Hatt fyrergefa Syndena ?
Ja, so oft sem nockur umvender sier og trwer Evangelio, vill Gud fyrergefa honum Syndena af einskiærre Naad, fyrer Christi Verdskuldan, hver ed med sijnu Bloode a Krossenum hefur fullu bætt fyrer allar Veraldareñar Synder.
Eph. 1. 7. J hverium vier høfum Endurlausnena fyrer hañs Blood, sem er Syndaña Fyrergefning.

Hverium Mønum vill Gud fyrergefa Syndena ?
Øllum sañ-ydrande og trwndum Saalum, enn eige Þeim ydrunarlausu og vantrwudu.
Post.G.B.2,38. Giøred Yferboot, og hver ydar eiñ. late skijra sig i Nafne JEsu Christi, til Fyrergefningar Syndaña. Ezech.18.21.22.

Hveriar edur hvad margar Synder vill Gud fyrergefa ?
Allar Synder, Þær stærstu, aasamt med Þm smærstu, Þaa Syndareñ snyr sier ad eins af Hiarta.
1.Joh. 1.7. Ef vier gaungum i Lioosenu, lijka sem hañ sialfur i Lioosenu er, Þa høfum vier Samfelag iñbyrdes, og Blooded JEsu Christi hañs Sonar, hreinsar oss af øllum Syndum.

Med hveriu Medale veiter Gud Mønnum Fyrergefning Þeirra Synda ?

Med sijnu heilaga Evangelio, hvert hann hefur gefed Magt og Myndugleika til sijnum Þienurum ad predika hier a Jordunne, i sijn Stad, fyrer ollum Ydrande, til Syndana Fyrergefningar.

Luc.24.47. Ad predika lata i sijnu Nafne Ydran og Syndana Fyrergefning, a medal allra Þiooda.

Hvert er þad Medal a vora Sijdu, fyrer hvert vier oðlunst Syndana Fyrergefning ?

Eckert anad en Trwen, sem medtekur Christum, og i honum Rettlæted, af einskiærre Naad.

Post.G.B.13.38.39. Ydur bodast fyrer þennan, Syndana Fyrergefning, og af ollu þvi, af hveriu þier gatud eige rettlater vorded i Mosis Logmaale; En hver han trwer a þennan, sa er rettlatur.

Þienar ecke þesse Lærdoomur, um Fyrergefning Syndana, til Andvaraleyses ?

Marger ad sonu misbrwka han þar til, og falla i þvi stærre Fordæming; En Guds Born upporfast vid þessa Naad, til Elsku-fulls Þacklætes og en meire Guds Otta. Ps. 130. 4. Ð hia þier er Fyrergefningen, so ad Men Ottest þig.

Hvad er Lijkamans edur Holdsens Uppprisa, sem Þridia Greinen hondlar um framvegis ?

Ad, fyrer Guds Krapt, samteingiast aptur a þeim effsta Dege Lijkamer allra þeirra Daudu Saalununa, sem þær bigguu i adur, og uppriisa sumer til eiliifrar Glede, en sumer til eilijfrar Pijnu.

Joh.5.28.29. Su Stund mun koma, a hverre þad aller þeir sem i Grofunum eru, skulu heyra hanns Rodd. Og þeir munu þa framganga sem gott giordu til Lijfsens Uppprisu, en þeir sem illa giordu til Doomsens Uppprisu. Joh.6.40. Dan.12.2.

Getur þetta mögulega skied ?

J. Ja, þvi Gude, sem af eingu skapade Jordena, og skap̃ fyrsta Man̄ af Jordunne, er eingeñ Hlutur Omögulegur. Luc. 1. 37.

Er naudsynlegt ad trwa Uppris̃n þeirra Dauðu ?

J. Ja, fyrer Saker Guds Rettlætes, sem bæde launar og straffar; Þvi til þess horfer bæde Von þeirra Trwudu, og Skelfing þeirra Oaudlegu. 1. Cor. 15. 13. 14. Ef Upprisa Framlideña er ecke, þa er Christur og ecke uppriseñ. Enn ef ad Christur er eige upp aptur risenn, þa er vor Predikun Onijt, þa er og ydar Trw Onijt.

Munu Lijkamerner i Upprisuñe verda eins a sig komner og hafa sömu Eigeñlegleika sem nu ?

Nei, þeir munu þa hafa andlega Eigeñlegleika, og vera Odaudleger, Oforgengeleger, hæfer til ad medtaka, annadhvert himneska Glede, edur Helvijtes Pijsler eilijflega.

1. Cor. 15. 42. 43. 44. Þad verdur sáid náttúrlegur Lijkame, eñ mun upp aptur rijsa andlegur Lijkame. etc.

Hvert fara þeir upprisnu Lijkamer hiedan̄ med Sálunum ?

Epter þad þwed er ad halda Doomeñ, fara þeir Fordæmdu i eilijfann Helvijtes Eld, Kvaler og Pijnu, enn þeir Utvöldu i þad himneska, eilijfa og sæla Lijf. Matth. 25. 34. 41. 45.

Hvad er þad eilijfa Lijf ?

Eitt fullkomed Samfwæme med Gude, þa þeir Sálu hjoolpnu, a Sálu og Lijkama fullkomlega frijader fra Syndeñe og ollu illu, niota Dendan̄legs og Oumrædelegs Fagnadar, Fridar, Glede og

Vegsemdar, og lofa Gud med ollum wtvoldum Englum Oaflœtañlega. Ps.17.15. 1.Cor.13. 12. 1.Thess.4.17. Rom.2.6.7.

Hvad er sa eilijfe Daude ?

Skamarlega og Angistar-full Utskwfun fra Sælu Guds; Eñ i heñar Stad gniistande og brennande Elds og Orma Kvol a Saalu og Lijkama. Matth.25.41. Fared burt fra mier bølvader i eilijfañ Eld, þañ fyrerbwen er Fiandanum og hañs Arn:n.

Hverier komast i Helvijtes eilijfañ Dauda og Pijnu ?

Aller sem lifad hafa i Syndunum af aasettu Raade, og eru i Ydrunarleyse, Vantrw, Andvaraleyse, og raungre Ætlan um Guds Raad burt dauder; Og þeir kallast eilijflega wtskwfader fra Gude.

Hvad er þesse Utskwfan ?

Ad sa alvijse Gud, hefur, ecke af nockru fortakslaust aasettu Raade, helldur vegna Mannañá eigeñ mootþrooañlegrar Þvermoodsku, alyktad, ad wtskwfa þeim, og fordæma þa alla, sem hann hefur fra Eilijfd fyrersied, ad hañs Raad vildu sijfeldlega ecke siña, helldur forsmaa, og blijfa i þeirra Ydrunarleyse og Vantrw til Enda.

Joh. 3. 18. Hver ai hañ trwer, dæmest eige, eñ hver hañ trwer eige, hañ er nu þegar dæmdur, þviad hañ trwde eige a Nafn eingeteñs Guds Sonar.

Hverier verda hluttakande i Glede og Sælu eilijfs Lijfs ?

Aller þeir sem sannarlega hafa trwad a Christum, lifad christelega, og stađed i þvi stoduger allt til Enda; Og þeir kallast wtvalder.

Hvad er Utvalningen ?

Ad Gud hefur til-ætlad alla þaa til eilijfs Lijfs, sem hann hefur fraa Eilijfd fyrer sied ad mundu vilia medtaka þaa frambodnu Naad, trwa a Christum, og i þeirre Trw stoduger standa til Enda.

Rom. 8. 28-30. Vier vitum, ad þm, sem Gud elska, þiena aller Hluter til hins besta, þeim sem epter Fyrerhyggiune kallader eru. Þviad hveria hañ hefur aadur fyrerhugada, þa hefur hañ og tilskickad, þad þeir skyldu verda samlijker hañs Sonar Jmind, so ad hañ siaalfr sie Frumgetningur a medal margra Bræðra. Eñ hveria hañ hefur fyrerhugada, þa hefur hañ og kallad, eñ hveria hañ hefr kallad, þa hefur hañ og rettlæta giordt, eñ hver:a hañ hefur rettlætta, þa hefur hañ og dijrdarlega giordt.

# Ut af Drotteñlegre Bæn.

Hvad er ad vera ydugleg Ydkun eins trwads christeñs Manns ?

Ad hafa sijna Umgengne med Gude i Bæneñe og heilögum Hugleidingum, vidlijka sem þaa Madur umgengst og talar einlæglega vid Vin sinn Psalm. 19. 15. Eph. 6. 18.

Hvad er þad ad bidia ?

Þad er, ad tala einfaldlega vid Gud i sijnu Hiarta, wtausa siñe Epterlaangan fyrer honum, kvarta fyrer hm um sijnar andlegar og lijkamlegar Naudsyniar, og af iñsta Grunne Saalareñar, fara einhvers a Leit med alvarlegre Laungun hia honum. 1. Tim. 2. 13.

Hver a so ad bidia ?

Aller Menn, og jafnvel Smaabornen. Ps. 8. 3. Þvi þad er eige alleinasta ein Skylda sem befolud er i Ødru Bodordenu, og annars oftlega, ad oss hæfer

hæfer ad bidia, heldur er þad og eiñig ein Nad og Velgiorningur, ad vier audvirdeleger og Ohreiner meigum og þorum ad bidia. Luc. 11. 1. 13. Cap. 18. 1. 8. Ps. 50. 15.

Geta þa aller Meñ beded so ad Gude sie þægelegt?

Nei, ecke þeir Ydrunarlausu, þvi þeirra Bæn er Gude Andstygd; Heldur þeir sem añadhvert eru umvendter, edur eru a Umvendunar Vege.

Joh. 9. 31. Vier vitum ad Gud heyrer eige Syndugа, heldur þad, ef nockur er Guds Dijrdkare, og giører epter hanns Vilia, þann heyrer hann.

Hvern a Madur ad tilbidia?

Alleina þañ þrij-eina Gud, sem alleinn kañ ad bænheyra og veita þad sem vier epter Oskum.

Hvar a skal Madur byggia sijna Bæn?

A JEsu Christi Forþienustu og Fyrerboon hia Fodurnum. Joh. 16. 23. Sannlega, sannlega sege eg ydur, ef þier bidied Fodureñ nockurs i mijnu Nafne, þa mun hann gefa ydur þad.

Hvernig a Madur ad bwa sig til Bænarennar?

Madr skal i hiartaülegre Jdran, taka fyrer sig einlægañ Asetning ad vilia þioona Gude, og mootstrijda alvarlega allre Synd, venda sijnu Hiartalage fra veraldlegum Hlutum, þenkia um sijna stooru þreyngiande Naudsyn, setia sier fyrer Siooner, ad sa heilage og myskunsame Gud er þar nalægur, og snwa so, med Andvorpunum um Bænareñar Anda, allri siñi Saalar Eftirlaungun til Guds, so sm til eins rijkuglegs Uppsprettu Bruñs allrar Giædsku.

Hvernig a vor Bæn og Samtal vid Gud ad vera løgud?

Hun a ad skie i sonarlegu Trauste, med Gudrækne,

ne, Audmykt og forlijkunarsömu Hiartalage. Þar af verdur eiñig ad koma Audmykt og Lotning i Lijkamans Skicke og Hœttalage, fyrer þeim allsmegtugasta Gude, eins og giorde Guds eigeñ Sonur, og Heilagra Dœme eru til. Ps. 95. 6. Komed, latum oss tilbidia og nidurkriwpa og framfalla, fyrer þeim DRottne sem oss hefur giørdt. 1. Tim 2. 8. So vil eg nu, þad Meñerner bidie i øllum Stødum, og uppheſie heilagar Hendur, aan Reide og Örvijnglunar.

Hvenær og hvar aa Madur ad bidia?

Alltijd og allstadar, helldst i Einrwme.

Luc. 18. 1. Hañ sagde eina Epterlijking til þeirra þar uppaa, ad Meñ skyldu jafnañ bidia og eige aflaata.

Matth. 6. 6. Nær þu bidst fyrer, þa gack iñ i þitt Svefn-Hws, og lyk Dyrunum aptur, og bid þu Fødur þiñ i Leynum, og Fader þinn sa i Leynum sier, muun þier þad opeñberlega aptur gialda.

A Madur ad bidia epter Bænabookunum alleina?

Lijka af Hiartanu og med eigeñ Ordum.

Geta Børn og einfaldt Foolk vel wtskijrt sijna Hiartans Þanka med sijnum eigeñ Ordum?

Jaa, þvi vid Gud kañ Madur ad tala, eins, og einfaldlegar eñ vid Meñena, og þar, ad auke gefur hañ sijnum Børnum Naadarennar og Bænarennar Anda. Zach. 12. 10. Rom. 8. 15. 26.

Hvad margslags er þa Bænen?

Tveñslags: Sw iñvortis, þa Hiartad talar alleina i Andvarpan og Eftirlaungun, og hoogværlega upplyfter sier til Guds; þetta kallast ydugleg Bæn, er bæde maa og aa ad hafa i frame midt i Erfide og Umsvifum. Sw wtvortis, þaa Muñureñ talar af Nægd Hiartans, og aa vissum Tijmum framber

sijna

ſijna Þænka og Efterlænganer med Ordunum.

Pſ. 19. 15. Lat þier þocknaſt Ordrædur mijns Munns, og Mæled mijns Hiarta fyrer þier: Drottenn minn Frelſare og minn Endurlauſnare.

Pſ.5.5.17.18. Eg vil akalla til Guds, og mun Drotten hiaalpa mier: Um̃ Kvølld, Morgna og Middege vil eg kveina og grata, þa mun han heyra mijna Rauſt.

Dan.6.11. Daniel fiell a ſijn Knie þriſvarſin̄um a Degenum, badſt fyrer, lofadr og þackade ſijnum Gude.

Pſ.119.164. Pſ.38.10. Eſ.29.13.14.

Eigum vier alleina ad bidia fyrer ſialfum oſs ?

Nei, vier eigum ad bidia fyrer øllum, og þo þad være vorer Oviner; En̄ ſier i lage eigum vier ad bidia fyrer Yfervalldenu, fyrer Ken̄efedrunum, ſo og fyrer vorum andlegum Brædrum og Syſtrum.

Jac.5.16. Bidied hver fyrer ødrum, þad þier heilbrygder verded. Matth.5.44. Bidied fyrer þeim er ydur giøra Skada og Offookn veita.

Um̃ hvad eigum vier ad bidia ?

Ecke alleinaſta um̃ lijkamlegar Saker, ſo ſem Uppheldi, Frid, Heilbrygde, hvers vier eigum ad bidia med þvi Fororde: Ef þu villt, DRotten̄! Helldur ſierdeiles um̃ andlegar Saker, ſoſem: Fyrergefning Syndanna, Styrk Trwarennar, hreint Hiarta, goodan̄ Underbwning til Daudans, og eilijfa Saluhiaalp. Þo hæfer ecke an Forords ad bidia um̃ þær andlegu Sakurnar, ſem ecke eru alldeiles naudſynlegar til Saluhiaalpar, ſo ſem, ad komaſt framar i andlegt Volæde, finna hiaa ſier ſtoora Dirrfung Trwaren̄ar, edur mikla andlega Glede, og ſo fleira. Matth 6.9. Luc.11.1.

Hver er ſu allra fullkomnaſta og betſta Bæn ?

Sw heilaga Bæn, Fader vor, sem JEsus siælfur hefur keñt siinum Læresveinum og ollum oss ad bidia med. Matth. 6. 9-13. Luc. 11. 2. 4.

Hvernig sundurdeilest þesse DRottenlega Bæn ?

J Jñgangeñ, Sio Bænernar, og Nidurlaged.

Hvad er Inngangureñ ?

Pad orugga Trwar Andvarp: Fader vor, þu sem ert a Himnum.

Þvi verdur Gud avarpadur i Bæneñe sem eiñ Fader ?

Gud vill med þessu Fodur Nafne tilleida oss og locka, ad vier trwa skulum, ꝛc.

Kuña þeir Ydrunarlausu ad hafa þad Trwar-Traust, ad kalla Gud a Himnum siñ Fodur ?

Hañ er ad sonnu allra Fader epter Skopunenne, Vidhaldenu, og hañs nadarsamlegum Vilia til ad umvenda þeim, og frelsa þa; Þo kuña þeir Ydrunarlausu ecke ad kalla hañ Fodur, so leinge sem þeir ecke endurfædast, og odlast eiñ sonarlegañ Anda, þvi añars er þeirra rette Fader i Helvijte.

Joh. 8. 44. Pier erud af Fodurnum Fianda, og epter Gyrndum ydar Fodurs þa vilied þier giora.

Hver kañ þa ad kalla Gud, Fodur siñ ?

Pau endurfæddu og sonnu Guds Born, jafnvel þo þau sieu veik. Gal. 4. 6. Med þvi þier erud Born, hefur Gud sendt Anda siins Sonar i ydar Hiortu, kallande, Abba, kiære Fader.

Hvar fyrer er sagt: Fader vor; Eñ ecke: Fader miñ ?

Þvi sierhver christeñ Madur a ad bidia i Eininngu Andañs og Nadareñar, med hinum Odrum, og fyrer hinum Odrum, so sem fyrer siælfum sier.

Hvar fyrer kollum vier Gud Hañ Fodur, sem er

a Himnum ?

Til ad upplypta Hiartanu, og þvi heldur ad uppörva Virdingarfullt Trwnadar Traust til þess allra Hærsta, sem sier og megnar alla Hlute.

Matth. 6. 32. Ydar himneskur Fader veit (ad) þier þurfed alls þessa vid.

Eru margar Bæner i Fader vor ?

Sio, af hveriumFioorar þær fyrstu hlijda uppa þad Gooda, sem vier bidium um, en þriar siidare hlijda uppa þad Illa, sem vier afbidium.

## Ut af Fyrstu Bænene.

Hvad merker Guds Nafn ?

Hans Eigenlegleika, Ord, Sacramenta, og allt þad sem honum sierdeil's tilheyrer. Sia 2. Bodord.

Verdur þetta Guds Nafn heilagra, af þvi ad vier bidium þess ?

Guds Nafn er sannarlega i sialfu sier heilagt, enn vier bidium hier, ad þad mætti og so hia oss helgast.

Hvernig helgast Guds Nafn ?

Þa Guds Ord kenest klaart og hreint, og vier ꝛc.

Matth. 5. 16. Latted so ydvart Lioos lysa fyrer Mönnunum, so ad þeir siae ydar Goodverk, og dijrdke Fódur ydar a Himnum.

Hvernig verdur Guds Nafn vanhelgad ?

Med raungum Lærdoome, og Ogudlegu edur Hræsnes-fullu Lijferne; Þvi hver sem odruvijse kener edur lifer, ꝛc. Rom. 2. 23. Þu hroosar þier af Logmaalenu, og vanvirder Gud fyrer Yfertrodslu Logmaalsens. Ezech. 36. 22. 23.

Kan einn ydrunarlaus Syndare rett ad bidia med þessare Fyrstu Bæn ?

 Nei,

Nei, ecke af sañarlegu Hiarta, þvi hañ er sialfur sa sem laſtar og vanheidrar þetta heilaga Nafn.

## Ut af Añare Bæneñe.

Er Guds Stioornan edur Rijke margfaldt ?

Þrefaldt, sem er: 1.) Nattturuñar Rijke, i hveriu hañ med sijnu Almætte stioornar ollum skopudum Hlutum epter sijnum Vilia.

2.) Nadar Rijke, þad er Kyrkian, edur Samneyte Heilagra, hvar hañ stioornar sijnum trwudum Bornum fyrer sinn heilaga Anda i Ordenu og Sacramentunum.

3.) Er Dijrdarennar himneska Rijke, i hveriu þeir sem Christo tilheyra, skulu eilijflega rijkia med honum i fullkomeñe Sælu og Glede.

Um hvert af þessum Rijkium bidium vier i Añare Bæneñe?

Um Nadareñar og Dijrdarennar Rijke.

Hvernig kemur Guds Rijke til vor ?

Þegar vor himneskur Fader gefur ofs siñ 2c.

Kañ eiñ ydrunarlaus Syndare vel ad bidia med þessare Añare Bæn. ?

Nei, ecke af sañarlegu Hiarta, þvi hañ er hræddur vid heilags Anda Stioornan, amast vid Guds Rijke, og lifer af Asetninge i Satans Rijke.

Hefur Satan þa lijka eitt Rijke ?

Ja; þessarar Veraldar Gud og Hofdinge er kroptugur i Bornum Vantrwareñar, og under hañs Stioornan standa aller sem eige eru endurfædder, allt þangad til þeir umvendast.

Col. 1. 13. Sa ed ofs hefur frelsad af Myrkvalde Myrkrañs, og hefur ofs iñsett i Rijke sijns elskulega Sonar.

Hvar

Hvar af þeckiast þeir sem eru i Diøfulsens Rijke ?

Þar af, ad þeir þioona Syndeñe, og giøra Diøfulsens Vilia, so sem være hañ þeirra Herra.

1.Joh.3.8. Hver sa Syndena giører, er af Diøflenum.

## Ut af Þridiu Bæneñe.

Hvad er Guds Vilie ?

Guds Vilie er vor Helgan fyrer Trwna og Kiærleikañ, epter Logmaalenu og Evangelio.

1.Joh.3.23. Þetta er hañs Bodord, þad vier trwum a Nafn hañs Sonar JEsu Christi, og elskum hver annañ, so sem þad hañ gaf oss Bodorded.

1.Thess.4.3. Þad er Vilie Guds, ydar Helgan.

Skedur þesse Guds Vilie alltijd og hia øllum ?

Nei, þvi þar sem Guds Rijke kemur ecke til, þar skedur ecke hanns, heldur Diøfulsens, Heimsens og Holdsens Vilie.

Hvernig skedur þa þesse Guds Vilie ?

Þegar Gud hindrar øll ill Raad og vondañ V. ꝛc.

Getur þa Vilie Mañsens ecke neitt Gott, ef hann maa vera sialfraadur ?

Nei, þvi vors Holds Siñeslag er Fiandskapur i gegn Gude; Hverke þeckium vier þad sem oss er reyndar nytsamlegt, nie høfum Rænu a, ad leita þess, nema Gud upplyse vorn Skilning, og hneige vorn Vilia til ad leggia oss under þad sem hañ vill vera laata, þvi hañs Vilie alleina er Vijsdooms-fullur, goodur og fullkomeñ.

Getur Guds Vilie sked hier a Jørduñe af Møñunum, eins og hañ skedur a Himnum af Englunum ?

Ja, þo hañ verde eige so fullkomlega, þaa getur

hañ ſked ſamt med ſo hiartanlegre Einlægne, med Glede og Alvorugefne.

Er þad ovog ad vier i Hlijdneſſe giørum Guds Vilia ?

Nei, oſs byriar og ſo ad lijda þoleñmoodlega þad ſem Gud vill vera laata, og gefa oſs oldungis und er hans Hond, lijka ſem einn Siwkur leggur ſig i Læknarans Hendur. 1. Sam. 3. 18. Eli ſagde: Hañ er DRottenn, hañ giører hvad hønum er þeckt.

Geta Veraldarcñar Børn med ſañarlegre Hiartans Alvøru beded med þeirre Pridiu Bæn ?

Nei, þvi þau ſtrijda af Aſeininge moote Guds Vilia, og vilia ad hañ hage ſier epter þeirra daar legum Vilia, og ſyndſamlegu Siergiæde.

## Ut af Fioordu Bæneñe.

Hvad ſkilſt fyrer daglegt Braud ?

Allt þad ſem vier med þurfum til þeſſa Lijfs Biargar, ꝛc. Og er eige alleina beded um̃, ad vier meigum ødlaſt þetta, heldur ad þad meige bleſſaſt oſs.

Þvi kallaſt allt þetta Braud ?

Þvi Brauded er þad almennaſta og naudſynlegaſta Medal, til Lijkamans Biargar og Uppheldes.

Hvers vegna bidur þu um̃ daglegt Braud ?

Þvi eg æ ad vera ænægdur med naudſynlegt Uppshelde, æn þ[..]s ad keppaſt epter yfirflootannlegu. 1. Tim. 6. 8. Nær vier høfum Fæde og Klædnad, ſo laatum oſs nægia.

Þvi er tillagdt þetta Ord: J Dag ?

Þvi eg mæ ei ala Oñ añars Morguns, heldur laata hverium Dege nægia ſijna Piæning. Matth. 6. 34.

Þvi ſeger þu: Gef oſs vort Braud ?

Vegna

Vegna þess vier iñelykium eiñig vorn Naunga i Bæneñe, lijka þess vegna, ad vier eigum ad bidia, ad vier mættum eta vort eiged Braud, eñ ecke stoled Braud med Ranglæte og Lete, af hveriu ordsakast ad ganga a Vonar-Vøl.

2.Theß. 3. 12. Slijkum bioodum vier og aminñum þa fyrer vorn Drotteñ JesumChristum, þad þeir erfide med Spaklæte, og ete sitt eiged Braud. 1.Theß. 4. 11.12.

A þa sa sem bidur uñ daglegt Braud ad erfida lijka fyrer þvi ?

Ja. 1. Mos.B. 3. 19. J þijns Andlites Sveita skalltu neyta þijns Brauds.

Ma hiñ Rijke þa ecke vera ølldunges ydiulaus ?

Nei, fyrst hañ vill eta, þa a hañ ad erfida, þad er, giora nockud Gott, hvad sem vera kañ, til Dijrdar Gude, og Gagns Naunganum.

1.Pet.4.10. Pioone hver ødrum, hver eiñ med þeirre Giøf, sem hañ hefur ødlast, so sem gooder Forstioornar-Meñ margvijslegrar Guds Naadar.

## Ut af Fimtu Bæneñe.

Hvad fyrer Skuld edur Giald er þad, sem vier bidium Gud ad fyrergefa oß ?

Vorar Synder med þeirra forþientu Straffe, tijmañlegu og eilijfu.

Vill Gud fyrergefa þa Skuld an Betalings ?

Christur hefur betalad þañ sijdarsta Peninq fyrer oß, sñ ei kuñum siafler betala, þar forer bidium vier i hañs Nafne uñ Naad og Fyrergefning.

Hefur Syndareñ Þørf ad bidia daglega uñ Fyrergefning Syndaña, þegar Gud hefur einusiñe teked hañ til Naadar ?

Ja, lijka so sem vier þurfum daglega Brauds

 vid,

vid, so þurfum vier og lijka Naadar og Fyrergefn- ingar med; Þvi vier, þvi midur! syndgum dag- lega af Breiskleika, jafnvel þo Guds Born syndge eige framar af Asetninge edur Illgyrne.

Ps. 19. 13. Hver kan ad formerkia hversu opt han misgiorer? Fyrergef þu mier min heimuglegan Brest.

Hveriu lofum vier Gude i þessare Bæn, þa vier leitum Fyrergefningar til hans ?

Ad vier aptur a moot vilium fyrergefa og forlaata vorum Skuldunautum, þad er, odrum Monnum, sem broted hafa i moote oss, jafnvel þo vier forþien- um ecke þar med af Gude Syndanna Fyrergefning.

Col. 3. 13. Umlijded hver annan, og ef ad nockur hefur Klogu-Maal moot odrum, þa fyrergefed þad hver odrum innbyrdes, lijka so sem Christur hefur fyr- ergefed ydur, so skulud þier einig.

Luc. 6. 37. Fyrergefed, so munu ydur fyrergefed verda. Kan þa sa Hatursfulle og Hefndargiarne ad bidia med þessare Fimtu Bæn sier til nockurs Gagns ?

Nei, þvi med þvi þad er eige satt ad han fyrergefe þeim sem giordt hafa honum i moote, þa bidr han, ad Gud vilie ecke heldur fyrergefa sier sijnar Synder, og þad skedr eige heldur; Enn Reide Guds blijfur yfir honum, lijka so sem Reide hans yfir Naunganum.

Sir. 28. 1. 2. Hver sig sialfur hefner, a þeim mun DRotten aptur hefna, og honum einig hans Synder aptur halda. Fyrergef þijnum Naunga, þad sem han hefur misgiordt vid þig, og bid sijdan, so munu þier og lijka þijnar Synder verda fyrergefnar.

Matth. 6. 15. Ef þier fyrergefed ei Monnunum sin Brest, þa mun ydar Fader ei fyrergefa ydur ydar Brot.

## Ut af Siøttu Bæninne.

Freistar Gud nockurs Manns ?

Hañ er ecke einn Freistare til þess Vonda, Þvi þad er mootstædelegt hañs Heilagleika. Jac. 1,3.

Eru þar þa meir eñ einslags Freistingar til ?

Ja, sumar eru af Gude til goods; Eñ hinar til ills, eru af Dioflinum, Heimenum, og voru eigiñ Holde.

Hvad eru eigenlega þær Freistingar sem koma fra Gude ?

Þær eru nockurskonar viist Asigkomulag, andlegt edur lijkamlegt, sem Gud lætur Meñ i rata, til þess ad reyna þa, og lata sia, hvert i þeirra Hiarta er soñ Trw, Kiærleike edur Poleñmæde.

Seig þa nockud til Dæmes uppa soddañ Freistingar ?

So reyneft og freistast sa Rijke, med sijnum Rijkdoome, hvert hañ sie myskunsamur; Sa Fatæke, mz siñe Orbyrgd, hvert hañ sie anægdr; sa Megtuge, med siñe Magt, hvert hañ sie lijtelatur; Sa Vesæle, med siñe Eymd, hvert hañ sie Poleñmoodr; Sa sem hverke sier nie fiñur Huggun, er þar med reyndur, hvert hañ gete trwad, eingu ad sijdur.

Þecker Gud ecke añ þessa Hiarta Mañsens ?

Ad vijsu þecker Gud hañs iñstu Þanka aleingdar; Eñ hañ vill Madureñ verde sialfum sier og ödrum rett kuñugur. Joh. 6. 6. Þetta sagde hann, af þvi ad hñ vilde reyna hañ, þviad hañ visse vel, hvad hañ vilde giöra. Sia Epterdæme Abrahams. 1. Mos. B. 22. 1. rc. Jsraels Foolks i Eydemörkuñe. 2. Mos. 16. 4. Ezechiæ. 2. Chron. 32. 31.

Bidium vier þa i Siöttu Bæneñe, ad Gud freiste vor aldeiles ecke ?

Nei, þvi þad er oss optlega miög nytsamlegt. Jac. 1. 2. 3. Brædur mijner elskañleger! Reikned þad

fyrer

fyrer allañ Fögnud, nær þier i margvijslegar Freistingar falled, og vited, þad ydar Trw verkar Þoleñmæde.

Hvad er þa Meining þessarar Bænar ?

Ad sialfur Gud vilde eige freista vor fram yfer vort veika Megn; Heldur audsyna sig trwfastañ, og gefa soddañ Enda a Freistinguñe, ad vier kauni þolad; Og þa hañ lijdur þad, ad verer Ovíner freista vor, þa setie hañ þeim rett Takmork.

Hverier eru þeir Ovíner, sem freista vor til hins Vonda ?

Þeir eru: Diofulleñ, Heimureñ, og vort eiged Hold og Blood.

Hvernig freistiunst vier af þessum vorum Saluhialpar Ovinum ?

1.) Diofulleñ, sa rette Freistare, iñskytur vondum Hugreñingum, eins og odrum glooande Piilum. Joh. 13. 2. Diøfulleñ hafde sendt i Hiarta Judæ Simonis Ischarioth, ad hañ svike JEsum.

2.) Heimureñ, edur Heimsens Born, freista med Ognan, Tillockan, hneixlañlegum Epterdæmium og illum Muñrædum, sem spilla goodum Sidum.

Ordskv. V. 1. 10. Son miñ, þegar iller Skaalkar locka þig, þa fylg þeim ecke.

3.) Vort Hold og Blood, eda ill Nattura, sem hinn nalægaste og hættfasamlegaste Ovin, freistar vor med illum Gyrndum og Lystingum, sem i Hugañ koma. Jac. 1. 14. Hver eiñ freistast, nær hañ tilteigest af sine eigen Gyrnd og lockadur verdur.

Hvad a sa ad giora, sñ freistadur verdur til þess Vonda ?

Hañ skal vaka, bidia, og strijda med þeim andlegu Hervopnum, moote þessum hættalegu Ovinum.

Eph. 6. 16. 17. 18. Umfram alla Hlute, þa handled

Trwareñar Skiøld, med hverium þier kuñed wt ad slöckva øll eldleg Skeyte þeß eitrada Ovinar; Og griiped Hialm Hialpræðesens, og Sverd Andañs, hvert að er Guds Ord, og biðied yduglega i allreNaudþurft, með Bænum og Beidne i Andanum, og þar til vaked með ollu Stadfeste og Akalle fyrer Heilgum.

Er ecke Vantrw, edur hædeleger Þankar og Hugsauer uñ Gud, hattkasamlegar Freistingar af Diofleuum og Mañsens Hiarta ?

Jw, eñ sierhver Trwadur, sem hefur Andstygd a þvi, og striider þar a moote, af fremsta Megne, maa hugga sig þar vid, að Gud sier honum er það eige i Sialfræde, heldr er það ein saarleg Piuning, sw er og að siidurstu verdr til Saaluh'alpar Nota.

Getur Madur eige sialfur leidt sig i Freistne ?

Jw, þaa hañ ei flyr og fordast allt Tækefære til þeß Jlla, heldur les skadlegar Bækur, umgengst ugglaust með Heimsens Bornum, edur tekur sier, frañ yfir sittEmbætte, þaa Hlute fyrer Hendur, siñ kuña að lada hañ til Synda og hueixla hañ.

Hvad er Hneixle ?

Ein Asteiting, sem liggur i Vege fyrer vorre Saalu, og kañ að verda henne til Falls.

Er Hneixled marg slags ?

Tveñslags. 1.) Gefed Hneixle, siñ adrum verdur gefed, með syndsamlegum Ordum, Atvikum, Athøfnum; Forsoomun þeß sem gioraft skal, edur og með Misbrwkun siña Friiheita, sierdeiles þaa það skedur af þeim, semi þeim þremur Hofudstiettum eru yfer adra bodner til goodrar Fyrermindunar. 2.) Teked Hneixle, sem raanglega er teked af þvi siñ

er saklaust og gott. Matth. 18. 7. Vei sie Heimenum fyrer Hneixlaner. 1. Cor. 8. 13. Rom. 14. 13. ꝛc.

Matth. 15. 12 ⸗ 14. Þa gengu hañs Lærsveinar ad honum, og sǫgdu: Veitstu, ad þa er þeir Pharisæi heyrdu þad Ord, hneixludust þeir? Eñ hañ svarade og sagde: Øll Plantan, hveria miñ himneskur Fader plantar eige, mun upprætast. Lated þa fara, þeir eru blinder og blindra Leidtogarar, e; blindur leider añañ blindañ, þa falla þeir bæder i Grǫfena. Joh. 6. 60. 61.

## Ut af Siøundu Bæneñe.

Er margslags þad Jlla, sem vier hier afbidium ?

Fernslags, nefnelega: So miked sem æhrærer Sælu, Lijf, Æru og Gootz; Og þar Diǫfulleñ er illur, jæ, Ordsǫk til alls hins Jlla, þæ bidium vier og i þessare Bæn moote honum.

Hvad er Jllt, sem snerter og skadar Sælena ?

Siælf Synden, sem er Root alls Jlls, naganðe Samvitska, Forherding, Orvijnglan, og eilijf Helvijtes Angist.

Hvad er Jllt, sem snerter og skadar Lijkamañ ?

Allrahanda Siwkdoomar, og adrar tilfiñanlegar særar Kvaler, af Hungre, Kulda, Fangelse, Landflootta, og ødru þesshættar.

Hvad er Jllt, sem snerter og skadar Æru vora og Gootz ?

Kan tijmannlegra Andæfa af Ovinum edur Þioosum, Elds⸗Brune, Vatns⸗Vode, svijvirdelegur Armoodur, Hæduna og Skoñ.

Hvad eigum vier helldst ad afbidia af ollu þessu Jlla ?

Þad sm Jllt er, æhrærande Sælena; Þvi ef vier hofum Frid vid Gud i eiñe goodre Samvitsku, þa

kuñum

kuñum vier ad hughreysta oss i ollu odru Mootlæte, þvi þad er þad fyrst eiñ heilsusamlegur Kross.

Af hveriu er Krossen heilsusamlegur ?

Þvi hann niderdempar Syndena, Siaalfrede Holdsens, og Elskuna til Heimsens; Uppvek Epterlaungun epter þeirre himnesku Roosemd, æser, reyner og styrker Trwna, og hennar Avexte, Bænena, Yfirvegan Guds Orda, Audmykt, Poleñmæde, Reynslu og Vonena; Hañ lætur Guds Raad og Almætte merkiast i vorum Breiskleika, giorer oss samlijka JEsu Mind, og leggur so Vegeñ til þess stærre Vegsemdar. Post.G. 14.22. Oss byriar fyrer margar Hrellingar in ad ganga i Guds Rijke.

Eru ei þeir Ogudlegu tijdum Krossberendur ?

Nei, eingeñ er Krossberare, nema þess krossfesta JEsu Epterfylgiare; Enn sa Ogudlege hefur ad sonnu margar Plaagur, sem hañ optast nær giorer sier sialfum. Ps. 32. 10.

Hvenær verdur eitt Guds Barn fullkomlega frelsad fra ollu Illu ?

J Daudanum, sem þvi er ein Frelsan fra þessum Daudañs Lijkama.

Meigum vier þa Oska oss Daudañs ?

Ecke af Oþoleinmæde, helldr af Leida a Syndeñe, og Trwareñar Epterlaungun til þeirrar fullkomnu Sameiningar vid vorn hiartkiæra Endurlausnara; Eñ þo so, ad vier med Poleñmæde befolum þad hañs Vilia. Phil. 1. 23. Eg hefe Gyrnd ad framfiliast, og hia Christo ad vera.

Hafa þau Oumvendtu Heimsens Born nockra Ordsok ad Oska sier Daudañs ?

Nei,

Nei, þvi þa þau giora þad, yfirvega þau ei hvad þar epter skal fram̃ vid þau koma, og hversu herfelegur ad er sa Kvalastadur, sem þeirra Saaler komast i med Daudanum.

Hver fær þa sæluhiælplegann Dauda ?

Sa sem deyr i Drottne, þad er, i rettu Trwarenar Samfelage vid HErran̄ JEsum.

Opeñb. B. 14. 13. Sæler eru þeir Framlidnu, sem i DRottne deya i fra þessu. Ja, Andeñ seger, ad þeir hvijle af þeirra Erfide, en þeirra Verk fylgia þm̄ epter.

Eru þa eige aller sæler sem kallader eru so, þa þeir eru dauder ?

Nei. Spek. B. 3. 1. Saaler Rettlætra eru i Guds Hende, og eingen Pijna snerter þær.

Hvernig hlioodar Nidurlaged af Fader vor ?

Þvi ad þitt er Rijked, og Mætturenn, og Dijrden, ad Eilijfu, Amen.

Hvar fyrer minest sw bidiande Saala þessara Hluta sijdarst i Bæneñe ?

Vegna þess, ad þad er kroptugt Medal til Uppørfunar i Trwñe og Voneñe um̄ Bænheyrsluna, ad miñast a Guds Rijke, Magt og Dird.

Hvad merker þad Ord: Amen, sem seinast er tillagdt ?

Þetta Okuña Ord, merker: Ja, vissulega, sañlega, þad skal verda.

Kañ Madur þa ad vera viss um̄, ad hañ verde bænheyrdur, og ødlest þad sem hañ bidur um̄ ?

Ja, þvi Gud hefur befalad ad bidia, og lagt Befalninguñe Fyrirheitid til, so þad skal skie ad hañ skal bænheyra oss. Amen, Amen, þetta skal þier allt vissulega gefast. Lijka so verdum vier visser giorder

þar

þar um̃, af Fyrerboon Christi, heilags Anda, og allrar christelegrar Kyrkiu.

Luc. 11. 9. Bidied, og mun ydur gefast, og leited ad, og munnd þier finna, knyed a, og mun fyrer ydur uppløked verda. Ps.50.15. Es.65.24. Joh.16.24.

Eñ stedur þad þa alltijd ?

Ja, nema Madur bidie i moote Guds Vilia, edr um̃ þad sim̃ hañ sier oß ei þienañlegt, þa veiter hañ oß eige þad sama, heldur añad betra i þeß Stad. 1. Joh. 5. 14. Pad er sw Diørfung sem vier høfum til hanns, ad ef vier bidium nockurs epter hanns Vilia, þa heyrer hañ oß. 2.Cor. 12.8.9.

Lætur Gud þa Bænheyrsluna koma strax fram̃ ?

Stundum, eñ eige avallt; Þvi þa hañ vill ad vier ydkum oß i stadfastre Trw, Von og Polenmæde, þa dreg hañ Hiealpena undañ um̃ Stundar saker, og lætur hana koma i rettann Tijma Sia Habac 2.3. 2.Pet.3.9.

Seig mier nu loksins: Hvad a ad koma Mañe til þeß ad bidia kostgiæfelega ?

Guds Skipan og Fyrerheit, Mañsins eigen Neid og ypparleg Nytsemd, sem hañ hefur af Bæna Ydkuñe, so og ad Trwen kunne eblast, og Gud verde dijrdkadur og løfadur fyrer Bænheyrsluna.

⁂⁂⁂⁂⁂⁂⁂⁂⁂⁂⁂⁂⁂⁂⁂⁂⁂⁂⁂⁂⁂⁂⁂⁂⁂⁂

## Ut af Sacramente Skijrnareñar.

Hvad er eitt Sacrament ?

Þad er sierdeiles heilög Handtiering (heil. Verk og heilog Pioonusta) iñsett af Gude, i hverre hañ, med synelegum Medolum, frambydur, veiter og stad-

stadfester sijna Opinbelegu Raad og himnesk Giæde.
Hvad mørg voru Sacramenten i gamla Testamentenu?
Tvø: Umskurnen og Paaska-Lambed.

Hvad skilur þu fyrer Umskurnena?
Gud skipade Abraham, ad allt Karlkyns af hañs Sæde skyldi eindilega umskeraſt epter Fædinguna, og medtakast mz þvi mooti i Sattmaala vid Gud. Þo reiddu Gydingarner sig rænglega uppa Umskurn þeirra i Holdenu, þar þeir voru eige a Hiartanu umskorner i Andanum. 1. Mos. B. 17. 1. - 9. rc. Rom. 2. 28. 29. Jerem. 9. 26.

Hvad skilur þu fyrer Paaska-Lambed?
Paaska-Lambed var tilsett af Gude a Døgum Mosis, til Miñes um Utleidslu Israels Foolks af Egyptalande; Med þvi var og þeirra Trw stadfest, um Messiam sem koma ætte, hver ed munde laata slaatra sier eins og einu Lambe. 2. Mos. B. 12. 1. - 10. 1. Cor. 5. 7. Ebr. 11. 28.

Eru mørg Sacramente i nija Testamentenu?
J Stadeñ fyrer Umskurnena og Paaska-Lambed, hefur vor DRotteñ JEsus iñsett onnur tvø i þvi nija Testamente, sem er: Sw heilaga Skijrn, og þad heilaga Kvøldmaaltijdar Sacramente.

Eru allerchristner skylduger ad tijdka þau H. Sacramente?
Jaa, þeim byriar ad þacka Gude fyrer þvilijk Naadar Medol, og eingañvegeñ ad forsmaa þau nie fyrerlijta; Eñ meiga þo eige, an sannrar Jdrunar og Trwar, hafa eitt faavijslegt Traust a þeirra Brwkun, eins og þeir fyrer hana einungis kyñu verda Saaluhoolpner.

Hver

Hver Mismunur er a þessum tveimur Sacramentum ?
I Skijrnar Sacramentenu verdur Maňeskian, so sem i gegnum einar Dyr, læteň iň i Guds Kyrkiu, og samteingd Guds Nædar og heilagra Samfelage; Enn fyrer verduglega Brwkun Altaris Sacramentesens, starfestest og styrkest heňar Sæl i þvi Gooda, sem ædur var uppbyriad.

Er hier margt ad athuga uň Skijrnar Sacramented ?
Þreňt, sem er: Hvad þad er? Hvad gott Gud veiter oss med þvi? Og hvar til þad skyldar oss?

Hvad er Skijrnar Sacramented ?
Skijrnen er ecke einsamalt Vatn 2c.

Hvad er hun þa meira ?
Hun er þad Vatn, sem samaň er reirdt og 2c.

Er þa margslags verulegt Efne i þeirre heilogu Skijrn?
Tveňslags, nefnelega: Vatned, og Guds Ord, samlagad Vatnenu.

Hvad fyrer Vatn er þad ?
Þad er rett nætturlegt og almeňelegt Vatn.

Hvert er þad Ord, sem samlagad er Vatnenu?
Þad er JEsu Ord: Matth. 28. 19. Marc. 16. 15. 16. Fared wt og keňed øllum Þioodum 2c.

Hvad er Iňehald þessara Orda ?
Tveňslags, sem er: Skipan ad skijra og læta sig skijra, so og lijka Fyrerheited uň Sæluhiælpena handa þeim sem eru skijrder, og saňarlega trwa.

Hvernig er fared ad skijra ?
Maňeſer dyst i Vatned, eda þvi er aused yfir haň, i Nafne Guds Fødur, Sonar, og H. Anda.

Hvar fyrer nefnest þeirrar heilogu Þreňingar Nafn vid Skijrnena ?

Þad hefur Christur so skipad, til þess, ad œviisa þar med, ad sœ Skiirde kemst þa i nœkvœmt Samkvœme og Sameining vid Gud, heyrer honum til, og er teiknadur med hañs Nafne.

Hver a so ad skijrast ?

Allar Þiooder (so hefur Christur skipad i Jñsetningar Ordunum) og lijka Ungbornen; Þad er, aller Meñ ad eingum frœteknum, sem vilia komast iñ i Guds Sosnud, og verda Sœluhoolpner.

Hver ma skijra ?

Þœ Naudsyn krefur, mœ þad giøra hver christeñ Madur; Eñ reglulega verdur Skiirnen frameñ og veitt af Guds Þienurum, sem eru Verkstioornar-Meñ yfer Guds Leyndardoomum. 1. Cor. 4. 1.

Hvad Gagn og Nytsemd er ad Skiirneñe ?

Þad hun verkar og frañkvœmer i oss Fyrergefning Syndaña, frelsar oss frœ Daudanum og rc.

Hver er Meining þessara Orda ?

Þesse: Ad Skiirnen giører oss twofaldt Gagn, fyrst friiar hun oss frœ miklu Illu, þar nærst veiter hun oss miked Gott.

Hvert er fierdeiles þad fyrsta Illa, sem Skijrnen frelsar oss frœ ?

Synden, frœ hverre hun frelsar oss; Þad er, ad kvitt verdur gefed bæde Sekt og Straff Upprunasyndareñar og þeirrar Giørañlegu, eiñig Magt og Yfirrœd Syndareñar verda nidurdempud, fyrer Christi Krapt, i þeim sem skijrdur er, jafnvel þo Syndareñar Root takest eige burtu til fulls.

Rom 6. 4. Þvi erum vier og eiñig med hønum grestrader, fyrer Skijrnena i Daudañ, uppœ þad, ad lijka

sem

sem Christur er uppvaken fraa Daudum, fyrer Dijrd Fødursens, lijka so skulum vier gaunga i einu niju Lijferne.

**Hvad er þad annad Illa, sem Skijrnen frijar oss fraa ?**

Dauden, þvi allar Pijningar, og sa sijdarste Vidskilnadur hiedan fraa þessu Lijfe, er þeim, sem eru skijrder og trwader christner Menn, ecke nockurt Straff edur Skade, heldur Abate, blessadur Kross, og einn saaluhiaalplegur Heimflutningur og Inngaangur i þad eilijfa Lijf, þar sa andlege og eilijfe Daude hefur tapad allre sinne Magt yfer þeim.

1. Cor 15. 55. 57. Daude! Hvar er þinn Broddur? Helvijte! hvar er þinn Sigur? Gude sieu Packer, sem oss hefur Siguren gefed, fyrer Drottenn vorn Jesum Christum.

**Hvad er þad þridia Illa, sem Skijrnen frelsar oss fraa ?**

Diofullenn, hver ed tapar sinne Magt aa þeim, sem fyrer Skijrnena eru komner fraa Myrkrunum til Liossens, og fraa Andskotans Valde til Guds. Post. G. 26. 18. Col. 1. 13.

**Hefur Christur ecke frelsad oss fraa Syndenne, Daudanum og Diøflenum; Hvernig tileinkast þa Skijrnenne ad hun hafe frelsad oss fraa þessu ?**

Vegna þess, Skijrnen er þad Medal, fyrer hvert vier komunst i Samfelag med Christo, og niootum hans Velgiørninga. Rom. 6. 3. 4.

Gal. 3. 27. So marger af ydur, sem erud skijrder uppaa Christum, þier hafed iklædst Christo.

**Hvad Gott utvegar Skijrnen oss, i Staden þess Illa sem hun frijar oss fraa ?**

Eilijft Lijf og Saaluhiaalp, sem eige kann annad enn fylgiast med Fyrergefning Syndanna, hiaa þeim sem skijrder eru oa trwa.

Marc. 16, 16. Hver hann trwer og verdr skijrdur, sa skal

 hoolpenn

hoolpeñ verda, eñ hver eige trwer, hañ skal fordæmast.
J hvetiu er Sælluhjalpen innefalen ?

J þvi ad sameinast vid Gud, og nioota Guds, þvi hañ er sa ædste Goode, og sw verulega Sæla.
Joh. 17. 21. 27.

Verda þa aller Salluhoolpner sem eru skijrder ?

Nei, ecke aller, heldur þeir skijrder sem trwa, þvi Christur seger, ad hver sem ecke trwe, skule verda fordæmdur, jafnvel þo hañ sie skijrdur.

Er þad þa møgulegt ad Smaabørnen hafe Trwna ?

Jaa, þvi þau geta teked aa moote Verkan heilags Anda, jafnvel þo þad vitest og formerkest eige.

Luc. 1. 15. Þegar i Moodur-Kvide mun hañ uppfylltur verda af heilogum Anda. Psalm. 22.10.11. Psalm. 8. 3. Matth. 18. 6. Cap. 19. 14.

Fordæmast þau Ungbørn, sem deya aldur enn þau hlioota Skijrn ?

Elngañvegeñ, þvi þau foragta eige, heldur missa þad Medal Naadareñar, sem Gud hefur ad soñu bunded oss vid, eñ eige sialfann sig, þvi lijka getur hañ giørdt einn saluhoolpeñ aan Skijrnar.

Matth. 18. 14. So er eige Vil'e Fødur ydar sem aa Himnum er, ad eiñ af þessum Smaau tapest.

Med þvi þad er so stoor og mikels verdur Hlutur, ad frelsa Meñ fraa Syndeñe, Daudanum og Diøflenum, og gefa þeim þad eilijfa Lijf; Seig mier þa: Hvernig kañ Vatned ad framkvæma so veglega Hlute?

Vatned maa ecke slijkt orka, heldur &c.

Þvi kallast Skijrnen: Endurfædingar-Laug ?

Þviad Skijrnen er Endurfædingar Medal hiaa þeim Ungu, eins og Orded hiaa þeim Gomlu.

Enn hvar fyrer kallast Skijrnen: Ein Laug, edur

Vatns Laug i Ordenu ?

Þad er talad i Epterlijking; Þvi so sem nijfædd Börn verda laugud og þvegen af lijkamlegum Saurendum, so verdur Saalen, med Skijrnar Laugenne, þvegen og hreinsud af vidbioodslegum Syndareñar Saurendum. 1. Pet. 3. 21. Skijrnen er ecke Burttekt Holdsens Saurugleika, heldur Saattmaale goodrar Samvitsku vid Gud.

Þvi kallast Skijrnen i þessum Ordum: Eiñ Saattmaale ?

Af þvi i heñe framsetiast Spurs moal nockur, og verdur iñgengenn eiñ viss Saattmaale, þegar Gud giorer Loford vid Mannenn, og Madurenn giorer aptur a moote Loford vid Gud.

Hveriu Goodu lofar Gud Mañenum i þessum Skijrnar Saattmaala ?

Öllum þeim mikelsverdu Hlutum, sem vier hofum adur heyrt, sem er: Frijan fraa Syndeñe, Daudanum og Dioflenum; Eñ Hlutskipte i eilijfu Lijfe, edur Barna-Rette og Arftoku i Guds Rijke.

Hveriu Goodu lofar Madur þa Gude aptur a moot i Skijrnar Saattmaalanum ?

Þessu: Ad hañ vilie afneita, affegia, og i mootstanda Dioflenum og öllum hañs Verkum; Sem er: Prældoomur Syndareñar, og öllu hañs Athæfe, nefnelega: Hoffrakt þessa Heims; So og ad hañ vilie trwa a Gud Fodur, Son, og H. Anda.

Er þad mögulegt ad halda þenna Saattmaala goodrar Samvitsku ?

Ja, fyrer Guds Naad er þad mögulegt fyrer þaa Trwudu, sem vaka, bidia og strijda daglega a moote Dioflenum og hañs Athæfe.

Philipp. 4. 13. Eg forma alla Hlute fyrer hann, sem mig mattugann giører, sem er Christur.

Enn syndga hau trwudu Guds Børn eige optlega af Breiskleika?

Jw, hvi midur! Þo falla þau eige har fyrer ur Naadar Sattmaalanum vid Gud. Rom. 8. 1.

Hvernig skedur þad þa, ad Madurenn fellur frá sijnum Skijrnar Sattmaala?

Þad kañ ad ske, añadhvert: 1.) Med heim Hætte sem lijted ber a, og eige formerkest, med Andvaraleyse, þegar Skijrnar Sattmaaleñ er eige alltijd hafdur fyrer Augum sier, epter hvi sem Aren fiolga, Naadar-Verkunum H. Anda er mootstaded, soñ Bænrækne og rett Yfirvegan Guds Orda forsoomast, og ha Madur gefur tapt ad vera athugasamur uñ sitt Hiarta, og hætter a hvi, ad strijda vid þa andlegu Ovine, og Siñeslaged verdur so sijdann hvad af hveriu, epter Veralldareñar Hattalage, veraldlegt, hiegoomlegt, Sandlegt og holdlegt, hvar til Foreldrarner eru almeñelega, og þad opt med stoorre Astundan, hin stærsta Ordsok. Ebr. 3 12. 14. Rom. 12. 2. 1. Joh. 2. 15. 17. Jac. 1. 27. Cap. 4. 4. Ellegar þad skedur: 2.) So meir ber a, edur meir eptertakañlega, ha Madureñ fellur i opeñberar og utvortis drottnande Synder Illvilians, og i Skalkapor. Eph. 4. 29. 30. Es. 3. 16. rc.

Þegar einhver hefur nu so med Hyrduleyse edur Illgyrnes-Syndum rofed siñ Skijrnar Sattmaala: Er þa eingrar Naadar framar ad vænta fyrer hañ?

Jw, a medañ enn er Kostur a ad ydrast, med hvi Gud a Naadareñar Tijma kallar alla Synd-

uga til Yfirbootar. Jer.3.1.6.7. Es.55.6.7. Ezech. 33. 11. 2. Pet. 3. 9.

Skal sa þa skijrast uppa nijtt, sem vill umvenda sier ?

Nei, eingannvegen, þvi saa Skilmaale sem rofinn var a Mannsens Sijdu, stendur enn þaa Oraskadur a Guds Sijdu, og hanns Trygd verdur ecke ad eingu fyrer Mannanna Vantrw. Rom.3.3.

Hvad er þa sw Umvendan, fyrer hveria eirn Syndare kemst aptur a nij i Guds Naad, og Sattmaala goodrar Samvitsku ?

Ad ydrast eda umvendast, er ad kannast i Hiarta sijnu vid sijnar Synder, sem Madur drijgt hefur, og alla Vanart sinnar syndumspilltu Natturu, laata þær gaanga sier til Hiarta, hrellast af þeim, og hata þær, og hafa innelega Epterlaangan epter Guds Naad i Christo, og setia sier alvarlega i Sinne ad betra sinn Lifnad.

Hversu margslags Umvendun eda Ydrun er til ?

Tvennslags, þeirra Follnu, og hinna er Standa.

Hvad er Ydrun þeirra Follnu ?

Þegar sw Manneskia, sem fraa Guds Naad er fallen, og i Syndenne er daud, verdur fyrer Guds Krapt aptur uppvakenn til þess andlega Lijfsens fyrer Trwna, forlijkud vid Gud, og þannig oldungis umvendud og umbreitt.

2.Tim. 2.25.26. Og straffed þa sem þraalaater eru, ef ad Gud giæfe þeim einhverin Sinne Yfirboot, Sannleikann ad vidurkenna, og endurvitkader verda wr Diøfulsens Snøru, af þeirre þeir fangader eru epter hanns Vilia. Jerem.3.1.6.7. Eph.2.4.5. Post.G.B.26.18.

Hvad er Ydran þeirra sem Standa ?

Þa þeir Trwudu bera daglegt Angur, fyrer þeirra umlidnu Synder, og eñ þa vidlodande Avirdingar, bidia Gud Fyrergefningar a þeim i Jesu Nafne, og einsetia sier ad deyda allar vondar Gyrnder.
Gal. 5. 24. Þeir sem Christo tilheyra, þeir krossfesta sitt Hold med þess Gyrndum og Tilhneigingum. 2. Cor. 7. 1. 1. Joh. 3. 3.

Eiga Menn endelega ad vita þeña Mismun ?
Ja, til ad burtdrijfa Andvaraleysed fra Heimsens Bornum, sem meina, ad þau ydrest og umvende sier daglega, sierdeiles þegar þau ganga til Skrifta, þo þau sieu eñ þa andlega daud, og an Hugskotsens edur Hiartans Lagfæringar, og hafe eige lagt rettann Grundvoll til Ydrunareñar fra daudum Verkum. Ebr. 6. 1.

Hversu marger eru Partar sannrar Ydrunar ?
Tveir, sem er, fyrst Angur og Trege fyrer Syndernar, þar næst, Trwen a DRotteñ JEsum, hverrar Avoxtur ad er sw nija Hlijdne.

Getur Madureñ eige trwad a, og huggad sig vid JEsum Christum, nema hann finne adur fyrre til Angurs fyrer Syndernar ?
Nei, sw Trw sem skal hondla Christum, hlijtur ad uppvekiast med þvi, ad vier finnum til vors syndega Eymdar-Hags, þvi añars erum vier einer af þeim, sem meina þeir sieu hrauster og heilbrygder, er eige þurfe Lækningar vid. Matth. 9. 12.

Hvad er sañarlegt Angur og Trege fyrer Syndernar ?
Andleg Særing og Hrelling, sem sundurkremur Hiartad, og lætur þvi so sem svijda, ja, kreister stundum Taar og Grat wt af Syndarañs Augum.

2.Cor.7.10. Sw Hrygd, sem er af Gude, verkar Yd-
ran til Hialpræded, hvers eingañ ydrar, enn þessa
Heims Hrygd verkar Dauda. Matth.26.75.

Hvad stoort ad soddañ Angur og Trege ad vera ?

Gud sialfur hitter þañ retta Maata, epter sier-
hvers Syndara ándlegu og náttúrlegu Tilstande;
Eñ ad miñsta Koste hlijtur þad alvarlega ad hrella
osß, ad vier hofum med Syndunum tapad Guds
Naad, og so eigum vier ad vera hrædder vid Synd-
ena, sem sialfañ Diofuleñ, hvad sia er af Dæme
Davids, i ollum hañs Ydrunar Psalmum.

Hvar af ad ad koma soddañ Angur fyrer Syndernar ?

Ecke alleina af Kvijda fyrir Syndariñar Straffe,
(þvi þa er þad eins og Achabs Hræsne, 1.Kong.B.
21,27.) helldr sierdeiles af Hatre til sialfrar Synd-
areñar, og af Yfirvegan Guds Elsku og Velgiorn-
inga, þa Madur sier sitt skelfelega Oþacklæte, vid
so goodañ og giædskurijkañ Gud.

Hvad er til Naada fyrer eiñ hræddañ og angradañ
Syndara, so ad hañ kuñe ad retta vid, og
falla eige i Orvijnglan ?

Hañ skal jaata sijnar Synder, og leite Guds
Naadar i Christo med Trwñe.

Fyrer hverium ad Madur ad jaata Synder sijnar ?

Fyrst fyrer Gude, sem alla Hlute veit ad soñu, eñ
wtheimter þo þvilijka Audmykt: Þar epter fyrer
sijnum Naunga, ef Madur hefur misgiort vid
hañ: Hier til hlijder og, ad þeir, sem hafa sturlad
Sofnudeñ med opeñberum Hneixlunum, forlijke
sig vid hañ aptur aa nij med opeñberre Medkeñin-
gu: Og ad sijdurstu skal Madur jaata sijnar Syn-
der

der fyrer Sœlusorgaranum.

Jac.5.16. Jœte hver ødrum siinar Synder, og bidied hver fyrer ødrum, þad þier heilbrygder verded.

Hveriar Synder a Madur ad medkenna?

Ecke allar Breiskleikans Synder, sim eru, þvi midur! fleire enn vier siœlfer vitum, helder þær sim þvijnga, naga, og Orooleg giora Samvitskuna; Þo a ei ad gioraft hier af nockr Papisk Samvitsku Kwgan, so sim þad kynne ei ad fyrirgefast, sim Mader skriftadest ecke um sier i Lage; Heldur skeder soddann sierdeiles Medkenning alleina vegna sinnar stooru Nytsemdar, þar ed Sœlusorgaren (þa Syndaren so opnar fyrer honum sitt Hiarta, og so sem wteys siinu Hiartalage fyrer honum) fær Hentugleika til ad koma hans Samvitsku til Hiœlpar, a moote soddann Syndum, med miklu betre Undervijsan, Raadlegging og Huggun; Og a Kennefaderenn þessare heimuglegre Medkenningu einnig ad leyna.

Ps. 32. 3.4.5. Þa eg vilde hafa þagad, þa urdu mijn Bein mattlaus af minne daglegre Veinan. Þvi ad þijn Hønd var Nætt sem Dag þwng yfer mier, so ad mijn Vøkvan uppþornade, so sem a Sumar þornar, Sela. Þar fyrer medkenne eg þier mijnar Synder, og dreg ecke Dulur a minn Misgiørning. Eg sagde: Jata vil eg Drottne mijnar Yfirtrodslur, þa fyrergafst þu mier þann Misverknad minnar Syndar, Sela.

Hvad blijfer nu framar til sannarlegrar Yfirbootar edur Ydrunar?

Sa Annar Partur Ydrunarennar, og sa sem mest rijdur a, er Trwen a Christum, hvar um adur er hondlad i Pridiu Greinenne.

Seig þu mier þa og so hier, hver ad sie Trwarennar

rette Verknadur og Adferd, hia einum Angurfullum Syndara ?

Þegar eiñ frafallenn Syndare gyrneſt ad leita Guds Náadar, og komaſt aptur i ſinn Skiírnar Sáttmáala, þá fiñur hañ eige ſtrax i ſijnu Hiarta Krapt þeſs fullkomna Athvarfs og Trwnadar-Trauſts, ſem hañ leitar til hiá Gude, heldur byriaſt Trwen hiá honum med Hwngre og Þorſta, þad er, Epterlaungun epter Chriſti Rettlæte.

Hvernig fær hañ þa ſkekara Trauſt og Diorfung Trwareñar ?

Þegar hañ bidur og les med Epterlaangan, og yfervegar Ord Evangelii, þá lockaſt hañ og ladaſt til af Jeſu Aſtſemdar Tilbode: Matth. 11.28. Komed til mijn aller þier ſem erfided, og Þwnga erud hladner, eg vil endurnæra ydur.

Kañ þa Sáttmaale Skiírnareñar lijka ad koma hier til Huggunar og Trwarſtyrkingar einum Syndara ?

Jáa, viſſulega; Þvi þar ed Sáttmáalen af Guds Alfu ſtendur Oraſkadr, þa ſtanda og Náadar Dyrnar opnar, fyrer þeim Syndara ſem ſnyddraſt og leitar Náadar; Jáa, Gud ſtendur allañ Dageñ med wtbreidda Arma Elſkuñar, til ad taka á moote og fadma ad ſier aptur á nij þa fortapndu Syne, ſem koma heim aptur til Fødur-Hwſſens. Luc.15.20. Eſ.65.1. Rom.2.4. Cap.5.20. 1.Tim.2.4.

Verdur Syndareñ þa endurfæddur ad niju á Tijma hañs Ydrunar, epter þad hañ hefur tapad þeirre fyrſtu Skiírnar Náad, ſem hañ endurfædde ?

Jáa, ſierhver Umvendan fráa daudum Verkum, og Aſtundan ad lifa i nijum Lifnade, er ein nij Fæding.

Er Skiírnen þa ecke þad einaſta Medal Endurfæding,

ingareñar ?

Nei, Orded hefur sama Krapt og Verkan.

1. Pet. 1.23. So sem þeir, hverier endurborner eru, eige af forgengelegu, heldur af Oforgengelegu Sæde, sem er af Orde Guds lifanda, þad æfeñlega blijfur.

Seig mier framveges med Lutheri Ordum hvad Skijrnen merker ?

Hun merker þad, ad sia hiñ gamle Adam, ꝛc.

Hvad er sa gamle Adam, edur gamle Madur ?

So kallast Vanart þeirrar syndumspilltu Nattuuru, sro Uppruna Synd sem i oss bijr, med sijnum syndsamlegum Tilhneigingum og Lystingum, sem vier høfum allt i Arf. teked epter Adam.

Eph. 4. 22. So aflegged i frá ydur epter fyrre Breitne hinn gamla Mannenn.

Hvad á ad giøra vid þann gamla Manneñ ?

Hann á ad deydast og dreckiast, þad er, undertryckiast med daglegre Ydran; Og á þad verdum vier miñter med Skijrneñe, i hverre þeir yfirrausast Vatnenu sem skijrder eru, edur þeir dijfast þad, epter Adferd þeirrar fyrstu Kyrkiu.

Hvad er sá nije Madurenn ?

Þad sama sem su nija andlega Art og Nattura, Sinnislag, Upplijsing og Kraftur, sem gefast med Endurfædinguñe.

Hvernig á þesse nije Madur daglega ad framkoma æ meir og meir, og upprijsa i oss ?

Þañveg, ad vier, fyrer Endurnijanena og heñar Kraft, forum daglega vaxande i þvi Gooda, og lærtum nu Guds Mind og Christi Siñeslag æ meir og meir byriast, og asañast i voru Framferde, hvar

til

til vorSkijrn skyldar oss: So og einig eigum vier
þar um aminnter ad vera, þa vier sialfum þa vera
uppteknaaptur wr Vatnenu, sem Skijrder eru (þar
sin so er fared ad skijra, efter Sid hinnar fyrstu Christ-
ne) og a þvi hvers christens Mans Lijferne, ad vera
hans dagleg Skijrnar Yokun.

Eph. 4. 23. 24. Endurnijed ydur i Anda ydvars
Hugskots, og klædest þeim nija Mane, sem epter Gude
er skapadur, i sannarlegu Rettlæte og Heilagleika.

Hvar stadfestest framar þesse Saulleike, um Deyding A-
dams, og Christi nija Lijfgun i þeim skijrdu Christnu?

St. Paall seiger: Rom. 6. 4. Þvi erum vier og einig
med hönum greftrader fyrer Skijrnena i Daudann,
uppa þad, ad lijka sem Christur er uppvakenn fra
Daudum, fyrer Dijrd Fødursens, so skulum vier gan-
ga i einu niju Lijferne.

Hvad er Skylda þeirra sem halda Børnum under Skijrn?

1.) Ad þeir minnest sijns Skijrnar Sattmaala, og
proofe sig, hversu þeir hafe halded hann, og einsetie
sier ad lagfæra þad, sem i þvi er afatt orded.

2.) Ad þeir bidie hiartanlega fyrer þeim, sem þeir
halda under Skijrn.

3.) Ad þeir sijdan, epter þvi sem Þørf gioerest, og
þeir hafa Efne til, hialpe til ad Barned uppfoost-
rest i Otta Guds; Og þess vegna eiga rettskickader
og sannchristner Menn þar til ad wtveliast.



## Ut af Sacramente Altaresins.

Er þad margt, sem vita skal og athuga um
þetta heilaga Sacrament?

Sier

Sierdeiles Fernt, sem er : Hvad þad er, hver þad a ad brwka, til hvers Gagns þad er, og hvernig Madr a sig til þess verduglega ad bwa.

Hvad er Sacramentum Altaresins, edur sw heilaga Kvølldmaaltijd ?

Sannarlegt Holld og Blood, vors HErra JEsu Christi, under Braude og Vijne, innsett af Christo siaalfum, til þess, ad christner Menn skyldu eta og drecka þad.

Hvar af veitst þu þetta ?

Af Innsetningar Ordunum, sem lesa maa hiaa Matthæum, Marcum, Lucam og St. Paulum, og hlioода soleides: Vor HErra JEsus Christus, ( og so framv. )

Hver hefur innsett þa heilogu Kvølldmaaltijd ?

Vor HErra JEsus Christur, a hvers Sannleika og Almætte vor Trw a i þessum Leyndardoome ad grundvallast.

Hvenær innsette hann hana ?

A þeirre Nott sin hn var forraaden til Dauda; og þar fyrer kallast hun sw H. Kvølldmaaltijd.

Riidr nockud a ad vita þessa Tijmans Kringumstæduк?

Ja ; Þvi þar af siaaum vier vors Jesu elskurijka Umhyggiu fyrer oss, ad þo hann visse sijn Daudans Angist være strax fyrer Hende, var honum meir hugad um oss enn siaalfan sig.

Hvernig innsette hann þetta heilaga Sacramentum ?

Med sierdeiles Ordum og Adferd, bæde þaa hann wtdeilde Brauded og Vijned.

Hvad giørde hann og sagde, þa hann wtdeillde Braudeb, edur þann fyrra Part þessa Sacramentes ?

Hann

Hañ took Brauded, giorde Packer, braut þad, ꝛc.

Hvad giorde hann og sagde, þa hann wtdeilde Vijned, edur þann seinna Hlut Sacramentesins ?

Hañ took Kaleikeñ, edur Bikareñ, med Vijne i, og sagde: Drecked aller hier af, þetta er, etc.

Til hvers skylda oss þesse Ord og Verk?

Til ad trwa Ordunum, og giora epter þeim.

Hvad margslags Hluter eru þad þa, sem vier trwum ad sieu i Sacramentenu ?

Tveñslags, adrer Jardneśker, Syneleger, og adrer Himneśker, Osyneleger.

Hverier eru þeir jardneśku Hluter ?

Sannarlegt og nątturlegt Braud og Vijn.

Hverier eru þeir himneśku Hluter ?

JEsu Christi sañarlegur Lijkame og Blood, sameinad vid Braud og Vijn.

Getur þu sied og formerkt þad ?

Nei, hverke sie eg nie verd var vid annad enn Braud og Vijn.

Trwer þu þa, ad þar medtakest eige nockud meira ?

Eg trwe, ad eg ąsamt Braudenu, medtake sañarlegañ Lijkama Christi, og ąsamt med Vijnenu, Christi sañarlegt Blood.

Hvad kemur þier til ad trwa þvi ?

Þesse Ord Christi: Taked og eted, þad er mitt Lijkame. Item: Drecked, þad er mitt Blood.

A þetta so ad skiliast, ad Braud og Vijn umbreitest med Blessaneñe i Christi Hold og Blood ?

Eingannvegeñ; Braud og Vijn heldur sinne Nątturu samt, og eru þad þau voru fyrr, þvi epter Blessanena kallar Paulus þad eñ þą Braud,

og Reynslan syner ad þad getur swnad, so sem añad samaslags, med þvi Sameiningen millum þess Jardneska og Himneska værer eige leingur, eñ æ medañ Sacramented verdur wtdeilt og medteked, og mæ þvi aldeiles einga Hiætrw hafa æ Leifum þeim, sem af þvi epter verda.

Eiga þa Orden so ad skiliast: Ad þad brotna Brand og wthellta Vijn, sie einasta Merking og Miñes-Teikn, Christi framda Lijkama, og wthellta Bloods ?

Nei, sw Meining fullnæger eige heldur Frelsarañs Ordum, sem eige segia: Þad merker, heldur: Þad er miñ Lijkame. ꝛc.

Hvernig er þad þa Christi Lijkame og Blood ?

Þañ eigeñlega Mæta til þess, mæ hverke nie kañ vor holdleg Skinseme rañsaka; Eñ epter þvi sem merkia og ælykta er af Ritningarennar Ordum, segium vier: Braud og Vijn i Altaresins Sacramente er Christi Lijkame og Blood, fyrer eina dulda, eñ þo sanna og algiorva Sameining, Samteinging edur Samneyte.

Hvar med stadfestum vier þeñañ Lærdoom ?

Med St. Pæls Ordum. 1. Cor. 10, 16. Sa blessade Kaleikur hvern vier blessum, er hañ ecke Sameining Christi Bloods ? Og Brauded, hvert vier brivotum, er þad eige Sameining Christi Lijkama ?

Verdur þa Hold og Blood JEsu Christi ad Fædu fyrer Lijkamañ ?

Nei, Altarisins Sacrament er eige iñsett til Vidhalds Lijkamanum; Heldr so sem Braud og Vijn hressa og styrkia Lijkamann i kroptugasta Mæta, so er og Christi Lijkame og Blood Fæda Sælareñar,

lar, er hressa hana og styrkia til þess andlega Lijffins

Handa hverium er sw heilaga Kvølldmaltijd innsett ?

Handa saňchristnum Moňum, sem eru komner so til Vits og Ara, ad þeir geta proofad sig sialfa; Eň ei handa vitlausu Foolke, edr omindugum Bornum.

Eru þeir þa aller, sem hafa Vit og Rænu, hæfer til ad niota þeirrar heilögu Kvølldmaltijdar ?

Nei, epter Christi Innsetningú hæfir eingum ad eta af þessu Braude og drecka af þessum Kaleik, nema haňs eigeň Læresveinum, þad er, þeim sem ydrast, trwa a haň, og breita epter honum. Eň eingaňvegenn eru þeir, sem ganga eins og hanns Kross Oviner, þar til hæfer. 1. Cor. 10. 21. Ei faaed þier i seň drucked Kaleik Drottenns og Dioflanna Kaleik, þier geted og ecke i senn Hluttakarar orded Mat-Bords Drotteňs og Mat-Bords Dioffulsens.

Hefur þa sa Ogudlege eingaň Rett til Altaresins Sacramentis, edur Gagn af þvi ?

Nei,ølldungis ecke, so leinge haň helldur afram i sijnu Ydrunarleyse, og tekur ei Siňaskipte; Þvi so sem sa, sem er natturlega daudur, kaň ecke ad eta natturlega Fædu; So kann og eige þeim, sem er andlega daudur, þad er, ydrunarlaus (hver ed kallast lifande daudur) ad verda til Nota sw Fæda, sem er andleg; Þvi þad verdur ad vera andlegt Lijf, sim med andlegre Fædu skal styrkiast.

Eň kunna ecke þeir Ogudlegu ad uppvekiast og verda sterre, af þvi þeir fa Sacramented, so ad þess vegna eige ad medtaka þau þar til ?

Nei, þvi Sacramentum Altaresins er eitt Stadfestingar Sacrament; Þar fyrer eiga þeir, forer

Naad Guds, ad vera madur bwuer ad umvenda sier af Hiarta, añãrs verda þeir verre og eige betre þar af, þvi Nadar Medølen gagna eige, þo þau sieu brwkud, heldur gagna þau fyrer þad, þa þau eru verduglega brwkud, og epter rettre Reglu.

1.Cor.11.17. Þier komed eige til samans med betre Vijsu, heldur med verre Vijsu. Og 30. V. Fyrer þad eru so marger siwker og veiker ydar a mille, og þeir so marger sem sofnader eru.

Þvi ganga þa marger til Guds Bords, sem ecke Ottast Gud ?

Af þvi þeir añãdhvert eige þeckia Guds Vilia, og þess vegna ætla þeir ad leita sier Huggunar med Sacramentenu; Eñ þo rangléga meinande, ad Madur mune vera forlijktur vid Gud (ef hañ er til Sacramentis) eñ þo hañ sie Guds Ovinur i Hiartanu, og giøre einasta Stundar Frid vid hann wtvortis um̃ nockra Daga, liggiande i sijnum fyrre Syndum þar epter þa Fære fellz. Ellegar þeir ganga til Guds Bords, af þvi þeir skam̃ast sijn ad forsooma þad, framar eñ adrir þeirra Naabwar giøra.

Þvi er þeim þa leift ad ganga til Guds Bords, sem ecke Ottast Gud ?

Af þvi ad Madur getur eige sied iñ i Hiartad a þeim, og af Kiærleika vænter ad þeir mune lagfæraft, eins og þeir lofa þa muñlega ad verda skule.

Nu þott Madur kuñe ecke wte ad lykia Hræsnara fra Sacramentenu, þa hæfde þo, ad þeir skyldu wtelykiast fra Heilagra Samneyte, sem añãdhvert eru miøg samfrooder, edur lifa i opeñberum Holdsins Verkum ?

Satt er þad, þegar þeirra Blindne og Forfrækne, Yfirdrepskapur og Ydrunarleyse, er med vissum Rökum augliooſt orded, þa eiga þeir og so ad ute- lykiast og affsnijdast, sem forrotnader Limer, so ad eige verde Helgedoemi fyrer Hunda kastad.

Matth. 18. 15-18. Enn ef Brooder þiñ briitur vid þig, far þu, og straffa hañ a millum þijn og hañs eins sam- ans, ef hañ heyrer þig, þa hefur þu þiñ Broodur uñed. Eñ ef hañ heyrer þig eige, þa tak Eiñ edur Tvo til þijn, so ad i Muñe Tveggia edur Þriggia Vitna stande øll Malefne; Eun ef hañ heyrer eige þeim, þa seig þad Samkunduñe; Eñ ef hañ heyrer eige Samkunduñe, þa hald hañ sem añañ Heidingia og Tollheimtumañ. Sañlega seige eg ydur: Hvad heldst þier bynded a Jør- du, skal a Himnum bunded vera, og hvad heldst þier leysed a Jørdu, skal leyst vera a Himne.

Þvi kallast þetta Sacrament Communio (edur Samneyte) og þeir sem þad medtaka, Commu- nicantes (Samneytendur)?

Þad merker bæde þa Sameining sem þeir Trw- udu hafa med Christo, þeirra Hofde, og so þad broodurlega Kiærleikañs Samneyte, er þeir, so sem eins Lijkama Limer, hafa innbyrdes sijn a mille, hvert ed þeir einig jata og stadfesta, med þvi ad þeir asamt hver med ødrum brwka Sa- cramented, og gefa sig ei aun Naudsyniq, allra sijdst af Drambseme burt fra þessu opeñbera og sameigeñlega Samneyte Sacramentesins, til þess heimugleqrar Medtekningar.

Joh. 6. 56. Hver hañ etur mitt Hold og dreckur mitt Blood, sa bliifur i mier, og eg i honum.

1. Cor. 10. 17. Þad er eitt Braud, so erum vier marger

marger eiñ Lijkame, med þvi ad vier verdum aller eins Brauds Hluttakarar.

Hvad stodar þannig ad hafa eted og drucked ?

Þad utvijsa mier þesse Orden: Sem fyrer ydur ꝛc.

Hefur nu sa Trwade ecke Syndaña Fyrergefning, Lijfed og Sæluhialpena, adur eñ hañ gengur til Guds Bords ?

Jw, enn i þvi heilaga Sacramente gefst hønum þad med Obryadulum Pante þar uppa, sem er sa Lijkame og Blood, fyrer hvert Synden er forlijkud, einnig Lijf og Saluhialp utvegud; Þvi seiger Christur: Þad er miñ Lijkame, sem fyrer ydur verdur gefeñ. Item: Þad er mitt Blood, sem fyrer ydur uthellest til Syndanna Fyrergefningar.

Hvad fyrer Lijf og Saluhialp ødlast þeir Trwudu i Sacramentenu ?

Ei alleina Fullvissu um þad eilijfa Lijf, heldur og kroptuga Ebling þess andlega Lijfs, sem byriadest i þeim i Endurfædinguñe, til eñ þa stærre Trwar, Vonar, Kiærleika, Poliñmædi, Audmyktar, Bænar, og allra Avaxta Andans af JEsu Fyllingu. Joh.6.54-56. Hver hañ etur mitt Hold og dreckur mitt Blood, sa hefur eilijft Lijf, og eg mun uppvekia hañ a efsta Dege. Þvi mitt Hold er sañ Fæda, og mitt Blood er sañur Dryckur. Hver hañ etur mitt Hold og dreckur mitt Blood, sa blijfur i mier, og eg i hønum.

Hvernig kañ lijkamleg Berging ad framkvæma so mikla Hlute ?

Berging Brauds og Vijns framkvæmer þad i eingañ Mata, ꝛc.

Hvad er þad þa sem allra mest ærijdur vid Brwkan þessarar heilogu Kvøldmaltijdar ?

Þad

Þad er (sem Lutherus rettelega seiger) Trwen á þessum Ordum: Fyrer ydur; Edur ad ein sañydrande Saal, med epterlaungunarsömu Trwnadar-Trauste, tekur ad sier og tileinkar sier sierdeiles Christi Fullnægiugiörd.

Til hvers skal eiñ christeñ Madur sierdeiles brwka þessa Kvøldmaaltijd, edur i hverre Meining ?

Christur seiger: Luc. 22. 19. Giøred þetta i mijna Miñing. Og St. Paulus: 1.Cor.11.26. So opt sem þier berged af þessu Braude, og drecked af þessum Kalcik, skulud þier kuñgiøra Dauda Drotteñs, þar til hñ kemur.

Hvad er þad, ad miñast Christi, og kuñgiøra hañs Dauda ?

Þad er, med gudrækelegre Kostgiæfne, ad yfirvega alla Christi Piñing, Krossfesting, Dauda, og þad sem þar ad hnijgur; Ad ælijta þad, sem þad einasta fullkomna Forlijkunar Offur fyrer sijnar Synder, og styrkia sig þar vid kroptuglega i Trwñe; Ad yfirvega so i sijnu Hiarta þañ Omælelega Jesu Christi Kiærleika, i þvi, ad hañ leid þvilijkar Kvaler vegna vor; Ad Saalen upptendrest med breñande Kiærleika til hañs aptur á moote, innelega fagne og gledie sig i sijnum Frelsara, hiartañlega þacke honum, lofe, prijse og vegsame hañ, sömuleides, fyrer hanns Lijkama og Bloods lijfgande Krapt, audsyne i Verke og Sañleika, ad sier þyke nockud til alls þessa koma, af þacklætisfullu Hiarta og Saalu, mz nijrri og alvarlegri Kostgiæfne til heilags Framferdis, og epter Dæme þess Krossfesta, þvi sialfviliuglegre Þoleñmæde i Piñingunum.

Þvi eigum vier ad þenkia uñ hañs Dauda, og hañ ad kuñgiøra ?

So vier lærum ad trwa, ad eingen Skepna kuñe ad hafa Fullnægiu giørdt fyrer vorar Synder, utañ alleina Christur, sañur Gud og Madur, og ad vier lærum ad skelfast af vorum Syndum, og athugum hvad stoorar þær eru, og ad vier skulum gledia og hugga oss alleina i honum, og vid hañ, og verda so sæluhoolpner fyrer þessa somu Trw.

**Hvad opt skal Madr gainga til Drottens Kvøldmaaltijdar?**

Um þad hefur Christur eingañ vissañ Tijma sett, so þad stendur i Sialfræde þeirra Trwudu, ad hitta a þa rettu Tijd; Eñ ad þad eige opt ad skie, er audrædad af þeim Ordum: So opt sem þier eted af þessu Braude, etc. 1.Cor.11.16.

**Hvad a ad aamiña og upphvetia hvern Christeñ til ad medtaka opt Kvøldmaaltijdar Sacramented?**

Af Guds Alsu a Mañeñ til þess ad knya, bæde Christi Befalning, og lijka hañs Fyrerheit; Þar næst, af Mañseñs Alsu, skal Mañeñ þar til knya hañs eigen Neyd sem a honum liggur, vegna hverrar soddañ Tilbod, Tilladan og Lofan skedur.

**Hvad a Madur ad giøra til, þa hañ kañ eige ad fiña til soddañ Neydar, ellegar nockurs Hwngurs og Þorsta epter Sacramentenu?**

Honum verdur ecke lagdt betra Raad, eñ hann proofe sialfañ sig, og giæte ad, hvert hañ hafe eige enn nu Hold og Blood, og trwe þo Ritningunne, hvad hun seger þar um, Gal.5.17. Rom.8 8.

**Eñ ef eiñ christeñ Madur være so staddur, ad hañ fenge eige medtekid þad H. Sacramentum, so sem a laungre Reysu, edur i Lande nockru medal Heidingia?**

Þegar soddañ Naudsyn fellur uppa, kañ Madur

ad hafa sama Styrk og Krapt, af þeirre andlegre Nautn og Dryckian, sem skedr med Muñe Trwareñar. Trw þu, seger Augustinus, so hefur þu eted.

Er þad þa añars Synd, ad halda sier leinge fra þvi H. Kvøldmaaltijdar Sacramente, þegar þad kann ad faast ?

Jaa, helldst þegar þad skedur af þvi, ad Naaden er forsmaad, eda af Andvaraleyse, Forsoomun, andlegu Drambe, edur þesshaattar, þa er þad eitt af þeim stærstu Syndum og Oþacklæti vid þañ mikla Hofsund og ástwdlega Frelsara, sem so wtþryckelega og goodfwslega seger: Giørid þad i mijna Miñing.

Eñ gilder þad þa eins, hvernig þad skedur, þegar þad skedur opt, og epter þvi sem Vane er til ?

Nei; Þvi so sem þad er illa giordt, ad halda sig þar med Jafnade fraa; So er þad laangtum verra, ad gaanga til þess Overdugur og Otilreiddur, sier til þess stærre Fordæmingar. 1. Cor. 11. 27. 29.

Hvad skal Madur þa giøra, so ad hañ kunne ad umflya soddañ Ofarer ?

Þaa Madur hefur fyrst hiartañlega beded um H. Anda Adstod, til so heilags og haaleits Verks, aa Madur, aadur eñ hañ gengur til Altaris, nakvæmlega og alvarlega ad proofa sialfañ sig, epter St. Paals Ordum: 1. Cor. 11. 28. Hver Madur proofe sig sialfur, og ete so af þessu Braude, og drecke so af þessum Kaleik.

Hvern er hier sagdt ad Madur eige ad proofa ?

Ecke adra Menn, helldur sialfañ sig.

Hvad er ad proofa sialfann sig ?

Þad er ad taka sijna Þanka fraa øllum añarlegum

um Umhugsunum, til þess i Kyrrd og Spekt, med Bæn og Yfervegan, ad ganga riett iñ i sitt eiged Hiarta; Nakvæmlega, og so sem fyrer Guds Auglite, ad ransaka hvernig stendst a fyrer Saalu siñe, og hvernig hattad sie ollu sijnu Lijferne og Christeñdoome, iñvortes og utvortes, alleina epter Guds Orde, Logmalenu og Evangelio. J þessare Proofan siñ alfs sijns, a Madr vel ad taka sier Vara fyrer þeirre svikfamlegu Elsku til sialfs sijns, sem audveldlega, an vissra Raka, hnegest til ad dæma, ad noog lijde siñe Saalu vel; Þar a moot eiga þær freistudu og angradu Saaler, eins vel ad taka sier Vara fyrer ollu Oþorfu Angistar Vijle, sem a eingum Fæte stendur: Þvi Holded getur med Vantrw, allt eins komed sijnum Brogdum vid i þvi, sem i Andvaraleysenu. 1. Cor. 3. 18. Psalm. 139. 23. 24.

Hveria Hlute a Madur sierdeiles ad proofa?

Þessa þria Hlute: Angur og Trega fyrer Syndernar, Trwna a JEsum Christum, og þañ nija Asetning edur Aform til þess Gooda.

Hvernig proofar Madur sitt Angur og Trega?

1.) A Madur ad proofa sig eptir þeim Tiju Guds Bodordum i þeirra andlegum Skilninge, hvert hann þecke rettelega Uppruna Syndena, asamt sijnum gioranlegum Syndum, og hversu vidbiodslegar þær sieu. 2.) A Madur ad rañsaka allañ siñ Christeñdoom, hvernig hañs Trw sie hattad, hvad hañ hafe giordt og Ogiordt lated, i sijnum Þankum og Gyrndum, til Orda og Verka,

i Skyldu

i Skyldu sijñe vid Gud, sialfañ sig og Naungañ, i sijnum Bænum og Yfirvegan Guds Orda. Hañ skal rañsaka sijna Arvekne og Kostgiæfne, hversu hañ hefur stadeð sig i þvi dagliga Strijde, vid þær andlegu Ovine, einkum vid þær Synder, sm Nattúran, Vaneñ, Lijferneslageð edur Hendtugleikeñ plaga mest ad locka oss til. Hañ skal rañsaka sijna Framfor, hvert honum fer fram edur aptur i þvi Gooda. 3.) A Madur ad þenkia um, hvert hañ iñelega feile sier og skamest sijn, fyrer sijnar Avirdingar, sem hañ fiñur sig i, a moote Gude, sem so er goodur, og veit þær vissuleaa fleire, eñ vier verdum varer vid sialfer. 4) Skal Madur hiartañlega proofa, hvert hañ hatar allar Synder, er vingiarnlega forlijktur vid siñ Naunga, og hvert hañ hagar sier so ad ollu vid hañ, sem hañ er skyldugur til.

Hvernig a Madur ad proofa sijna Trw ?

Madur skal giæta ad, hvert hañ hefur Þeckingu a Gude, so sem hann þarf med, og a hañs Veru, Vilia og Velgiorningum, sierdeiles a Christo, og Endurlausneñe fyrer hañ: Item, þeirre heilogu Kvoldmaaltijd? Hvert hañ hafe gefed heilogum Anda Rwm, so þesse Þecking sie eige alleina i Heilanum, heldur og lijka lifande og kroptug i Hiartanu? Hvert Madur er so sañfærdur af Gude, ad hañ samþycker Guds Ord? Hvert hañ hefur sañarlegt Hwngur og Laungun epter Guds Naad i Christo, og hiartañlegt Trwar-Traust til þeirrar

Fullnægiu, sem Christur giorde fyrer oss? Hvert hañ leitar þa allrar siñar Saaluhialpar alleina i JesuChristi Bloode? Hvert Trwen hañig er ecke daud, folsk, og sialf-smijdud Trw, heldur sonn og lifande, sem umbreiter Hiartanu?

2.Cor. 13. 5. Reyned ydur sialfa, hvert þier erud i Trwñe. Reyned ydur sialfer, eda þecke þier ecke sialfa ydur, þad Jesus Christus er i ydur? Nema þad sie, ad þier sieud Odugañleger.

Eñ ef Madur fær eige fyrer audlegre Sorg og hørdum Freistingum, funded og orded uſkynia um̃ sijna Trw; Hvad skal þa til giøra?

Þa skal Madur leita epter Trwareñar Obrygdañleaum Keñeteiknum, heñar Avexte og Verkan, sim vitna lijka um̃ heñar Sañleika, ad hun sie þar viijst.

Hvilijkur er þesse Avextur og Verkan?

Sa vissaste og Obrygdañlegaste Avøxtur Trwareñar, er hiartañlegt Hatur og Vidbiood a ollum Syndum, sierdeiles sijnum eigenn vondum Tilhneigingum, so og flærdarlaus Elska til Guds og Naunganß, allra helst til Guds Barna.

Hvernig a Madur ad proofa siñ nija Asetning?

Madur skal rañsaka: 1.) Hvert hañ hefur alvarlegañ, eñ eige hvikulañ Asetning, ad vilia vardveita Trwna og gooda Samvitsku; Og ad vilia ei alleina yfirgefa allar mootþroodañlegar Synder, heldur og meir og meir ad hreinsa sig af ollum Syndum sijns Faafrædes, og þeim, sem hann af Astrijdu og Breiskleika sijnum hefur ratad i. Hañ skal sierdeiles proofa, hvert hann vill med stoorre Vandlæting, vaka og strijda moote sijnum Høfud Ovin,

Ovin, þad er, Syndum þeim, sem hañ veit sig mest i soolgeñ, og sier kiærastar; Jaa, hvert hañ vill forðast allt Tækefære til Syndareñar, illañ Selskap, og allt þad sem hefur illt Alit? 2.) Hvert Madur vill vera eñ þaa trwfastare og alvarlegre i Elskuñe til Guds og Naaungans, og i þvi ad taka Vara aa sialfum sier i sinne sierdeiles Kallan, og ollu þvi hañs Christeñdoome vidvijkur? 3.) Hvert Madur, i Krapte Christi, hefur fenged stadfastlegañ Asetning, ad standa i þessu stødugur allt til Enda, hvad sem hañ ætte þess vegna ad lijda, og þo þad være Daudeñ?

Hvers vegna aa Madur ad proofa sig, og taka sig i Vakt so naakvæmlega, þa hañ brwkar þetta Sacrament?

Þvi þess Misbrwkan med Overdugleika, ordsakar hañ eilijfa Dauda, i stadeñ þess eilijfa Lijfs og Saaluhiaalpar. 1. Cor. 11. 29. Þviad hver hañ etur og dreckur Overdugur, sa etur og dreckr sialfum sier Doom, med þvi hañ giorde ecke Greinarmun aa Drottens Lijkama.

Er nockur Madur verdugur ad medtaka þessa himnesku Maaltijd?

Ef Verdugleikenn være innefalenn i fullkomnu Sakleysis Stande, edur skylde hann vera af sialfum oss til, þaa fiñdest eingeñ i þessu Lijfe verdugur þar til; Eñ nu eru (so sem Guds Ord segia) þeir verduger og hæfer þar til, sem med einu rett audmiwku Hiarta (sem laangar þar epter, og er ydrande, hreinskiled, og alvørugefed), leita Naadar alleina fyrer Trwna aa JEsum Christum, aan allrar siñar Forþienustu. Þvi er rædlegt mangurfullum

og freistudum Sealum, sier til Trwar-Styrkingar, ad brwka þetta Sacrament, þaa hid allra fyrsta, þegar þær i andlegu Volæde finna sig sialfar þar til allra Overdugastar. Matth.9.12.13.

Hvernig verdr þa þetta Sacrament verduglega medteked?

Ad fasta og sig lijkamlega þar til ad bwa, er ad sonnu good ytre Sidseme, etc.

Er þad endelega naudsynlegt ad tilreida sig med Fostu?

Ecke hefr Gud skipad þad, og ecke er nockur Skulldbunden til þess, sem þad kann eige ad þola, en þad er ein falleg wtwortes Sidseme, og þenar hun nockrum til þess meire Gudrækues Upporvunar.

Hver a ad vera Hegdan eins christens Mans, i og vid Tijdkun þessa H. Sacramentis?

Madur skal, med audmiwkre Lotning, setia sier fyrer Siooner Heilagleika þess mikla Guds, og hans Omælanlega Elsku til Mankynsins; Han a ad vidurkenna sinn Overdugleika, snwa ollu Sinne og Hugferde fra jardneskum Hlutum, upplypta sine Sealu til Guds, yfirvega Christi Pijnu og Dauda, og þa Fridþæging sem hann giorde þar med, laata sig langa epter nakvæmre Sameiningu vid han, og medtaka so Sacramented i Bæn og Trw, med Audmykt, Fognude og Þackargiord.

Hvernig a ein christen Madur ad haga sier, epter þad han hefur medteked þessa heilogu Kvoldmaaltijd?

Han skal eige alleina einn edur faa Daga, heldur sijfeldt, innelega og nakvæmlega halda sier til sijns Sealar Brwdguma, þacka honum og vegsama hann af ollu Megne, fyrer þessa stooru Naad,

sem

sem hañ hefur honum veitta, og taka Vara a þeirre somu, ad hañ falle eige wr heñe; Upporva sialfañ sig i Trwñe, Voneñe og Kiærleikanum, foragta Veroldena, læta sig æ meir og meir længa epter sijnum JEsu, kunngiora hañs Dauda med Ordum og Verkum, deyda og drepa Syndena i Krapte hañs Dauda, keppast epter ad læta sier framfara i þvi Gooda, þvi framar sem þad hefur vered forsoomad, fylgia Jesu stwslega epter a þeim þraungva Vegenum, og audsyna sig so i daglegre Endurnijan allt til Æfeloka, ad vera einn lifande Lim a Jesu Lijkama. 2.Cor.5.15. 1.Pet.2.24. Gal.2.20.

Kañ sw Mañeskia ad vera viss um ad deya sæluhiælplega, sem so trwer og lifer i Samfelage med JEsu ?

Ja, sa Madur er vissulega Guds Barn, og Erfinge Himnarijkes.







Eins rett-trwads christens Mans

# Morgun Bæn.

Þu eilijfe og almáttuge Gud, myskunsame, elsku-lege, himneske Fader! Eg prijsa þig aa þessare Morgun-Stundu af iñstu Sal og Anda, fyrer þad, ad þu, i Myrkrum þessarar umlideñar Nætur, hefur vered Sool og Skiøldur yfer mier, og sniwed allre Hættu og Skada fra Salu miñe og Lijkama. Lat mig nu framveges aa þessum Dege og alla Tijma, fiña þijna fødurlega Blessan, Hialp og Adstod, aa øllum mijnum Vegum, og i øllum mijnum Athøfnum. Frelsa þu mijna aumu Sal fra Freistingu, Lijkama miñ fra Siwkdoome, Auga mitt fra Graate, og miñ Foot fra Hrøsuneñe. Enn sølum þess, ad Synden er þad versta, þa veit mier Styrk, O Gud! umfram alla Hlute, ad standa heñe aa moote, fyrer Krapt Trwareñar. Lat þijna Hønd vera yfer mier, þiñ Anda i mier, og þiñ Frid allt i kriñgum mig. Lattu mig ecke lifa sialfum mier, heldur i Guds Sonar Trw, so ad eg i øllum mijnum Pankum, Ordum og Verkum kuñe ad þocknast þier, og mege i allskonar tilfallande Neyd, fiña Athvarf hiaa þier med mijnum Bænum. O þu hiartkiære aasimdlege Fader! Fyrergefdu mier af Naad þiñe, fyrer Saker JEsu Christi, allt hvad eg hefe hijngad til giørt þier aa moote, og gef mier framveges Naad til ad betra mitt syndsamlegt Lijferne, med sañre Endurnijungu, epter þiñe Mind, so ad mijns JEsu hoogværa, audmiwka, elskulega og hreina Lunderne, mege ætijd meir og meir skijast i allre miñe Umgengne. O himneske Fader! Vidhaldtu þijnum trwada Søfnude hier aa Jørduñe, og lattu hann fara dagvaxande, fyrer Apturhvarf þeirra Syndugu. Blessa þu Kongeñ og hañs Hws. Veittu Styrk til Eblingar almeñelegum Vagnsemdum. Gior Jordena avaxtarsama. Vard-

veittu

veittu oss fra Land-Plaagum. Gior þu vel vid mijna Vine og Ættingia. Veittu Forsorgun þeim Fatæku. Hugsvaladu øllum Angrædum og Sorgbitnum, sierdeiles þeim sem liggia fyrer Daudanum. Og ad sijdurstu biw mig sialfan a sierhverium Dege under sæluhialplegan Afgang, og dijrdarfulla Upprisu. Amen.

## Kvølld Bæn.

O þu himneske Fader! A þessare Kvølld-Stundu beige eg aptur mijn Knie fyrer þijnu allra heilagasta Auglite, og med þacklæte endurminnest þeirrar miklu Naadar og margfølldu Velgiørninga, sem eg, eñ allrar miñar Forþienustu, hefe ødlast af þier a þessum Dege. O DROtteñ! Hvad er Madureñ þess, ad þu minnest hañs? Og hvad er sierdeiles eg Overdugur Syndare, ad þu soleides daglega heller yfer mig þijnum Velgiørningum! Eg er sañfærdur um þad i mijnu Hiarta, ad ef þu vilder høndla vid mig epter mijnum Syndum, og betala mier epter mijnum Misgiørdum, þa kyñe eg ecke añars ad vænta, eñ ad utkastast fra þijnu Auglite, i þau ytstu Myrkur og eilijfa Nott þeirra Fordæmdu. Ja, ef þu vilder einasta tilreikna mier Synder þessa umlidna Dags, i þauñkum, Ordum og Verkum, mooti þier, mier sialfum, og mijnum Naunga, þa kyñe eg ecke ad svara þier einu Orde til þusund. Hafe eg i Dag frijast fra mootviliugum Illgyrnes Syndum og Audvaraleyse, þa tilreikna eg þad eingañvegeñ miñe fordiarfadre Natturu, heldur alleina þiñe Naad, sem mig typtar og vardveiter. Af þeirre somu þiñe Oforskuldadre Giædskuñar Uppsprettu, hefe eg og so i Dag uppauſed Otelıañlega lijkamlega Velgiørninga, sierdeiles: Heilsu, Frid, naudsynlegt Uppheldе, og Frelsun fra mørgum Oluckulegum Slisum, sem margañ kañ ad hafa hendt þeñañ Dag i Heiminum, og mig þesse lijka eins getad

fyrerhitt, ef þijn fødurleg Tilsioon hefde ecke vered yfer mier, og afstijrt frá mier øllu Vondu. Nu, miñ Gud! Eg hefe reynt þijna Trwfeste i þusundfaldañ Máta, og hvi skallt þu alleina vera fráḿveges Athvarf, Biarg og fasta Slot mijns Hiarta. Vardveittu mig nu, O Gud! á þessare Noottu, frá øllum Háska og Skada, bæde til Lijfs og Sálar. Lát mig hvijlast under Skugga þiña Vængia, til Hressingar mijnum Lijkama, og vek mig upp aptur á Morgun heilañ og hraustann til miñar Þioonustu. O Gud! Hvertheldur eg sef edur vake, já, hvert eg life eda dey, þa lát mig vera þinn, og halda mier æfiñlega fast vid þig, med Epterlaungun miñar Sálar. Þu ert mier betre eñ aller Hluter, og nær eg hefe þig ad eins, þa hyrde eg hverke um Himen nie Jørd, og þo mitt Lijf og Sál vaumegnest, þa ertu alltijd mitt Hiartans Traust og Hlutskipte æfiñlega. Æ Drotteñ! Láttu þvi aldreige þijna Nádar Sool undergánga yfer mier, láttu hana ætijd upplysa mitt myrkva Hiarta, verma mitt Js-kalda Hiarta, mykia mitt harda Hiarta, og uppvekia mitt trega Hiarta. O sætaste JEsu! Lát þu mig Oaflátañlega vera þier iñlijfadañ, fyrer eina lifande Trw, og af þijnum Krosse ødlast Krapt til ad þreyngia mier i gegnum þañ þraunga Veg, og þad miova Port. Nu, miñ Gud! Eg vona á þig, yfirgefdu mig ecke, nie heldur nockurn af mijnum, á þessare Noottu. Lát aldreige þijns Ords Liosa-Stiaka burt-flytiast frá oss. Hald þu Yfervaldenu vid Magt, þvi þu hefur þad siálfur tilskickad, so ad vier meigum lifa roolega under þvi i þijnum Otta. Afstijr nádarsamlega frá þessu Lande Strijde, Drepsoott, Hwngre, Dijrtijd, og øllum vel-forþientum Plágum. Snw þiñe Blessan til vor, alla vora Lijfdaga. Ad sijdurstu láttu oss fá farsælann Dauda, og epter Daudañ eilijfa Roo og Hvijld i Fadme Abrahams. AMEN.

Bæn-

# Bæner

## Fyrer þa sem gaanga til H. Sacramentis.

### Bæn aadur Madur skriftast.

EG aum syndug Mañeskia, kem nu i Dag, miñ DRotteñ! fyrer þitt Naadar Auglit, hladeñ med stoorum Syndum, sem yfir-gaanga mitt Høfud. Eg jaata, ad eg hefe syndgad i Himenenn og fyrer þier. Eg er sa fraavillre Saudur, tijnde Peningur, og tapadur Sonur, sem wtsooad hefe þeirre goodu Arfleyfdeñe. Eg skielf og titra, eg hrædest þiñ Doom, eg Ottast Straff Syndaña, sem er eilijfur Daude, og kvijde fyrer þvi ad deya, eñ eg skamast mijn ad lifa. Hvad skal eg til giora? Eg fly til þijn, DRottenn miñ og Gud miñ! aadur enn Doomurenn yfer mig fellur, þvi þu rekur eingann fraa þier, er til þijn kemur. Þu hefur sett Ydran þeim Syndugu, og hefur sendt þijna Þienara ad boda ollum Sañydrande Syndaña Fyrergefning; Þvi aaforma eg nu med þinne Naad, ad skriftast, og jaata mijnar Synder fyrer þijnum Þienara. DRottenn Gud minn! Uppvek mitt Hiarta til sañrar Ydrunar. Þu aalijtur einasta Hiartans Þaanka; Gef mier audmiwkt Hiarta i Jaatningunne, stadfasta Trw i Aheyrslu heilagrar Aminningar og Aflausnar, adgiæted Hiarta i Eptertekt

erteft og Aveptenum framveges. O Jesu! Gef ad þesse Dagur sie eiñ Ydrunar Dagur, og Lijferneſins Betrunar Dagur, jaa, einn heilagur Dagur. Sieu nu Synder mijnar drecktar i Haſſens Dimpe þijns heilaga Bloods, hveriu eg og fullkomlega trwe. So gef eg og ſel mig og mitt þetta Aform, þier, minn JEſu! til ſaaluhiaalpslegra Urræda, og æſkeleguſtu Endalyktar, i þijnu Nafne og Naadar Trauſte. Amen.

## Bæn epter Aflauſnena.

Packer giore eg þier, minn himneſke Hiartans Fader! fyrer þaa Naad, er þu mier, i Nafne mijns Lauſnara Jeſu Chriſti, hefur nu aa þeſſare Stundu veitt, þar þu hefur leyſt Fiotur miña Synda, og ſaagad mijn Synda-Saar, huggad og gladt mitt Hiarta, med heilagre Aflauſn, og Bodan Syndaña Fyrergefningar, fyrer Muñ þijns Þenara. O Rotteñ minn! Gef þu mier þig hier fyrer ad prijſa, hiartañlega elſka, og þier þioona. Send mier Naad þijns H. Anda, ad eg halda kunne þad eg lofade i miñe Jaatningu, mig vid Syndunum framveges ad ſiaa, og i Endurnijungu Lijfdaganna ad gaanga, ſo eg ecke þverwdarſamlega Syndernar drijge; Og þo eg ſyndge (þvi þar er eingenn ſem ei ſyndge) þaa gef mier af Syndunum upp ad rijſa, og ad eg minneſt, ad Ovidurkvæmelegt ſie þad, ad aſklædaſt þeim fagra Rettlæteſins Skrwda Jeſu Rettlætes, og

iklædaſt

iklædast aptur svijvirdelegum Syndaña Flijkum. O Drottenn miñ! Stioorna mier i Dag og alla Tijma, til alls Goods, og med þessum Þanka vil eg nu i Dag þyggia og medtaka O Drotteñs Kvoldmaaltijd. Gud minn uppfylle mijna Naudsyn, epter sijnum Dijrdar Rijkdoom i Christo JEsu. Amen.

## Bæn fyrer Sacramentis Medtekning.

O HErra JESU Christe, Brunnur allrar Naadar, þu Hugsvolun þeirra Þyrstu, og Lækning þeirra Siwku! Hiartanleg var þijn Elska, þaa þu wthellter þijnu heilaga Bloode, til Foornar og Forlijkunar fyrer vorar Synder, og i Miñing þiñar Pijnu, iñsetter þad H. Sacramentum þijns Lijkama og Bloods, sem er Jñsigle, og so sem þijn eigen Handskrift þijns Naadar Saattmaala. Þetta er sw lifande Odaudleikañs Fæda Saalareñar, sw dijrmæta Kræsingen ollum Hlutunn sætare, þad seita Gestaboded; Hier til laangar nu mijna Saal og hwngrar; Eñ (Gud naade) eg em breiskur, eg em Overdugur, eg giet ei græted mijnar Synder, sem eg vilde og ætte, Trwen er veik, og Astundanen til þess Gooda dopur, Hiartad er fullt med saurugar Hugrenningar. Þetta jaata eg. O Drotteñ! Laat nu þiñ Krapt vera i mier breiskum maattugañ. Laat þiñ heilaga Anda upplysa Hiarta mitt, og giera þad brennande, so eg medtake nu þitt Sacramentum,

meritum, ecke Overduglega, mier til Dooms Afelles, heldur verduglega, mier til Sæluhialpar. Giør mig eiñ sammañ Johannem, sem med Trwñe nu hwijle a þijnu Brioste, og þadann wtsiwge Sætleika þiñar Huggunar, Wijsdooms og Styrkleika, ad eg verde þinn eigenn Limur. Sie þitt heilaga Sacramentum, HErra JEsu! mier eitt Merke og Teikn allrar Blessunar og Farsældar, lat mig af þessu Merke rada og dæma alla mijna Velferd. Fel eg mig nu, miñ HErra JEsu! i blessudum Biargskorum þinna Blood-Unda. Opna mier þær Blood-fogru Naadar Dyr þiñar Sijdu, einkum i Andlaate mijnu, so eg mætte inngaanga uñ Port þeirrar himnesku Jerusalem. Hier uñ bænheyr mig, miñ HErra JEsu! fyrer þijns heilaga Nafns Saker. Amen.

## Bæn epter Sacramentis Medtekning.

LOF og Heidur sie þier, minn liwfe Lausnare JEsu Christe! fyrer þad, ad þu hefur nu lated mig verda Hluttakara þijns sæta Gestabods, i hveriu þu sadder mijna Saal, og endurnærder mitt Hiarta. Nu er eg ordenn þitt Barn, Brooder og Læresveinn. Giore mier nu eingeñ hier epter Ónaad, hverke Daude, Diøfull nie Helvijte, ei Hold nie Heimur, þvi eg ber Miñing Blood-Benia mijns JEsu i mijnu Hiarta. J þessum Styrkleika vil eg gaanga gegnum alla

Horm-

Hormung og sialfann Daudann, til Fiallsens DRottens, til Borgaraskaps þeirra Heilögu. DRotten JEsu! Gef mier hier epter nu so ad lifa, ad ꝏ mier sieast þad fagra Brudarskart þijns Rettlætes, og þær fagur-bloomgudu Roosier og Liliur goodra Dygda. Lꝏt mig Syndernar frávegis fordast, sem Hoggorm. Geim mig frꝏ ollu Illu, og helga mig i þijnum Sannleika, þijn Ord eru Sannleikur, so eg um sijder mætte vera sem þu ert, med Fodurnum og þier, og med H. Anda, so sem þid erud eitt. Og þetta allt sie nu og vere, Amen. J JEsu Nafne, Amen. J Nafne Fodur, og Sonar, og heilags Anda. A M E N.

## Bæn um goodann Afgang.

Almattuge, eilijfe, mijskunsame Gud og Fader vors DRottens JEsu Christi! Þu sem Mannsens Lijf og Sælu mindader, og lætur Mannenn aptur i burtu deya, og til sinnar Moodur Jardarennar aptur hverfa: Eg aum syndug Manneskia veit, ad eg a i burtu ad deya, og Veg alls Holds ganga, vid Vine og Verold skilia, enn Tijme og Maate mijns Dauda, er mier hulenn. Þar fyrer bid eg: Upplys mig, Drotten, med þijnum heilaga Anda, ad eg kunne mig christelega hier til ad bwa, so eg mætte deya rettlætra Manna Dauda. Upplys mijn Augu, so eg sofne ecke i Daudanum. Gef mier hæga og sæluga Dauda-Stund. Gef ad mijn Utfor verde farsæl, fyrer Dauda mijns DRottens JEsu.

Endurnær mijna Sal med Holde og Bloode mijns DRottens JEsu. O þu heilage Ande! Myk og sefa alla Ogn og Ofbod Daudans, med þijnum Sætleika, og Miñing Christi Blood-Sveita. DRottenn, eg bijd þijns Hialpræds, sem Jacob. Lat mig i Fride fara, sem Simeonem. Opna mier Himenen, sem Stephano. Lat mig ödlast Rettlætesins Koronu, sem Paulum. O JEsu! Opna þær Blood-fögru Dyr þiñar Sijdu, miñe Salu i Andlatenu. Gef mier Fyrerheit um Paradijs, sem Ræningianum. Lat þijna Engla flytia mijna Sal i Fadm Abrahams, sem Lazari. Lat mitt sijdarsta Ord verda sem þitt a Krossenum, so eg eilijflega salnhoolpenn verda mætte. A M E N.



## Prent-Villur.

Pag. 15. Lin. 21. hønnm, les hønum. P. 16. L. 29. Medaumkuuar, l. Medaumkunar. P. 18. L. 10. sijna, l. sijna. Ibid. L. 20. sig, l. sig. P. 24. L. 6. finum, l. sijnum. P. 25. L. 23. Bæu. l. Bæn. P. 62. L. 26. umsnyr, l. uṁsnyr. P. 76. L. 6. Vonsku, l. Vondsku.

Hvad fleira smaaveges hefur kunnad yfersiast, vid Correction þessa Bæklings, er goodfws Lesare umbedenn ad lagfæra, og lesa i Maaled.



